# Brautin

## Ársrit Hins Sameinaða Kirkjufélags Íslendinga í Norður Ameríku



"En ef við nú reyndum að brjótast það beint,
þó brekkurnar verði þar hærri?
Vort ferðalag gengur svo grátlega seint,
og gaufið og krókana höfum við reynt —
og framtíðar landið er fjærri.

Og meðan hin kolsvörtu miðalda ský,
sem myrkur á heiðunum lágu,
var hugguninn einasta hörmunum í,
að hefja sinn anda að landinu því —
þar brostu við tindarnir bláu."



I. ár 1944

Andrea Johnson

# Brautin

**Rit um andleg mál og skoðanafrelsi.**



FYRSTI ÁRGANGUR
1944



**Ritstjórnarnefnd:**

Ritstjóri: séra Halldór E. Johnson
Ritstjóri kvennadeildar: Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir
Meðritstjórar: séra Eyjólfur J. Melan
séra Philip M. Pétursson



WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af hinu Sameinaða Kirkjufélagi Íslendinga í Norður Ameríku

Þetta hefti er helgað
minning
Séra Guðmundar Árnasonar
með þakklæti og virðingu.



# EFNISYFIRLIT





## DEILD KVENNASAMBANDSINS

# Brautin

ÁRSRIT HINS SAMEINAÐA KIRKJUFÉLAGS

1. ár Winnipeg, Man., júní 1944 Nr. 1.

## TIL LESARANS

Við lifum á örlagaríkum tímamótum. Sem stendur er þess fyrst og fremst af hverjum einum krafist, að hann leggi sitt ítrasta fram til stríðsþarfanna, svo ófriðurinn endi með bráðum sigri fyrir fósturlandið. Takmark þessa sigurs er upprennandi friðaröld. Þetta er ekki einungis æskilegt hugsjóna takmark, heldur einnig lífsnauðsyn mannkynsins. Mannkynið má ekki við fleiri blóðfórnum á borð við þau hjaðningavíg er leitt hafa heimsþjóðirnar út í tvær aljarðar styrjaldir á einum mannsaldri.

Gengi þjóða, sem einstaklinga, er undir því komið hversu ríflegt framlag þeirra reynist til þeirrar nýmenningar er á að rísa og verður að rísa af rústum þessarar styrjaldar. Manndómsvitund hvers einstaklings spyrnir hann sporum til hins stærsta framlags í sameignarsjóð hinna endurlífgandi menningar hugsjóna. Við eigum, einn sem annar, að rækta þann gróðurreit, er ávöxtin ber til friðar og framfara á komandi öldum.

Hróður og velgengi vors kyns, í Vesturheimi, verður, í framtíðinni, algerlega undir því komið hvert framlag vort verður tiltölulega stórt eða smátt til þessarar alheims uppbyggingar. Þetta á hvað helzt heima um íslenzku kirkjuna hérna megin hafsins. Sú spurning gerist nú áleitin, hvort hennar sé þörf, hvort hún sé fremur til styrktar eða hindrunar á framsóknarbrautinni. Engin megnar að gefa svarið nema kirkjan sjálf. Hún verður að sanna tilverurétt sinn með þjónustu sinni við þær hugsjónir, er hvað helzt virðast búa mönnum betri framfara skilyrði og tryggja heimsfriðin.

Madame Chiang Kai-Shek hafði þessar hugsjónir í huga þegar hún lauk sínu heimsfræga erindi til bandaríska þjóðþingsins með svofeldum orðum: "Okkur er þörf, að þekkja hið umliðna, lifa og starfa í samtíðinni og gera áætlanir um hið ókomna."

Með því að rekja þroskasögu trúarbragðanna, einkum meðal Íslendinga, getur maður greint gæfusporin frá villuráfinu um veglausa jörð. Þá mun það auka okkur kjark til framsóknar, að sjá þess víða vottinn, að trúin hefir stundum reynst hreyfimáttur hugsjónanna á liðnum öldum. Aðeins frjálslynd kirkja og sannleikselskandi trúarbrögð geta int slíka eftirgrenslan af hendi með hlutdrægnislausri sanngirni.

Aðeins frjálstrúarkirkja — sönn frjálstrúar kirkja — getur lifað og starfað með samtíð sinni. Hún vísar ekki nýjum rannsóknum á bug, sem afvegaleiðandi dægurdraumum, einungis vegna þess, að þær kunna að koma í bága við fornar kennisetningar. Hún tekur ekki "opinberanir" fornaldar framyfir reynslu þekking samtíðarinnar. Hún fordæmir ekki hugsjónirnar af því þær kunna að eiga upptök sín að rekja til Íslands eða Ameríku fremur en spámannanna, sem alþýðan grýtti eða krossfesti austur við Dauðahafið fyrir tveim eða þrem þúsund árum síðan.

Aðeins frjálstrúar kristindómur getur gert heillavænlegar áætlanir um framtíðina því hann horfir framávið, en ekki um öxl. Slíkur kristindómur er ekki rígbundin við forna kirkjusiði og þessvegna frjáls að leita sannleikans í boðskap Jesú Krists, sem innibyrgðar klaustursálir hafa myrkvað á marga vegu.

Hversu okkur kann að takast, að fræða og vekja lesendur þessa litla rits, verður reynslan ein úr að skera. Við getum einungis lofað, að leggja okkur alla fram í sannleiksleitinni, — "og sigursæll er góður vilji".

Verkefnunum verður annars ekki fremur lýst nema hvað við viljum rekja aðal atriðin í kirkjusögu Vestur-Íslendinga með fullri sanngirni en samt með djörfung til að bera sannleikanum vitni eftir vorri allra beztu þekkingu. Fréttir um andleg mál og umsagnir um andlegar stefnur vorrar eigin tíðar, skulu einnig hér rædd, frá sama sjónarmiði.

Önnur rit annast um daglegar fréttaskýrslur frá viðburðum dagsins, í hinu ytra starfslífi þjóða, okkar hlutverk teljum við sérstaklega að greina frá því, sem gerist í andans heimi.

Mörgum hefir fundist þess nokkur þörf, að meira væri fært til frétta frá gróandanum í heimslífinu, en int er frá í dagblöðunum, sem aðallega skýra frá slysförum, hrottaskap og hermdarverkum — við skulum leitast við að færa ykkur fréttir úr **"lífsins Fagradal"**.

# Minningar um séra Guðmund Árnason



Það hefir verið venja Hins Sameinaða Kirkjufélags að birta í sérstöku riti, ræður þær og minningarorð, sem flutt hafa verið yfir þeim leiðtogum kirkjufélagsins, sem hnigið hafa í valinn. Út af þessari reglu átti eigi að bregða hvað séra Guðmund sál. Árnason snerti. Fresturinn stafar af því að ákveðið var að gefa út rit, og þótti viðeigandi að minningarorðin um séra Guðmund birtust þar.

Frá láti hans að þessari stund er nú liðið rúmt ár, því að hann lézt á miðvikudag, 24. febrúar 1943, en þótt sú stund sé liðin, lifir minning hans í hugum ástvina hans og samverkamanna, og einnig meðvitund þess hversu mikil eftirsjá oss er öllum að honum og starfi hans.

Það eru forlög flestra manna að gleymast bráðlega er för þeirra hér á jörð er lokið. Það hlýtur svo að vera, og er sennilega nauðsynlegt, að því sé þannig ráðstafað, að þeir sem vér kveðjum hvílist í ró gleymskunnar eins og í friði grafarinnar.

Á þessu eru þó undantekningar eins og flestu öðru. Sumum mönnum er svo farið að minning þeirra verður hvorki grafin né gleymd, þótt þeir sjálfir falli frá. Þetta á við um þá menn, sem hafa borið gæfu til að helga líf sitt og starf þeim málefnum, sem ætíð verða síung og ódauðleg með mannkyninu. Þau málefni virðast í fljótu bragði mörg, því að sagan getur manna, sem aldrei deyja, og þeir tilheyrðu flestum starfsviðum og athöfnum mannanna. En þrátt fyrir það drukku þeir allir úr þeirri sömu lífsins lind. Þeir áttu allir sömu þrána til fullkomnara lífs og létu hana rætast. Hvort sem það var fegurð, siðgæði, sannleikur, þekking eða réttlæti, sem þeir þjónuðu, þá áttu þeir allir sama einkennið. Þeir voru allir siðbótar menn. Yfir lífi þeirra skín hin eilífa miðnætursól minninganna, sem aldrei hnígur til viðar, og geislar hennar verma um minningu hvers þess manns, sem hefir helgað sig siðbótaþránni eða hefir borið gæfu til að hafa hlotið hana í vöggugjöf.

Séra Guðmundur sál. var einn þeirra manna. Hann var að náttúrunni til vel gefinn með sterkri þrá til lærdóms og þekkingar. Hann barðist hjálparlaust áfram á mentabraut

sinni og hafði það markmið fyrir augum að verða siðbótarmaður. Þess vegna gerðist hann nemandi við fremsta frjálstrúar guðfræðisskóla, sem til er á þessu meginlandi, og lauk þar námi með heiðri. Alla æfina að því námi loknu, starfaði hann að útbreiðslu frjálstrúar lífsskoðana og ávann sér traust og virðingu allra, sem kyntust honum.

"Anda þíns framsókn
á öllum sviðum
vildir þú leysa úr læðingi."

Segir Dr. S. E. Björnson í eftirmælum þeim, er hann orti um séra Guðmund, og er það rétt dæmi. Hann var andlegur framsóknarmaður og trúr þeirri köllun sinni, að losa af sér hverskonar fjötra hindurvitna, hjátrúar og gamals vana, og verða fullkomnari í framsókn sinni og kenningu. Þessvegna þarf mörg ár til að grafa minningu hans í djúp gleymskunnar, og jafnvel þótt nafnið gleymist lifir starfið í framsókn kynslóðanna.

Séra Guðmundur lifir eigi aðeins í minningu vina sinna, sem merkur og snjall ræðumaður og andlegur leiðtogi, heldur lifir hann lengi í hugum manna sem góður og trúr maður. Margur í bygð hans mun lengi sakna séra Guðmundar og konu hans, frú Sigríðar. Minnast þeirra fyrir mannúð þeirra og prúðmensku, hins gestrisna heimilis þeirra og baráttu þeirra fyrir siðbót á svo mörgum sviðum.

Annar vinur og samherji Guðmundar, Mr. V. J. Guttormsson, kveður um hann:

"Glaðværð þú vildir glæða mest,
gáfum og elju til þess fórna,
ávalt það tókst þér einum best
almennings gleðifundum stjórna."

Þetta er líka sannmæli. Það bendir á hreysti og kjark hans hversu glaðlyndur hann var, þótt hann ætti um langt skeið æfinnar við þröngan kost að búa. Hann lét aldrei yfirbugast, og leit á lífið og tilveruna björtum augum og hafði næmt auga fyrir hinum skringilegu atriðum sem verða jafnan á vegi þeirra, sem hæfileika hafa til að sjá þau. Eiga kunningjar séra Guðmundar því margar glaðar endurminningar frá

samverustundunum og muna hversu snildarlega hann gat lýst þessum kátlegu kynjamyndum, er hann hafði séð. En langlengst lifir hann í minningum vorum, sem góður og göfugur maður, og góður drengur, er var trúr öllu því er hann vissi sannast og réttast. Friður sé með minning hans.

---

# Ræður við útför séra Guðmundar Árnasonar, 2. marz 1943 í Winnipeg

★

**Ræða sr. Philips M. Péturssonar:**

Í heilagri ritningu austurlenzkrar þjóðar standa rituð þessi orð:

> "Þegar réttlátur maður deyr, bíður heimurinn skaða. En gimsteinninn verður ætíð gimsteinn þótt hann gangi úr eign fyrra eigandans, en sannarlega má eigandinn syrgja."

Í þessum orðum er sannleikur fólginn sem vér skiljum ef til vill betur í dag, (er vér komum saman til að kveðja þann vin og félagsbróður, sem hér hvílir í hinsta sinn), en nokkru sinni fyr. Sannarlega er réttlátur maður nú hniginn til moldar, og heimurinn hefir beðið skaða. "En gimsteinninn verður ætíð gimsteinn, þótt hann gangi úr eign fyrra eigandans, en sannarlega má eigandinn syrgja."

Öll þau verðmæti sem einkendu hann og sem leiddu af honum eru enn hin sömu verðmæti. Minningarnar um hann lifa, fögnuðurinn yfir því, að hafa þekt hann, hverfur ekki þó að hann sé horfinn héðan, en vér syrgjum burtför hans, og finnum til djúps og einlægs saknaðar.

Fáir menn eru eftir meðal vor, sem hafa jafnast á við séra Guðmund, — og aldrei kemur annar sem getur fylt upp það skarð sem nú er orðið við fráfall hans. Hann var með fullum sanni, gimsteinn að manni, og nú er hann er farinn, er vandi að segja nokkuð sem getur skoðast, jafnvel að örlitlu leyti, sem fullnægjandi, og í samræmi við tilfinningar vorar á þessari kveðjustund.

Hann var prestur safnaðarins á Lundar, og safnaðarins á Oak Point, s. l. 15 ár, og þar átti hann marga ágæta vini, sem

vildu honum vel, bæði innan og utan safnaðanna. Í raun og veru voru allir menn þar, beggja megin Manitoba-vatnsins, eins langt norður og bygðin nær, vinir hans. Hann kom sér vel við alla, og þótti öllum verulega vænt um hann, bæði sem mann og sem prest. Hann var greiðvikin, sanngjarn og áreiðanlegur. Hann var glaður í lund, blíður í viðmóti, óspar á sjálfum sér, og fór marga ómaksferð fyrir aðra, aðeins til að vera öðrum hjálpsamur en ekki vegna þess að staða hans krefðist þess, né heldur að bein nauðsyn væri á því í mörgum tilfellum. Þess vegna skoða eg hann sem gimstein að manni, sem vér megum nú öll, eins og vér gerum, sannarlega syrgja.

Séra Guðmundur var prestur á Lundar og Oak Point síðan um árið 1928. Hann bjó nokkur ár á Oak Point, en flutti síðar norður til Lundar árið 1933. En s. l. rúm 40 ár, frá því að hann kom til þessa lands, þjónaði hann að einhverju leyti frjálstrúar hreyfingunni, sem hann var nú aðal foringi að, meðal Íslendinga, er hann dó. Hans er fyrst getið í þingfréttum frá öðru kirkjuþingi Únitara safnaðar Íslendinga, sem haldið var í Winnipeg 30. júlí 1903. Þá var hann fyrir rúmu ári kominn frá Íslandi. Á því þingi var hann kosinn varaskrifari, en skrifarinn var sá sami sem kosinn hafði verið á stofnþinginu tveimur árum áður, Þorvaldur Þorvaldsson, sem dó nokkru seinna í Cambridge, Mass., þar sem hann stundaði nám við Harvard háskólann. Meðal hinna, sem kosnir voru í nefndina það ár voru séra Magnús Skaptason sem forseti, Skafti Brynjólfsson og Friðrik Sveinsson, sem eru allir dánir, auk hinna sem einnig voru kosnir. Séra Guðmundur var sá síðasti úr þessari nefnd, sem eftir var, og nú er hann einnig farinn, og með fráfalli hans, er hinn síðasti lifandi þráður slitinn, sem tengdi oss við þessi fyrstu ár hreyfingar vorrar, sem var þá aðeins í byrjun þess, að breiðast út til hinna íslenzku bygða. En frá þeim degi, er hann var settur í vara-skrifara stöðuna, og til þess dags sem hann dó, þó að hann væri ekki þjónandi prestur allan þann tíma, vann hann að málum hinnar frjálsu trúhreyfingar, og var í einhverju embætti, og nú er hann kvaddi var hann forseti kirkjufélags vors, og Regional Director hinna íslenzku kirkna, útnefndur í þá stöðu af American Unitarian Association. Þannig hefir hann unnið að þessum málum full fjörutíu ár í þessu landi, og þar áður, áður en hann kom til þessa lands, á Seyðisfirði á Íslandi. Skýrt er frá því í gömlu tímariti, þar sem grein birtist um hann er hann

var að fara suður til Bandaríkjanna á prestaskóla, að það hafi hann gert. Þar er sagt:

> "Áður en hann kom hingað til lands átti hann öflugan þátt í hinni únitarísku hreyfingu, er hafin var á Seyðisfirði nú fyrir nokkrum árum síðan undir umsjón Sigurðar sál. Einarssonar, sem héðan kom að vestan. Það mál er honum því ekkert nýtt, og væntum vér því hins bezta frá honum í framtíðinni."
>
> (Heimir, I., bls. 74)

Af þessu að dæma mætti segja að öll fullorðinsárin hafi séra Guðmundur unnið að vorum frjálstrúarmálum, og jafnvel á síðustu dögum banalegu hans, er eg skrapp norður til Lundar snöggva ferð, til að taka í hendina á honum og tala við hann örfá vinarorð, hafði hann allan hugan við þau mál, og var honum sérstaklega ant um kirkjuna þar og starf hennar. Hið allra síðasta sem hann sagði við mig er eg kvaddi hann, var að biðja mig að koma norður til Lundar og halda þar messu áður en langt liði.

Sézt þannig af þessu hve mikill áhugi hans var fyrir málum vorum. Einnig skilst oss, hve mikils er nú mist.

Séra Guðmundur kom til þessa lands seint um árið 1901. Sagt er að hann hafi farið að heiman af Íslandi um haustið 1901, í október mánuði. Þá var hann rúmlega tvítugur að aldri.

Hann var fæddur 4. apríl, 1880, að Munaðarnesi í Mýrasýslu við Borgarfjörð. Foreldrar hans voru þau Árni Þorláksson frá Minna Knararnesi á Vatnsleysuströnd og Helga Kjartansdóttir frá Munaðarnesi. Föðurætt hans er öll úr Gullbringusýslu, en móðurætt hans var borgfirsk. Hann ólst upp hjá foreldrum sínum að Vatnsleysuströnd í Gullbringusýslu, unz hann var 18 vetra, þá flutti hann á Seyðisfjörð, og þaðan flutti hann um haustið 1901 hingað vestur. Einu sinni kom hann heim til Íslands aftur, hátíðarárið mikla, 1930, og heimsótti æskustöðvar.

Skólamentunar naut hann á Íslandi fram yfir það sem alment gerist, lærði þar bæði ensku og skandinavizku málin og hinar almennu barnaskólagreinar. Hann mun hafa útskrifast af búfræðisskólanum á Eiðum og verið nokkurn tíma á Möðruvöllum. Eftir að hann kom vestur, stundaði hann nám við

verzlunarskóla Winnipeg-bæjar, og auk þess tók hann tímakenslu í ýmsum öðrum greinum.

Haustið 1904 fór hann austur til Meadville, Penn., og byrjaði á guðfræðinámi þar, við prestaskóla Únitara. Honum var haldið kveðjusamsæti í Winnipeg — og í fréttagreininni sem þá var rituð um það, sézt hve hann var þegar orðinn vinsæll, þó að dvöl hans hér væri ekki orðin löng. Sagt er í greininni:

"Við burtför Guðmundar missa félagsmál vor Íslendinga í bráð öflugann stuðningsmann og örugg-ann. Hann var einn af safnaðarfulltrúum Únitarasafnaðarins og skrifari hins únitariska kirkjufélags. Enn fremur var hann einn af aðalmönnum Goodtemplara félagsins." (Heimir I., bls. 74).

Auk þess var hann í útgáfunefnd Heimis. Af þessu öllu má sjá að ekki leið á löngu eftir komu hans vestur, áður en hann var farinn að taka markverðan þátt í málum Íslendinga vestan hafs.

Á prestaskólanum í Meadville, var hann fjögur ár, og útskrifaðist þaðan árið 1908, og hlaut þá nafnbótina Bachelor of Divinity, og með henni verðlaun, The Cruft Fellowship, sem fylgdi peningaupphæð til framhaldsnáms í Evrópu. Hann fór næsta haust til Þýzkalands og stundaði þar nám allan næsta veturinn í Berlín, og kom til Winnipeg aftur seint um sumarið árið 1909, og tók við prestsþjónustu Únitarasafnaðarins þangað sem hann hafði verið ráðinn, samkvæmt fundarbókinni, á fundi sem haldinn var 4. júlí 1909.

Únitara söfnuðinum þjónaði hann þangað til um sumarið 1915, þegar hann sagði af sér. Nokkur ár þar á eftir var hann hvergi fastur prestur, en hafði samt altaf vakandi áhuga fyrir málum vorum, og mætti oftast á þingum Únitara kirkjufélagsins.

Hann var staddur á stofnþingi Hins sameinaða kirkjufélags í Winnipeg, 31. júní, 1923, og á næsta þinginu, ári seinna, var hann kosinn vara-skrifari. Árið 1928 tók hann fasta stöðu sem prestur í Lundar-bygðinni eða Álftavatnsbygðinni, eins og hún er kölluð, og þjónaði þar söfnuðunum úr því. Það var honum að miklu leyti að þakka að kirkjurnar voru fluttar inn í Lundar og Oak Point, utan af landi, og að gengið var frá þeim eins myndarlega og reyndist.

Árið 1931 var hann kosinn ritari kirkjufélagsins, og

þremur árum seinna, 1934, forseti, og svo fyrir tveimur árum var hann gerður að Regional Director of The American Unitarian Association.

Með þessum orðum — þessum atriðum — vil eg bera séra Guðmundi og minningu hans þann góða vitnisburð sem hann verðskuldar að fullu, en þó hefi eg aðeins drepið á aðra hlið verksviðs hans, hlið hins opinbera, hlið kennimannsins og starfsmannsins. En til er önnur hlið, sem verðskuldar engu að síður að maður minnist með aðdáun og lofi, og það er hlið eiginmannsins og föðursins.

Hann kvæntist 12. ágúst 1909, eftirlifandi konu sinni, Sigríði Einarsdóttur Sæmundsson, í Cambridge á Englandi, og kom hún með honum til Winnipeg seint í sama mánuði. Hún er ættuð frá Leirá í Borgarfirði, og kom til þessa lands sem barn með móður sinni og hefir alt af átt hér heima síðan. Árið 1908 fór hún til Englands og dvaldi á Englandi hjá föðursystur sinni, Sigríði, konu Eiríks Magnússonar í Cambridge, og þar, eins og eg gat um, giftist hún séra Guðmundi er hann lauk námi sínu á Þýzkalandi, og stefndi heim til Winnipeg aftur, til að byrja þar starf sitt við Fyrsta íslenzka únitara söfnuðinn.

Börn þeirra eru þrjú, sem eru hin efnilegustu og bera það með sér að þau eru af góðum foreldrum komin. Þau eru: **Einar**, sem er yfirforingi (major) í Canadahernum á Englandi. Hann er giftur Thóru Magnússon sem á heima í Winnipeg; og tvær dætur, **Helga**, sem er gift Thomas Miller, í Winnipeg, og **Hrefna**, gift Páli Einarssyni í St. James. Auk þeirra eru þrjú barnabörn.

Að því er bezt er vitað, eru fimm systkini séra Guðmundar á lífi, tvær systur á Íslandi, María og Kristín, tveir bræður á Íslandi, Kristinn og Þorlákur, og einn bróðir, Eggert, í Canadahernum á Englandi.

Með þessu, er aðal dráttum æfinnar, sem nú er á enda, lýst. En svo mikið er enn eftir ósagt, sem maður vildi taka fram, vildi mega taka sér leyfi til að segja, en má það samt ekki, tímans vegna. Það er engu líkara en þegar vér erum að kveðja kæran vin, sem vér höfum heimsótt og vitum að vér verðum að slíta oss frá, en langar samt til að vera með honum og halda í hendi hans, og heyra hann tala, eins lengi og vér getum.

Mörgu vildi eg bæta við þessi fáu orð, því ekki getur of mikið verið sagt. En vér vitum samt, að hversu mikið, sem

verður sagt um gimstein, þá nægir það aldrei, til að lýsa honum til hlítar. Og eins er nú, og eg segi aðeins að lokum, eins og einn ræðumannanna sagði við silfurbrúðkaup þeirra hjónanna, sem var haldið þeim á Lundar fyrir níu árum, 12. ágúst 1934. Hann komst þannig að orði:

"Þó að æfisaga séra Guðmundar sé lærdómsrík þá verður hún ekki sögð í þetta sinn. Aðeins vil eg minna á það, að hann kom hingað efnalaus en fullur af þrá eftir því, að auðga anda sinn af verðmætum þeim sem mest gildi hafa fyrir líf hvers eins. Honum tókst það gegnum ótal erfiðleika á þann hátt, að þjóð hans hér finnur æ betur með ári hverju sem líður, þá kennimanns hæfileika, sem honum voru gefnir í vöggugjöf. Hann hefir verið lánsmaður á fleira en eina lund og hefir konan hans, sem nú er búin að aðstoða hann í öllu hans starfi .... stuðlað manna bezt að því. Hún hefir óefað átt drjúgan þátt í allri hinni góðu starfsemi eiginmannsins og verður slíkt aldrei full þakkað."

Með þessu vil eg kveðja vin vorn, og að endingu endurtek eg orðin sem eg hafði yfir við byrjun þessara kveðjuorða:

"Þegar réttlátur maður deyr, bíður heimurinn skaða. En gimsteinn verður ætíð gimsteinn, þótt hann gangi úr eign fyrra eigandans, en sannarlega má eigandinn syrgja."

## Ræða séra Eyjólfs J. Melan:

Kristnu vinir!

Er vér eigum hér samfund til að veita þessum látna félagsbróður vorum hina síðustu þjónustu vora, sem er sú að fylgja jarðneskum leifum hans til hinstu hvíldar, þá finnum vér öll til þess, að úr hópi vorum er horfinn góður og nýtur maður, sem skilur eftir í fylkingunni skarð, sem eigi er auðfylt. Einnig finnum vér til sárrar samúðar með ástvinum hans, ekkju og börnum, er sjá á bak ástríkum eiginmanni og föður, er hefir horfið þeim sýn á bak við tjöld dauðans. Allir vinir séra Guðmundar sálaða Árnasonar, harma mjög fráfall hans, því að hið mikla starf hans í þágu félagsmála hér í landi, og íslenzkrar kirkjustarfsemi, hefir áunnið honum vináttu og

virðingu fjölda fólks, og skipað honum sæti með vorum beztu mönnum og áhrifamestu. En vér sem hér erum samankomin, rennum huganum yfir viðkynningu vora við hann, og yfir lífsstarf hans, eins og það birtist samverkamönnum hans, þá verða fyrir augum vorum sérstök einkenni, sem hann hafði til að bera er standa ljós og skýr í minningunni um hann.

Hann var fyrst og fremst mjög vel gefinn maður með mikilli fróðleiks- og námslöngun. Ungur og efnasnauður kom hann til þessa lands til að ryðja sér braut á hinum nýju og ókunnu slóðum. Vinna sér inn fé og frama eins og segir í sögunum. En hvað féð snertir, þá var það aldrei áhugamál hans. Hann var hvorki síngjarn né ágjarn í jarðnesk gæði og öðlaðist þau ekki. Þau gæði, sem hann sá í hyllingum vona sinna og drauma voru andleg gæði, mentun, sem gerði hann veitandi en ekki þiggjandi, í andans heimi, og hann kaus sér þá leið að verða prestur og andlegur leiðtogi. Til þess starfs var hann mjög vel fallinn fyrir margra hluta sakir, en eitt einkenni átti hann til að bera, sem sérstaklega var leiðarstjarna hans í lífsstarfinu og það var hreinskilni hans, er birtist jafnt í dagfari hans og orðum, sem í prédikunum hans og ritum. Hann hefir áreiðanlega gert sér þessar línur skáldsins að einkunnar orðum: "Mig langar að sá enga lýgi þar finni, sem lokar að síðustu bókinni minni." Þessi drengskapur hans og sannleiksást var svo augljós öllum, sem kyntust honum, að menn fengu strax virðingu og hlýhug til hans. Menn fundu það ætíð er þeir hlustuðu á ræður hans, að hann var að segja satt, það sem hann vissi og trúði að væri sannast. Framkoma hans var ætíð látlaus og hreinskilin, laus við það yfirlæti, sem leitast við að gera eitthvað mikið og aðdáanlegt úr því, sem lítið er eða ekki er til. Hann þurfti þess ekki með. Með vitsmunum sínum og lærdómi hafði hann skapað sér ákveðnar skoðanir og var þeim trúr, hvort sem öðrum féll það vel eða miður. Hann þurfti hvorki stóryrði né ofstæki til að trúa á málstað sinn, en rökræddi hann með ró og kurteisi hvenær sem þess þurfti.

Í dagfari hans og breytni gætti ætíð þessa sama. Hann var hinn mesti hófsmaður í breytni sinni, sannur og einlægur bindindismaður og lagði þeim félagsskap ætíð liðsyrði og hjálp þegar hann gat. Hann var og mikill starfsmaður, ætíð viljugur til að hjálpa félagsmálum og áhugamálum manna í bygðarlagi sínu og annarstaðar, og þótt æfi hans yrði ekki mjög löng, þá liggur eftir hann mikið starf er lætur hann eigi hverfa ólúinn

til hvíldar. Æfi þeirra manna, sem með einlægni boða mönnunum fagnaðarerindi Krists, er sjaldnast rósum stráð á vísu þessa heims. Sá sem ber í brjósti þrá til að sjá hreinar og göfugar hugsjónir rætast og vill sjálfur reynast þeim trúr verður oft að ganga einmana dimma og langa dali og stanza oft við helgrindur þeirrar þagnar sem sprettur af áhuga og hirðuleysi. Það þarf mikla trú til þess að hverfa ekki aftur á slíkri leið. Mikla von er sér þá fögru drauma rætast í fjarlægri framtíð. Er sér réttlætið og miskunsemina ríkja í mannheimum. En séra Guðmundur átti slíka trú. Hann trúði því að sannleikurinn hlyti að sigra, að hann væri lögmál, sem mundi ætíð sigra. Hann trúði því, að á bak við baráttu alls góðs og í og með í henni, væri hönd guðs, og því hlyti sigurinn að fást um síðir.

Á þessum vegamótum, þar sem vér hljótum að kveðja hann, þá minnumst vér hans sem góðs starfsmanns og góðs manns. Og vér kveðjum hann einnig með þeirri sannfæringu að hann hafi hvorki trúað né starfað fyrir gýg. Þótt orð hans hljómuðu ekki í háreistum musterum fyrir þúsundum áheyrenda, og þótt leiðir hans lægju oftast um strjálar bygðir og grýtta leið, þá náðu samt orð hans og áhrif til fjölda fólks. Fólks sem fann sannleikann, trúna og hreinskilnina í boðskap hans og fékk útsýni yfir nýrri og fegurri svið tilveru sinnar fyrir áhrif hans. Góð og heilbrigð áhrif, sem nú þegar hann sjálfur hefir kvatt lætur safnaðarbörn hans finna til þess, að þau kveðja nýtan og góðan leiðtoga, sem boðaði þeim frjálsan boðskap eins og hann sjálfur vissi hann sannastan og réttastan, að hann var trúr og öruggur leiðtogi og góður vinur, sem ætíð var reiðubúinn að gleðjast með þeim, og finna til með þeim.

Í þessu starfi sínu stóð séra Guðmundur ekki einn, við hlið hans stóð hin ágæta kona hans, sem um alla leið áranna reyndist honum tryggur og einlægur vinur, sem þrátt fyrir alla örðugleika, sem ætíð mæta mönnum á för þeirra hér í heimi, hélt við yl og ljósi heimilisins og var trú þeim hugsjónum og því starfi, sem hann hafði helgað líf sitt. Hann naut þeirrar gæfu að eiga hana að í hinni þungu raun hins langa heilsuleysis síðustu æfistunda og einnig þeirrar gleði, að sjá börn sín ná þroska aldri og verða að nýtum og mentuðum mönnum. Alt þetta er mikil gæfa, sem hinn framliðni vinur vor var þakklátur fyrir, og eg veit að þetta hefir varpað björtu ljósi yfir liðna tímann er hann mintist starfs síns og baráttu sinnar, sem oft var örðug,

og lét hann einnig líta óskelfdan fram á við, móti hverju, sem að höndum bar.

Eg sem hefi verið samverkamaður séra Guðmundar um allmörg ár, kveð hann með mikilli eftirsjá. Eg er sannfærður um að hann var góður drengur og trúr köllun sinni og samvizku. Eg minnist hans sem gáfaðs manns, sem hafði virðingu fyrir þekkingu og lærdómi og var ætíð að leita að meiri fræðslu og meiri þekkingu. Og eg minnist eins einkennis á skapferli hans og það var glaðlyndi hans og hið næma auga hans fyrir hinum kátlegu hliðum mannlífsins, sem hann sá svo vel og brosti að án nokkurrar kaldhæðni eða beiskju. Þetta glaðlyndi hans gerði viðkynninguna við hann miklu auðveldari, og skilur eftir í huganum bjartan blett og hlýjan. Hann var mjög vel máli farinn, rökfastur í hugsun og máli. Stefnufastur og frjálslyndur í skoðunum. Eins og eg gat um áðan var hann mjög greiðugur að hjálpa við mörg félagsleg fyrirtæki, og lagði á sig erfiðar og langar ferðir í því skyni, oftast án nokkurs endurgjalds.

Allir vildu hlusta á það, sem hann hafði að segja, það var ætíð skynsamlegt, fallegt og vert til umhugsunar. Við burtför hans er því autt skarð og ófylt í íslenzku félagslífi hér vestan hafs en sárast er þó fráfall hans konu og börnum og öðrum ástvinum, safnaðarbörnum hans og kirkjufélagi voru, sem hefir mist þar trúan og ötulan leiðtoga og ágætan starfsmann.

Fyrir öll þessi störf vil eg í nafni þeirra þakka honum af hjarta. Vér minnumst hans öll með virðingu og á þessari kveðjustund viljum vér hafa yfir orð meistarans er hann segir: "Sælir eru hjartahreinir, því að þeir munu Guð sjá." Eg trúi því staðfastlega að þetta fyrirheit frelsarans hafi ræzt á þessum framliðna vini vorum. Sú fullvissa mín byggist á því, að eg trúi orðum Krists, og að ekkert geti haggað sannleika þeirra. Eg veit að hjarta hreinleikurinn var eign séra Guðmundar, að hann varðveitti hann alt sitt líf og að þegar því er lokið fær sál hans leyfi til að líta þann guð er hann þjónaði og boðaði hér í lífi á svo trúan og drengilegan hátt. Friður guðs sé með minningu hans.

## Ræða sr. Valdimars J. Eylands:

Það hefir orðið hlutskifti mitt, í fjarveru forseta Þjóðræknisfélagsins, að koma hér fram fyrir félagsins hönd, og í nafni framkvæmdarnefndar þess, til að votta fjölskyldu hins framliðna, og öðrum vinum hans, innilega samúð og hluttekningu í tilefni af hinu sorglega og ótímabæra fráfalli þessa hins mæta starfsbróður vors og stuðningsmanns íslenzkra þjóðræknismála í þessu landi.

Á nýafstöðnu þingi félagsins var séra Guðmundar saknað af öllum. Var honum og fjölskyldu hans tvisvar vottaður hlýhugur þingmanna með símskeytum. Fyrra skeytið var sent strax á fyrsta fundi þingsins er hljóðbært varð um hinn alvarlega sjúkdóm hans, og það varð ljóst að hans myndi eigi von til þingsetu svo sem venjulega. Eigi er mér um það kunnugt hvort heilsu hans var þá þann veg háttað hann fengi að njóta þess hlýhugar sem skeytið flutti. Var það þá von og bæn allra þingmanna að hann mætti enn njóta hans um langan aldur. En sú von brást fyr en varði. Á síðasta þingdegi, er fregnin barst um andlát hans, var fjölskyldunni símað samúðarskeyti. Var oss öllum ljóst að við burtför hans hefðum vér mist ötulan og einlægan starfsmann, og að einum færra væri nú þeirra Íslendinga, sem með elju og alúð leggja sig fram til að varðveita á vorum slóðum hina dýrmætu arfleifð feðra vorra, eins og hún birtist í sögu þeirra og tungu.

Séra Guðmundur átti langan og giftudrjúgan starfsferil í Þjóðræknisfélaginu. — Hann mun hafa setið flest, ef ekki öll þing þess, og átt jafnan sæti í þeim nefndum sem mest þótti um vert. Þar sem úr vandamálum þurfti að greiða á þingum var hann ávalt tillögugóður, réttsýnn og sanngjarn í garð allra manna. Dómgreind hans var glögg, og framlög hans til máls ávalt hógvær, en bygð á traustum rökum. Hann var samvinnuþýður maður, og skapaði sér ótvírætt traust samnefndarmanna sinna og þingmanna yfirleitt.

En þótt nefnd séu þingstörf séra Guðmundar, er langt frá því að sagan um þjónustu hans í þágu félagsins sé öll sögð. Hann verður vafalaust talinn einn meðal hinna ritfærustu manna á meðal Íslendinga, þeirra sem alið hafa aldur sinn hér vestan hafs. Frá penna hans eru þá líka komnar fjölmargar fróðlegar ritgerðir sem birst hafa á ýmsum árum í Tímariti félagsins. Í þeim ritgerðum hefir hann, að því sem Þjóðræknisfélagið snertir, reist sér þann minnisvarða sem rithöfundur

og fræðimaður, sem lengi mun forða minningu hans frá gleymsku. Fyrir alla hina margþáttuðu starfsemi hans í þágu áhugamála félagsins bæði heima í héraði sínu, og á hinum víðtækari sviðum félagsmála vorra vottum vér honum nú hugheilar þakkir, um leið og vér réttum fjölskyldu hans hönd vora í söknuði og samúð.

"Öllu er afmörkuð stund, og sérhver hlutur undir himninum hefir sinn tíma." Með þessum fornu ritningarorðum byrjaði séra Guðmundur hina athygliverðu ritgerð sína um **Tvenn sambönd**, sem birtist fyrir nokkrum árum í Tímariti félags vors, og endurprentuð er í bókinni **Vestan um haf.** Vér í Þjóðræknisfélaginu söknum þess að æfistund hans hefir verið afmörkuð svo skjótt, að vér fengjum ekki að njóta hinna góðu hæfileika hans lengur. Hann hafði tengst oss öllum, einnig mörgum af oss sem ekki vorum honum sammála um ýms félagsleg áhugamál vor Vestur-Íslendinga, tvennum sambönd-um: sem Íslendingur og sem prúðmenni. Um fyrra sambandið hefi eg nú þegar getið og fyrir það þakkað í nafni félagsins sem eg er nú talsmaður fyrir. Um hið síðara vil eg einnig leyfa mér að bera vott persónulega. Við áttum fyrir alkunnar á-stæður litla samleið utan samvinnu okkar í Þjóðræknisfélaginu. Þó bar það all oft við að leiðir okkar lágu saman á þeim sviðum þar sem mjög skildi á um skoðanir okkar. Fór þá hvor okkar sína leið, án nokkurs afsláttar eða sniðgöngu við sannfæringu sína. En það breytti engu um kunningskap okkar. Við gátum talað saman í bróðerni fyrir því, og unnað hvor öðrum þess frumstæða réttar frjálsra manna að eiga hvor um sig sína helgu dóma án allrar ásælni eða tilgangslausra umþráttana. Séra Guðmundur kom mér ávalt fyrir sjónir sem einlægur maður, hreinn og heilsteyptur í lund, og vel mentaður. En það er jafnan einkenni mentaðra manna að vera hógværir í anda, og reyna ekki að troða sjálfum sér eða skoðunum sínum upp á aðra menn, sem sjálfir eiga sannfæringu sem þeir vita fyrir sína eigin samvizku og dómgreind bygða á traustum rökum.

Hið tvíþætta samband mun haldast við í minningunni um hinn látna samferðamann og starfsbróður: Hann var góður Íslendingur; hann var mentað prúðmenni.

Deyr fé  
deyja frændr.  
deyr sjálfr et sama;

en orðstírr  
deyr aldrigi  
hveim sér góðan getr.

# Úr dagblöðunum



Fár gat svo fyrri
frónbyggja sjón
glætt, að þeir mættu
geima skoða heima — —

Þannig kvað Jónas Hallgrímsson um Magnús Stephensen, háyfirdómara, sem upphafsmann má telja hinnar andlegu vakningar og endurmats á eldri skoðunum og stefnum er á Íslandi gerðu vart við sig í byrjun 19. aldar eigi síður en um alla Norðurálfuna. Við fregnina um lát séra Guðmundar Árnasonar, minnist maður ósjálfrátt þessa tímabils úr sögu þjóðar vorrar, skynsemis- og fræðslu-tímabilsins, vegna þess, að þar má heita að fyrst dagi fyrir víðsýni, er íslenzkir Unitarar hér vestra urðu fyrstir til að taka upp í verki, með stofnun frjálstrúar kirkju, sem nú hefir verið hér starfrækt í meira en hálfa öld og mörg af þeim árum undir stjórn hins nýlátna mikilsvirta ástvinar, gáfu- og fræðimanns, séra Guðmundar Árnasonar. — Það getur þótt mikið sagt, að starf hans og annara foringja frjálstrúar hreyfingarinnar hér vestra, hafi ollað svipuðum aldahvörfum í hugsunarhætti íslenzkrar þjóðar og forustumenn hennar gerðu í morgunsári nítjúndu aldar, en á því furðar oss ekki, þó sá verði á sínum tíma dómur sögunnar.

— — — — —

Eftir að séra Guðm. Árnason tók við starfi hjá Winnipeg söfnuðinum, tók hann einnig við ritstjórn "Heimis", mánaðarrits er nokkrir menn höfðu ráðist í að gefa út, til styrktar og útbreiðslu frjálstrúarmálum. Hafði séra Rögnvaldur Pétursson verið ritstjóri þess fimm ár, en alls kom það út í 9 ár. Það hætti að koma út í byrjun stríðsins 1914. Var skaði mikill að það varð að hætta, því jafnfætis því hefir ekkert íslenzkt mánaðarrit fyr eða síðar staðið. Í því er að finna margt það sem djarfast, frjálsast, glegst og vísindalegast hefir skrifað verið á íslenzku um stefnur og strauma í trúmálum, heimspeki, skáldskap og bókmentum. Að kryfja málið til mergjar í ljósi nútíðar þekkingar, var í engu samtíðarriti "Heimis" betur gert,

enda má öfgalaust segja, að ekkert íslenzkt rit hafi í byrjun þessarar aldar gert meira að því, að uppræta hjátrú og hindurvitni, skynhelgi og hugsunarleysi en þetta mánaðarrit. Þetta má um ritið jafnt segja, eftir að séra Guðmundur tók við ritstjórn þess sem áður og má segja, að hins sama verði vart í greinum þeirra séra Guðmundar og séra Rögnvaldar, hvar raunar sem birst hafa. Þær hafa að gerhygli til ávalt verið með því bezta, sem hér hefir verið skrifað.

Annað sem séra Guðmundur lét sig miklu skifta, meðan hann var í Winnipeg, var Menningarfélagið. Það var ekki aðeins að hann flytti þar hvert erindið öðru betra og skemtilegra, heldur varð hann oftast til að hefja umræður á fundum, um málefni þau, er þar voru af öðrum flutt. Höfum vér ekki hlýtt á aðra ræðumenn hér, er undirbúningslaust hafa skipulegar flutt mál sitt, en séra Guðmundur þá oft gerði. Í þessu starfi, sem Menningarfélagið hafði með höndum og sem vér ætlum eitt hið bezta hafa verið til eflingar fróðleik og menningu, sem hér hefir verið ráðist í félagslega, átti séra Guðmundur Árnason ómældan þátt. Það má öfgalaust segja, að velferð þess félags og áhrif væru honum mjög mikið að þakka.
—Stefán Einarsson í Heimskringlu 3. marz 1943.



Séra Guðmundur var maður rökvís í ræðu, og ritfær vel; þó fanst mér altaf mest til um hann, sem hinn hreinlundaða mannkostamann, er hataðist við fláttskap og undirhyggju; þar sem séra Guðmundur var á ferð, taldi hann það æðstu köllun lífsins, að verða samferðasveit sinni að liði; hann var hjartagóður íslenzkur drengskaparmaður, er ekkert aumt mátti sjá án þess að hlaupa undir bagga, þó sjaldnast væri af miklu að miðla.

Séra Guðmundur var gæfumaður; kona hans, Sigríður, gáfuð ágætiskona, er varpaði mildum geislum á sambúðina, og börnin þrjú, Einar, Helga og Hrefna, öll hin mannvænlegustu, og samrýmd foreldrum sínum sem þá, er bezt gerist; er með fráfalli séra Guðmundar höggvið raunverulegt skarð í vort fámenna mannfélag vestan hafs; því nú er þar autt rúm, er áður var með manndómsfestu skipað.

Minningarathöfn um séra Guðmund var haldin á Lundar síðastliðinn mánudag, en hin hinstu kveðjumál voru flutt í Sambandskirkjunni í Winnipeg á þriðjudaginn að viðstöddu miklu fjölmenni.—E. P. Jónsson í Lögbergi 4. marz 1943.

# Ritmenska séra Guðmundar



Eigi má svo frá þessum minningum ganga, að ekki sé getið ritstarfa séra Guðmundar, því bæði lýsa þær manninum og áhrifum hans á menning Íslendinga í Vesturheimi.

Hann var bæði velvirkur og mikilvirkur til ritstarfa enda fór þar þrent saman: mikill og margþættur fróðleikur, smekkvísi og stílhæfni, réttsýni og gjörhygli.

Hann tók snemma til ritstarfa. Í þriðja árgangi Heimis, árið 1906, á hann tvær ritgerðir. Önnur er frumsamin og heitir "Áfram eða aftur á bak", hin er þýdd, "Hin heppilega afstaða Unitara". Eftir það ritar hann mikið í Heimir og kennir þar ýmsra grasa. Eftir að Heimir varð kirkjurit Unitara árið 1909, varð séra Guðmundur ritstjóri þess, frá 1912 til 1914, að séra Rögnvaldur tekur aftur við ritstjórninni. Allan þennan tíma komu margar af hinum ágætustu ritgerðum þessa fróðleiksflytjandi rits frá hans hendi.

Auk þessa ritaði hann margar ágætar greinar í "Þjóðræknisritið og í Heimskringlu. Hann var óvenjulega fjölhæfur maður til ritstarfa. Hann gat ritað um heimspeki og sálarfræði af miklum lærdómi enda hafði hann þær fræðigreinar stundað bæði í skóla og í heimahúsum. Réðist hann þá ekki æfinlega á þann garðinn sem lægstur er, eins og til dæmis þegar hann tekur sér það fyrir hendur að útskýra heimspeki Kants fyrir almenningi. Hann var auðugur aðeins af mentun, manndómi og mannviti og af þeim auðæfum vildi hann öllum gefa og því örlátari sem hann var, þess stærri varð inneign hans í andans sjóði. Þetta eru lög andans í mótsetningu við lögmál hins gylta leirs.

Hann var einn af hinum beztu — ef ekki hinn allra snjallasti — ritdómari okkar vestan hafs. Hann var smekkvís á bókmentir og bar glöggt skin á gildi þeirra, sem meðal annars sézt á smásöguvalinu sem hann þýddi. Til er bók eftir hann með sex þýddum smásögum, en sögur þessar mega hiklaust teljast með perlum heimsbókmentanna. Hann var réttsýnn og góðgjarn í garð höfundanna og fór aldrei í manngreinar álit né eftir dagdómum almennings — beitti nákvæmlega sömu reglu í dómum sínum um sögur Rannveigar Sigbjörnssonar sem um ritverk H. K. Laxness. Hann vissi, að þekking liggur til grundvallar fyrir öllu réttdæmi og aflaði sér þessvegna hins

bezta fróðleiks sjálfur um ritskýringar. Séra Guðmundur sóttist ekki eftir deilum en skorti þó hvorki einurð né þor til að verja skoðanir sínar. Það var ekki heiglum hent að mæta honum á ritvelli eða ræðupalli en samt var aldrei neitt eitur í örfum hans, þótt hann kynni að bregða fyrir sig kímni á stundum. Enginn, sem kyntist honum í fyrsta sinni gat grunað, að þessi háttprúði og alvarlegi prestur væri einn af bezt gefnu leikurum og hugkvæmnustu kímnisskáldum meðal Vestur-Íslendinga. Margir hafa skemt sér við hina græskulausu gamansemi Jóns úr Flóanum, án þess að gruna séra Guðmund um faðernið. Jafn ókunnugt var almenningi um að ljóðin, sem voru undirskrifuð með einu Xi, væru frá honum runnin. Flest af þessum ljóðum voru þýðingar, og mjög vel gerðar. Séra Guðmundur var yfirlætislaus maður og mörgum kunningjum hans var alveg ókunnugt um hagmælsku hans.

Annars fékst hann allmikið við þýðingar og eru eftir hann allmargar sögur í þýðingum. Hann var vandvirkur þar sem ávalt og og smekkvís í vali. Rúmið leyfir mér því miður ekki, að fara hér fleiri orðum um séra Guðmund, en ef mér endist aldur, vildi eg gjarnan rita rækilegar um það efni.

**H. E. Johnson**



## SÉRA GUÐMUNDUR ÁRNASON



Þá sigldirðu á ókunna sæinn
það syrti, þó lengt hefði daginn.
Hví undirðu ei áratug lengur
þú ágæti mannkosta drengur?

Þú fræðarinn, foringinn góði
ert fallinn, við grátum í hljóði.
Þitt dagsverk var dómgreind að styrkja.
Nú drýpur þín frjálsborna kirkja.

Þín för var mót frelsi og degi.
Þú fórst ekki almanna vegi.
Og fámenna hópinn, sem fanstu,
með framkomu prúðmennis vanstu.

Þú landnemans ljóssækni prestur,
í lífsspeki stærstur og beztur.
Þín sveitir með söknuði minnast
því seint mun þinn jafningi finnast.

Við stöndum á ströndinni hljóðir,
og störum á eftir þér bróðir.
Í vorlofti vitarnir brenna,
sem værurðu ennþá að kenna.

Úr læðingi harmsakir leysum,
og leiðtoga merkið þitt reisum;
í hrygðinni hræðustum eigi,
það hefjum mót sólu og degi.

J. S. frá Kaldbak



## SÉRA GUÐMUNDUR ÁRNASON

**4. apríl 1880 — 24. febrúar 1943**



Þú varst maður, sem mældir ei sporin
Þegar menningin átti í hlut.
Þú varst frelsisins fullhugi þorinn,
Ekki farþegi liggjandi í skut.
Þú varst frömuður frjálslyndra mála,
Ekki friðboði ónytju-máls.
Þú varst leiðtogi kristinnar kirkju,
Sem ei knýtti sér steina um háls.

Þú varst hrópandi á eyðimörk okkar,
Ekki almennings blíðmælis-hjal.
Þú varst andinn sem umhverfið lokkar,
Ekki úlfur sem lambinu stal.
Þú varst heill, ekki hálfur í neinu,
Ekki hér eða þar, bæði í senn.
Þú varst ímynd hins göfuga og góða,
Sem gerir oss sjálfstæða menn.

Þú varst prúðmenni, kíminn og kátur,
Þegar krappast var siglinga-mið.
Þér var greitt um að gefa okkur hlátur
Þegar grunnhyggnin stóð oss við hlið.
Þú varst ráðgjafi réttlátra mála,
Þú varst raungóður, sannur og trúr.
Þú varst skýli hins skjóllausa og þjáða,
Þú varst skilningnum verja og múr.

**Páll S. Pálsson**

# SÉRA GUÐMUNDUR ÁRNASON

**Dáinn 24. febrúar 1943**

★

Höggvið er djúpt á hjartans mið
harmur kveðin er Frónskum lýði.
Árlega fellur landnáms lið
leiðandi menn og þjóðar prýði.
Sjaldan fanst nokkur fremri þér
fjölhæfur, lærður, prestur mætur,
valmennið sitt, í valnum hér,
vestur íslenzka þjóðin grætur.

Alstaðar barst þú höfuð hátt,
hreinskilinn sannleiks vinur svarinn.
Ofvaxið þér var ærið fátt,
afburða snjöllu máli farinn.
Þurfandi fólki lagðir lið,
löngum var knúð á góðvild þína.
Þitt var hið æðsta mark og mið,
manndóm og kærleik öllum sýna.

Rökstudd og sönn þín ræða var,
rík af hugsun og kærleiks anda;
vitni um andans auðlegð bar
orðsnildin þín í mestum vanda.
Glaðværð þú vildir glæða mest,
gáfum og elju til þess fórna,
ávalt það tókst þér einum bezt
almennings gleði fundum stjórna.

Særðir vinir með sorgarbrag
senda þær ástar þökk í hljóði,
söfnuður, kirkja og kvenfélag,
kveðja þig elsku vinur góði.
Móti þér brosi lífsins lönd,
lífið nýja þér fögnuð boði,
faðmi sál þína, á friðarströnd,
fagur guðsríkis morgunroði.

**V. J. Guttormsson**

## SÉRA GUÐMUNDUR ÁRNASON

**1880 — 1943**

★

Enn dregur ský
fyrir dagsól bjarta
í vorrar tíðar
veðurfari.
Enn er stór harmur
að oss kveðinn
við för þína vinur
til föðurhúsa.

Man eg á morgni
manndóms þíns
hve ljós var og hrein
þín lífsskoðun.
Ávalt þú það sýndir
í orði og verki
af hvaða bergi
þú brotinn varst.

Atvik eg man
úr okkar samferð
er fornar slóðir
þú finna vildir*
Þar andi þinn áður
á æskuskeiði
leitað hafði fegurstra
lífs sanninda.

Man eg að þér brá
við bekki horfna.
Var sem sortaský
sólu byrgði.
Fúin voru gólf
og gróm á veggjum
og skólastofan þín
var af skrani full.

Leitaðir þú lengi
að lind, er þú vissir
að átti upptök sín
undir kletti.
Þar hafðir þú löngum
lífsveigar teigað.
En nú var lindin þín
ei lengur þar.

Leitaðir þú og,
að ungviði,
er sjálfur hafðir
á sumri plantað.
Áratugi þrjá
í þykkviði
stóð þinn æskumeiður—
nú aldið tré.

Máttir þú ei mæla
fyrir minningum.
Var þinn hugur hljóður,
sem á helgri stund.
Við klökkvar minningar
var þér máls varnað,
er hljóður þú gekst
við hlið mína.

Minnist eg þess síðar
er mæltir þú:
"Ósk mín er sú
að eg aldrei hefði
þessa eyðistaðar
endurleitað,
og eyðilagt þannig
mínar æskumyndir."

---

* Prestaskólann í Meadville, sem nú er fluttur til Chicago, 1940.

Þó var ei svo
er sástu á veginn
fanst þú fegurð meiri
framundan.
Anda þíns framsókn
á öllum sviðum
vildir þú leysa
úr læðingi.

Jafnan varst þú glaður
með góðvinum
hreinn og hugljúfur
heim að sækja.
Dáði jafnan samtíð
drenglund þína
og virðing þín óx
með ári hverju.

Nú hefir þú fundið
þínar fornu stöðvar
er hurfu þér í tímans
trylda straumi.

Getur nú viður þinn
vexti náð,
og lindin þín fundið
farveg nýjan.

Nú hefir þú fengið
fullnaðar svar
við andans spurningum
óteljandi.
Þar sem lindin svalar
lífs þíns tré
og skólastofan þín
er skrúðhús þitt.

Kveðja þig nú vinir
með vor í sál
í ljósi þinnar eigin
lífstrúar.
Og með hljóðum huga
á helgri stund
vér syrgjum þig ei vinur
en vér söknum þín.

28. feb. 1943. **S. E. Björnson**



Benson Y. Landis hefir um langt skeið gefið sig við skýrslusöfnunum um hag og vöxt kirknanna í Ameríku. Hann er nýbúinn að gefa út yfirlit um vöxt þeirra og viðgang frá 1926 til 1942. Eftir því hefir únitara kirkjan vaxið meir en sú kaþólska eða 24%, þar sem hin kaþólska sýndi aðeins 23% þroska að meðlimatölu.



Það eru 400 róman-kaþólskir á Íslandi og 70 sjöunda dags aðventistar. Allir aðrir teljast meðlimir þjóðkirkjunnar. Þó þurfa menn ekki að greiða skatta til hennar, geta þess í stað lagt þá til háskólans, en þetta leyfi hefir til þessa lítið verið notað heima.

# Á sjónarhól

★

## BISKUPS HEIMSÓKN

"Hann kom, hann sá og sigraði", svo má með sanni segja um heimsókn herra Sigurgeirs biskups hingað vestur. Hann sigraði ekki með vopnum, né áhrifavaldi síns tigna embættis, heldur með ljúfmenskunni, hinni göfugmannlegu framkomu við háa sem lága, við barnið er brosir mót göfugmenninu og öldunginn er yngist við hverja vinarkveðju.

Við höfum áður nokkur kynni af Sigurgeiri biskup. Þegar við fréttum, að prestar landsins höfðu hann kjörinn fyrir yfirmann sinn lögðum við eyrun við. Okkur barst hirðisbréf hins nýja biskups og mæltum einum munni "svona eiga biskupar að skrifa." Síðar ávarpaði hann Vestur-Íslendinga í gegnum víðvarpið og við urðum, aldrei þessu vant, á einu máli um að svona ættu biskupar að tala. Nú höfum við séð hann í einrúmi og á mannamótum og vitum allir að svona eiga biskupar að vera. Jú einstöku raddir heyrðust þó, að hann myndi helzt til frjálslyndur. Hann prédikaði í báðum íslenzku kirkjunum í Winnipeg og út af því spunnust nokkrar spurningar um hvert hann væri lúterskur eða Únitari. Að biskupinn sé víðsýnn og frjálslyndur vita allir, hann er svo víðsýnn og frjálslyndur að hann getur hugsað til einhverskonar samvinnu meðal allra íslenzkra kirkjudeilda. (Mun seinna sagt frá tilraunum hans í þessa átt.)

★ ★ ★

Samvinna milli, jafnvel hinna ólíkustu, kirkjudeilda er nú mjög upp á baugi í ýmsum löndum. Hafa aðstæður stríðsins og þarfir tímanna ýtt undir þá viðleitni. Herprestarnir vinna í bróðurlegri samvinnu þótt þeir séu kaþólskir, gyðingatrúar eða mótmælendur af allskyns gerðum. Heima á Íslandi er yfirmaður þeirra lúterskur en næstur honum að völdum er rómversk-kaþólskur klerkur, en samkomulagið samt gott og samvinna örugg. Það þótti djarflegt tiltæki af Suderblom erkibiskupi Svía að bjóða erkibiskupi Grikkja til Svíþjóðar, að flytja ræður í kirkjum landsins, fyrir nokkrum árum. Engar

kirkjur hafa verið andvígari en sú kaþólska og lúterska, á liðnum öldum, þótt margt sé annars líkt með skyldum. Það var meira segja til siðs að flytja bölbænir um páfann í sumum lúterskum kirkjum fyrir skemstu og tíðkast kanske enn í almyrkri þýzk-amerísku lúterskunnar. (Sjá ritgerð mína um Missouri-lúterskuna á landnámstíð Nýja-Íslands). Skiljanlega getur samvinna því aðeins gerst, að kirkjan verði frjálslyndari. Guðfræði og játningar greina menn í flokka því óhugsandi virðist að allir fallist á hið sama né fáist til að undirskrifa sömu játningarnar. Meðan áherzlan er því lögð á þessi atriði verður samvinna óhugsanleg. Að hverju getur svo samvinnan stefnt. Auðvitað þarf hún að eiga sér eitthvert ákveðið takmark. Aðal takmark kirkjunnar hefir verið að frelsa sálir frá helvíti, en tilreiða þeim vist í sælusölum annars lífs. Þótt allir vildu þangað fara kom þeim aldrei saman um eftir hvaða leiðarvísirum þeir mættu þessar gæfugötur ganga. Hin þröngu hlið, á sáluhjálparveginum, urðu æ fleiri og þrengri eftir því sem kennisetningunum tók að fjölga og kirkjan greindist í fleiri og fleiri deildir. Þá þurfti ekki mikið út af að bera til að lenda í hafvillum guðfræðis glundroðans. Í þeim hafvillum brutu flestir bátinn sinn á helströndum þar sem "helvíti var hinumegin hræðilegra en nokkur veit." Einungis til ræktunar og bjargar jarðlífinu getur kirkjan sameinað krafta sína — en sú kirkja verður raunsýn og frjálslynd í fylsta skilningi.

★ ★ ★

Ef mér endist aldur til að greina frá helztu atriðunum í kirkjusögu Vestur-Íslendinga mun margt koma í ljós, sem nú er hulið og meðal annars alvarleg tilraun til samvinnu meðal allra "landa" í álfunni á kirkjulegum grundvelli. Margir af okkar allra mætustu leiðtogum gerðu alvarlegar og ítrekaðar tilraunir í þessa átt, en allar þessar tilraunir ströndudu á játningunum og fastheldni sumra við þær. Nú er útséð um slíka samvinnu síðan lúterska kirkjufélagið gekk í sambönd við sér langtum þröngsýnni kirkjufélög í Ameríku.

★ ★ ★

En hvernig er því þá farið með oss í Sameinaða kirkjufélaginu? Erum við ekki einnig háðir öðrum félagsskap? Þessi spurning er eðlileg og sjálfsögð. Tvent kemur hér samt til greina. Við erum við engar játningar bundnir og hver söfn-

uður hjá oss, hefir fult vald yfir sínum málum án íhlutunar frá hærri stöðum.

Þjóðkirkjan á Íslandi er heldur ekki bundin við neinar játningar síðan presta eiðurinn var afnuminn árið 1910. Engin kirkja í heiminum, getur verið alfrjálsari en íslenzka þjóðkirkjan, því prestarnir á Fróni, þiggja lifibrauð sitt frá ríkinu, en eiga það ekki undir framlagi þeirra sem mestu kunna að ráða í söfnuðunum. Skiljanlega eru ekki allir prestar íslenzku þjóðkirkjunnar sammála í öllum atriðum en það veldur samt ekki klofningi meðan skoðanafrelsið er viðurkent.

* * *

**Erkibiskupinn frá York**

Annar biskup heimsækir álfuna. Sá heitir Garbett og er erkibiskup í York og næst æðsti maður ensku ríkiskirkjunnar. Það eru merkileg veðrabrigði að gerast í ensku biskupa-kirkjunni. Hún tók athyglisverðum sinnaskiftum meðan himininn feldi eld og dauða yfir kirkjur og kot, hallir og hreysi Stór-Bretalands, í loftárásinni miklu. Á hrundum veggjum lásu þeir örlaga letrið, hin skráðu dómsorð allra alda yfir uppdagaðri menningu: "Mene, Mene, Tekel, Upharsin." (Þú ert veginn og léttvægur fundinn.)

Þá varð það, að yfirhirðir kirkjunnar, erkibiskupinn af Kantaraborg, Dr. Temple, kallaði til biskupa þingsins í Malvern (The Malvern Conference). Þarna voru yfir tvö hundruð prelátar mættir og voru allir á einu máli um, að þótt maðurinn vitaskuld lifi ekki af einu saman brauði, þá sé það jafn víst, að andlegur gróður nær litlum þroska hjá hungruðum, klæðlausum, húsviltum, atvinnulausum öreigalýð. Þeir gerðu þær einróma samþyktir, að til eflingar friðarins þyrfti Evrópa öll að verða samvinnufélag (Cooperative Commonwealth); að kirkjan eigi að innræta mönnum virðingu fyrir jörðinni og hennar framleiðslu og hætta að skoða hana sem uppsprettu auðs, heldur sem forðabúr hinnar guðlegu forsjónar, sem kristnum beri að nota til viðhalds og þroska mannlífsins; að maðurinn skuli ekki framar metin eftir efnum, en öllum beri réttur til að lifa, þroskast og njóta lífsins gæða; að kirkjunni beri ekki einungis réttur, heldur einnig heilög skylda til að ræða um þjóðfélags ástandið og að hún hafi hingað til brugðist þeirri skyldu að mestu; að söfnuðirnir skuli ekki einungis vera heyrendur orðsins heldur skuli það vera þáttur í öllum guðsþjónustu gerðum,

að gefa gaum að ástandi fólksins í sínu nágrenni, leita orsakanna og finna meðulin."

Satt er það, að Dr. Garbett, erkibiskupinn frá York, var ekki á þessu þingi, en hann hefir síðar tjáð sig þess gerðum samþykkan og unnið með Dr. Temple að framfylgd þessara ályktana. Þeim virðist full alvara, ensku biskupunum, að láta nú ekki sitja við orðin tóm. Dr. Garbett brá sér til Rússlands fyrir skemstu og átti þar fundi með patríark Sergie og öðrum prelátum rússnesku kirkjunnar. Er til samvinnu hugsað milli hinna rússnesku og ensku kirkna. Nú hefir hann komið hingað í samskonar erindum. (Þess má ennfremur geta að biskupi Íslands hefir borist bréf, frá erkibiskupnum í Kantaraborg, um hugsanlega samvinnu milli íslenzku þjóðkirkjunnar og ensku ríkiskirkjunnar). Í bók sinni: "The Church and Social Problems in Peace and War", segir dr. Garbett meðal annars: "Það er hið mesta ósamræmi, að tala um hið nýja skipulag, í heiminum, án þess að styðja að mannfélags umbótum heima fyrir. . . . Þegar stríðinu léttir af þurfum við að sýna hið sama áræði, einbeitni og dugnað gegn örbirgð, húsnæðisvandræðum og atvinnuleysi, sem vér nú beitum gegn óvinunum á stríðsvellinum. . . . Ef kirkjan skiftir sér ekkert af þessum málum, mun svo fara að fólkið álíti hennar enga þörf. . . . Hið nýja skipulag verður því aðeins kristilegt, að kirkjan beiti sér fyrir mannfélagslegum umbótum."

★ ★ ★

**Samvinna í guðfræðaskólum**

Eitt af talandi táknum tímanna er sú samvinna er til er stofnað milli þeirra guðfræðaskóla er nú um skeið hafa starfað í sambandi við Chicago háskólann fræga. Eins og öllum er kunnugt er þessi háskóli einn af hinum stærstu og áhrifaríkustu háskólum álfunnar. Frá því fyrsta höfðu Skírarar (Baptistar) guðfræðadeild þar og mikil áhrif. Síðar drógust þangað aðrir guðfræðaskólar tilheyrandi örðum kirkjudeildum og voru það: The Disciples of Christ, Congregationalistar og Únitarar, eftir að prestaskóli þeirra fluttist frá Meadville, Penn., til Chicago árið 1926.

Þessir prestaskólar störfuðu samt sjálfstætt þótt þeir nytu styrktar frá sjálfum háskólanum, að því er kom til kennara, er voru sérfræðingar í hebresku, grísku, fornaldarfræði o. s. frv.

Nú hafa allir þessir skólar gengið til víðtækari samvinnu þótt þeir að hinu leitinu haldi áfram að vera sérdeildir í heild-

inni, sem undirbúa prestefnin til þjónustu fyrir hinar ýmsu kirkjudeildir. Tveir þriðju kenslunnar er algerlega sameiginleg fyrir alla guðfræðinga en einum þriðja kenslutímans er varið til að öðlast undirstöðuþekkingu í kirkjusögu og trúarstefnu síns eigin kirkjufélags. Með þessu móti eflist skilningur og samvinna milli stúdentanna þar sem skólavistin dregur þá saman í stað þess að sundra þeim og ala tortrygni, misskilning og flokkadrátt hinnar guðfræðilegu einangrunar, sem þróaðist tíðum í sérskólum kirkjufélaganna. Í öðru lagi verður námið langt um vísindalegra þar sem áherzlan verður eðlilega lögð á hlutrænan sannleika, en minni á sérkreddur hinna öldnu kirkjuhöfðingja. Í þriðja lagi sýnir þetta berlega breytta tíma. Fyrir tiltölulega fáum árum hefði engum dottið slík samvinna í hug og hver sá klerkur, sem hefði dirfst að stinga upp á annari eins fjarstæðu, myndi álítast úlfur í hjörðinni.



**Frá ættjörðinni**

Margar og stórfeldar hræringar gerast nú með íslenzku þjóðinni og sýna þær berlega vaxtarmerkin samfara nokkrum vaxtarverkjum. Þetta nær einnig til kirkjunnar heima. Tvö málgögn hennar: "Kirkjuritið" og "Kirkjublaðið" ræða trúmál — og þó einkum kirkjumál af talsverðum áhuga. — Þetta eru mjög hógvær blöð og einhvernvegin saknar maður hálfvegis þess örfandi funa, sem stundum einkendi "Verðiljós", gamla "Kirkjublaðið" og "Strauma". Athugull lesari getur samt greint vorgróður andans sem vonandi spáir sumri og uppskeru í framtíðinni. En vorin heima eru nokkuð misviðrasöm og ósýnt um gróðurnálina, sem gægjist upp úr sinunni á góudaginn. Vonandi er það missýning, að eg þykist greina afturkippi í íslenzku trúarfrjálslyndi. Hissa er eg, til dæmis, á sumum kirkjufunda samþyktum. Prestar suður-amtsins gera þá yfirlýsingu, á fundi, að til kristindómshalds sé eitt nauðsynlegt, að Íslendingar verði biblíulesandi þjóð. Sízt mundi eg neita því, að biblían geymi fjölda demanta, en því miður eru þeir oft og tíðum huldir undir úrgangsskrani aldanna, og gæti svo hæglega farið, að lesarinn væri búin að fá ógeð á fæðunni áður en honum verður rekist á þau dýrmæti. Mér er minnisstæð reynsla unga mannsins í Alaska, sem var herbergisfélagi minn þar eitt sumar. Við ræddum eitt sinn um trúmál og hann sagði mér frá því tilfelli, þegar móðir hans fékk hann til þess að lesa ritningarnar í veikindum hans.

"Hingað til", sagði hann, "hafði eg hugsað mér biblíuna hina beztu bók, fulla af vísdómi og fögrum ræðum, því við fermingar uppfræðsluna notaði presturinn aðeins það bezta. Nú byrja eg á upphafinu, en komst ekki langt áður en eg legg hana frá mér með versta viðbjóði, því ef alt er satt, sem guði er þar eignað, gæti eg hvorki tilbeðið hann né elskað." Myndi nú ekki sínu nær að láta sitja við útleggingu prestanna á ritningunum, bæði í ritmáli og ræðu, eins og hingað til. Svo er nú mjög hæpið, að þjóðin fáist til að setjast við biblíulestur í önnum og glaumi nútíðarinnar.

Mér þykja þeir annars hallast helzt til mikið, að lögþvingunum heima; tel kirkjunni betur farið með því að tileinka sér orðtak sálmaskáldsins, sem vill láta kirkjuna "aðeins laða og leiða lýð, en ei með valdi neyða". Þegar alt er tekið til athugunar grundvallast gengi kirkjunnar á almennum vinsældum. Mun það vinsælt hjá vissum hluta almennings heima, að lögleiða kristindóminn sem skyldunámsgrein í skólunum, eins og farið er fram á af prestum landsins. Eg ræð það af ritum að heiman, an kirkjan mæti talsverðri mótspyrnu hjá vissum flokkum, og er því sízt að leyna, að kirkjan virðist eiga nokkra sök á því sjálf. Frá mörgum prestum andar kalt í garð vissra og aðsópsmikilla flokka og jafnvel stétta. Er skemst að minnast þess ágreinings, sem varð milli prestanna — sumra — og læknanna út af heilbrigðisskoðun þeirri, er fyrirskipuð var til berklaveikisvarna. Því miður brestur mig þekkingu til að fella dóm á álit þeirra lækna, sem tekið hafa til máls um málið, en ekki verður annað ráðið af orðum þeirra en að þeir telji guðsorða flutning hennar ófullnægjandi fyrir sálarþarfir Íslendinga og kynnu að efast um gagnsemi þeirrar trúfræðslu, sem veitist fyrir hennar forsjá. Satt að segja efast eg um gagnsemi trúfræðslunnar í alþýðuskólum af annari ástæðu.

Fullnaðar þekking er ekki fáanleg í neinum vísindum en allra sízt í guðfræði. Innri reynsla er þar helzt til leiðbeiningar, en sú reynsla er á ýmsa vegi og margir virðast hafa farið á mis við hana með öllu. Að hvaða gagni myndi kristindómsfræðslan koma í höndum kreddubundinna kennara, eða trúlausra?

Í nokkrum stöðum hefir trúfræðsla verið lögleidd, hérna megin hafsins, en gefist misjafnlega og víða verið aftur aflögð. Í nokkrum "fasista" ríkjum, svo sem Argentínu, Spáni, Portúgal og Finnlandi hefir kristindómsfræðsla, af vissri tegund,

verið lögleidd í pólitískum tilgangi. Í þvílíkum tilfellum vita þeir nákvæmlega hvað á að kenna, en í lýðræðislöndum yrði það strax upp á baugi hverskonar kristindóm ætti að innræta æskunni.

Íslenzkt kristni hefir einkent sig með tiltölulega miklu frjálslyndi á flestum öldum. Frjálshyggjan er okkur í blóð borin og sómi vor og andleg nauðsyn að rækta vel þann ættar arf.



Athugasemd verður að gera við staðhæfingu Magnúsar próf. Jónssonar, í Kirkjuritinu, að þjóðræknin, hér vestra, hafi viðhaldist fyrir kirkjustarf lúterskra manna einungis. Vitaskuld hafa margir þeirra verið þjóðræknis menn og starfsamir í þá átt, svo sem til dæmis séra Jón sál. Bjarnason og margir fleiri, en Únitarar hafa verið það engu síður og menn utan allra kirkjudeilda, eins og hver maður vestanhafs veit og skilur.

  

**Andaðir mæla**

Loksins kom það, þetta örlagaríka augnablik. . . Hún hafði lengi kviðið fyrir því, móðirin, sem beið heima. Nú tók hún á móti símskeytinu með skjálfandi höndum og las með tárvotum augum. — Hann var dáin drengurinn hennar á vígvöllunum. . .

Dögum seinna barst henni síðasta kveðjan í hálfskrifuðu bréfi: — "Hugurinn býr yfir feigðar spá", sagði hann. "Þessi grunur ollir mér samt engum kvíða. Eg hef hugsað um það nótt sem dag, og þótt eg ætti nú þess kost, að hverfa af hólmi, þá tæki eg því ekki. Ef svo skyldi fara, að þetta yrði síðasta kveðjan heim, þá vil eg nota tækifærið, að lýsa hugarfari mínu þessa stundina. Setjum nú svo, að eg hefði ekki gerst sjálfboði og komist hjá herkalli. Eg hefði bjargað lífinu, en hefði sú lífgjöf ekki verið of dýru verði keypt. Heima hefði eg lesið, í blöðunum, um félaga sem féllu með sæmd. Hefði verið hægt að komast hjá því samvizku spursmáli: "Hversvegna þeir en ekki eg? Höfðu þeir betri heimili að verja, ástkærari móður að vernda? Elskuðu þeir ættjörð sína meira eða möttu þeir frelsið fremur en eg? . . . Eða voru þeir meiri menn og sannari? Hlaut eg ekki að fyrirverða mig fyrir sjálfum mér, og þegar sjálfsvirðingin er farin, hvers virði er þá lífið? Svo hefði eg orðið að umgangast mæðurnar, kærusturnar, systurnar, bræðurna, feðurna, sem gráta góða drengi. Ef til vill hefði þetta fólk ekki sýnt mér fyrirlitningu opinberlega, en mér hefði

verið ómögulegt að ætla því annað. Það hefði stungið mig eins og hárbeitt spjót, að taka í hendina á þessu fólki, að hitta það út á götunni, að sjá það í samkvæmum. Mér hefði lærst að hata það en fyrirlíta sjálfan mig. Eg hefði dáið á hverjum degi og oft á dag þ. e. s. minn innri maður farist og sál mín borist á brennandi glæður sjálfs ávirðingarinnar. Þá er betra að deyja með sæmd en lifa við skömm. Eg hræðist slíkt líf meir en hel.

Eg trúi á vorn málstað og manni er jafn eðlilegt, að deyja sem lifa fyrir trú sína. Við trúum á málstaðinn, trúum að við séum í raun og veru að berjast fyrir frelsi, mannréttindum og jafnrétti. Væri eigi svo, myndi mér vera óbærilegt að horfa á auðu rúmin í svefnskálanum okkar. — Þarna hvíldi hann Páll. Við keptum um hnöttinn í hnattspyrnuleikjunum heima. — Eg trúi því, að hann hafi dáið svo aðrir drengir geti gengið jafn áhyggjulausir til leikja, í framtíðinni. Nú vekur Magnús írski okkur ekki framar með fyndni sinni við rismál. Eg vona, að drengirnir heima eigi fleiri gleðistundir okkar vegna.

Manstu þegar pabbi las okkur sögurnar um íslenzku fornaldar kappana. Þeir vildu hefna, álitu það heilaga skyldu sína. Okkar verður líka hefnt ef þið, sem lifið, berjist drengilega, djarflega, gegn óvinunum sem lögðu okkur að velli: ágirndinni, auðdrambinu, valdafíkninni, óréttlætinu, lymskunni, þröngsýninni og lýginni — annars liggjum við óbættir í valnum. . . Nú verð eg að hætta því lúðrarnir gjalla til áhlaupsins.

Hvernig sem fer, vildir þú, mamma, að eg hugsaði öðruvísi, breytti öðruvísi og dæi öðruvísi? Hafi eg ekki brugðist guði, þér eða sjálfum mér "er bættur galli ef merkið stendur þó maðurinn falli." . . . .

---

Theodór Friðriksson, rithöfundur, hefir nýlega verið sektaður af réttvísinni íslenzku fyrir ummæli sín um Hálfdán nokkurn Jakobsson og hin niðrandi ummæli dæmd dauð og ómerk. Hann sagði að Hálfdán hefði verið illa kristinn en hann var eini Únitarinn á Sauðarkróki í mínu ungdæmi og þrjóskaðist við að láta börn sín skírast upp á lútersku. Eftir þessu skoðast það ærumeiðandi, að kalla Únitara illa kristna á ættlandinu. "Ekki dugar að deila við dómarann."

# Drög til Kirkjusögu Íslendinga í Vesturheimi

**Ljósið sem hvarf** ★

Frostvindarnir þeyttu haustfölu skógarlaufinu ofaná sinugráar grundir. Birnirnir voru að búa sig undir vetrar svefninn en björvar fyltu forðabúr sín. Náttúran færði loðdýrin í vetrarverjur; en landnema hópurinn, sem stóð á ströndinni, átti sér ekkert skjól, litlar vistir og lélegan klæðnað. Norðansvalinn frá Winnipeg-vatni, næddi í gegnum þá, skýjabólstrarnir, yfir óbygðunum, ógnuðu þeim. Engin gat vitað hvernig öræfaveturinn kynni að reynast þeim, þessum örsnauðu, van kunnandi og málhöltu mönnum í ókunnu landi. Samt var móður í þessum mönnum. Langt að voru þeir komnir, frá gamla Fróni til Nýja Íslands, landnámsins, sem varaði ennþá aðeins í vonum þeirra og áætlunum.

Ferðinni var nú loksins lokið. Löng og hrakningssöm hafði hún reynst þeim. Fyrst hafvolkið og sjósóttin á gamla Sánkti Patreki, í 13 daga siglingu yfir Atlantshaf. Þar næst viðdvölin í Kinmont, Ontario-fylki frá 23. sept., árið 1874 til 21. sept. ári síðar. Heilt ár höfðu þeir þarna dvalið, sem útlagar við lítinn kost en margar raunir: Járnbrautarvinnu í sumarhita, ilt vatn og óholt fæði. Veggjalúsin varnaði þeim værðar um nætur en mývargurinn um daga. Verri en þessar plágur voru þó verkstjórarnir, sem umgengust þá síbölvandi af því ísfirzkir sjómenn og skagfirzkir fjármenn kunnu lítt til verka við brautargerðir vestur í Ameríku. Í fjölbygð Ontariofylkis biðu þeirra eigi önnur forlög en endalaus vinnumenska, hjá misjöfnum en þó oftast harðdrægum og óvorkunnlátum verkveitendum. Undir þeim urðu þeir alt að eiga, því ef þessir höldar fengjust eigi til að erja þá, sér til ábata, lentu landarnir í sulti og volæði. Þessvegna tóku þeir sig upp og leituðu sér landnáms í óbygð Vesturlandsins.

Þann 21. sept. árið 1875 var lagt af stað með járnbraut frá Kinmont til Sarnia; þá um vötnin, með gufuskipi, til Duluthborgar í Minnesota-ríki; þar næst til Fishers Landing við Rauðá, í Norður-Dakota og þá eftir ánni um Winnipeg og Crossing (Selkirk) til landnámsins að Gimli á vesturströnd Winni-

pegvatns. Þarna lentu þeir síðasta sumardag, 23. okt. árið 1875. (Nú myndi slíkt ferðalag taka liðugan sólarhring með hraðlest).

Loksins var þetta þreytandi, langdregna ferðalag á enda. Menn réttu úr sér, teiguðu loftsvalann, sóttu í sig veðrið. Hérna fundu þeir fasta grund undir fótum sér. Þetta land var þeirra land, óðal komandi kynslóða. Það hvílir heillandi helgiljómi yfir landnáms jörðinni. Aðrir staðir helgast af drýgðum dáðum, landnámslandið af hugsjónum um komandi framfarir. Það á sér aðeins framtíð, en sú framtíð getur orðið blessuð og björt, betra en alt sem áður var, ef landnemann brestur ekki athafnaþrek og áræði. Landnemans viljinn stælist, vonirnar lifna. Nú er hann alt í einu orðin sögupersóna í staðinn fyrir að vera aðeins sögulesandi aðdáandi frægra feðra.

Margt þarf samt að framkvæma áður en Gimli verður hamingju heimur aldra og óbornra kynslóða. Nú er að duga eða drepast og landneminn kom ekki til að ávinna sér gröf heldur ættland í Vesturheimi. Hann kom til þess að lifa frjálsmannlegu, söguríku athafnalífi á vesturvegum. Þessvegna var nú ekki um annað að gera en brýna viljan til athafna, stæla vöðvana til djarfmannlegrar framsóknar í lífsbaráttunni, mæta mannlega hverju, sem að höndum ber.

Fyrst af öllu þurtu þeir að byggja sér ból. Daginn eftir landtökuna að Gimli tók vatnið að leggja og kuldinn beit konurnar og börnin, sem höfðust við á börðunum, er fluttu þennan hóp, nær 300 talsins, til Nýja Íslands. Smáir voru þeir og rislágir fyrstu landnámskofarnir eins og nærri má geta. Vanaleg stærð þeirra var 16 fet á lengd en 12 á breidd. Veggir voru hlaðnir úr ótegldum trjábolum, sem menn báru eða drógu úr skóginum en leir var troðið í rifurnar milli viðarbútanna. Trérenglur voru notaðar fyrir árefti en þakið úr sinustráum, sem leirnum var mokað yfir til að þétta heyið og halda því niðri. Slík þök láku hverjum dropa þegar ylurinn að innan tók að þíða snjóinn á þekjunni en frostkuldan lagði upp úr moldargólfinu.

Í þessum fátæklegu, frumbýlis híbýlum dreymdi menn drauma, dreymdi um framtíðina á Gimli. Þá dreymdi meðan þeir vökuðu vatnið til fiskjar. Þá dreymdi meðan þeir hjuggu brenni í skóginum og báru eldsneytið til húsa. Þá dreymdi meðan þeir drógu björg í bú, á ísum eða um vegleysur, á sjálfum sér eða seinfærum uxum, frá Selkirk (Crossing) til Gimli. Þá dreymdi um andvaka nætur þegar þeir reyndu að hvíla lúna

limi á bálkinum, sem þeir gerðu sér úr óhefluðu skógarkurli. Þetta voru fyrstu legurúm "landans" í hans nýnumda goðheimi — Gimli. Þeir voru örsnauðir af öllu nema framfaravonum og heilsustyrkjandi bjartsýni. Þennan eigindóm reyndu þeir að ávaxta með því að breyta framtíðar draumunum í áætlanir og áætlunum í framkvæmdir. Jafnvel meðan drepsóttin (bólan) geysaði og deyddi ungviðið, hinn annan vetur landnámsáranna, hugsuðu feðurnir til framtíðarinnar. Þau af börnunum, sem afkæmust, skyldu ekki alast sem skrælingjar. Frjálsmannlegt menningarlíf skyldi þroskast í barrviðarrjóðrum Nýja Íslands. Þessi framfara hugsjón og menningarþrá landnemans er efni í mikla sögu.

Fyrsta sporið var að mynda lýðræðissjálfstjórn fyrir nýlenduna, sem varð nokkurskonar ríki í ríkinu. Eg hygg þetta einsdæmi um nýlenduskipun í Ameríku, síðan Mayflower-skráin var samin af Nýja-Englands "púritönunum" á allra fyrstu landnámsárum álfunnar.

Annað stigið var að stofna prentsmiðju og gefa út blað. Var prentsmiðjan stofnsett með almennum samtökum og blaðið Framfari hóf göngu sína árið 1877. Engin landnema hópur í Ameríku var örsnauðari en þessi fámenni hópur Íslendinga við Winnipegvatn. Þeir höfðu liðið bjargarskort, drepsótt og einangrun. Samt höfðu þessir menn þrek til að stofna prentsmiðju og gefa út blað, sér til andlegrar uppbyggingar. Munu ekki afkomendur þessara manna hafa gilda ástæðu til að minnast slíkra feðra með ást og aðdáun?

Þriðja menningarmálið var stofnun skóla. Komust tveir barnaskóla á fót strax á fyrstu árunum: annar á Gimli, hinn að Lundi við Íslendingafljót.

Þá voru lestrarfélög stofnuð mjög snemma enda telur Dufferin lávarður, sem heimsótti Nýja Ísland 1877, að það einkendi þetta íslenzka landnám, að hversu fátæk sem heimilin kunni annars að vera, finnist ekkert hús, á Gimli, svo að eigi sé þar eitthvað af bókum.

Í fimta lagi var strax hafist handa með að útvega sér prest, stofna söfnuði og reisa kirkjur. Voru fundir fyrst haldnir um málið í aprílmánuði árið 1877. Kom þá strax í ljós, að þorri manna fýsti að fá sér prest og byggja kirkjur eftir þörfum.

Það vitnaðist brátt að Páll Thorláksson, sonur Þorláks Jónssonar bónda að Stórutjörnum í Eyjafirði, hefði nýlokið

nämi í guðfræði við prestaskóla þýzk-ameríska lúterska kirkjufélagsins, sem alment nefnist Missouri-synódan hér vestra.

Séra Páll kom ungur til Ameríku, þá nýútskrifaður úr latínuskólanum. Hér vestra gafst honum að líta það sem hver ungur guðfræðingur þráir, fjörugt og öflugt kirkjulíf, svo ólíkt daladrunganum frónska. Þessi þróttmiklu fjörbrot hins þýzkameríska kirkjufélags verkaði á hann sem örfandi straumar. Hann gerir ósjálfrátt samanburð á tómlætinu heima og þessu aðsópsmikla trúarlífi hér vestra og hann heillast af því, mjög eðlilega. Það vekur hjá honum blundandi krafta, kemur honum til að dreyma um örfandi trúarvakningu meðal allra Íslendinga. Það var sem honum væri svift út úr þokuþungum vanaheima inn í heiðríkjuna, að vísu nokkuð kalda birtu, þar sem allar línur eru þó skýrt markaðar svo engin þarf út af hinum sáluhjálplegu brautum að villast. Í hrifningunni fyrir lærdómi og andagift hinna miklu kirkjuhöfðingja, þessa volduga kirkjufélags gekst hann því á hönd og beygir sig fyrir þess játningum og trúarstefnu. Nú á hann sér enga ósk hugfeldari en að gera samlanda sína, í álfunni, þessarar vakningar aðnjótandi og færa þá úr hálfrökkrinu inn í ljósið, þar sem allar leiðir eru varðaðar guðfræðilegum leiðarljósum, sumum til sælu en öðrum til glötunar. En þegar stefnurnar verða svona skýrar geta allir gert sína sáluhjálp vissa.

Séra Páll var annars gull af manni, svo sem síðar mun sýnt. Hann stóð velvakandi vörð yfir hagsældum síns fólks og sleit veikum kröftum í þess þjónustu. — Það er raunar ekkert einsdæmi að góðir menn aðhyllist ófögur trúarbrögð og því var þannig farið þegar Páll Thorláksson gerðist trúboði Missourisynódunnar, meðal Íslendinga.

Séra Jón Bjarnason segir, í Nauðsynlegri hugvekju, að Missouri-synódan sé þröngsýnasti kirkjufélagsskapurinn innan lúterskunnar, það mætti enda ganga lengra og fullyrða að hún sé þröngsýnasti kirkjufélagsskapurinn innan kristninnar. Vitaskuld var bókstafs innblæstri biblíunnar haldið þar fram með fullkomnasta strangleika. Klerkar hennar og guðfræðingar voru afar bókstafsbundnir. Sökum þess héldu þeir fram ýmsum kreddum, sem voru löngu úr gildi fallnar í öðrum kirkjudeildum. Eftir þeirra kenningum mætti ekkill ekki giftast eftirlifandi eiginkonu síns andaða bróður og höfðu þau endemi úr hinum eldfornu lögum Moses (18. kap. í 3. bók Moses). Það bygðu þeir einnig á þessum lögum, að menn mættu ekki taka vexti af lánum. Þessu fengu þeir samt ekki ráðið,

því efnamennirnir möttu Mammon meira en Moses. Viðhorf þeirra við vísindunum má nokkuð ráða af þessari setningu, teknri úr bók Aspheims prests, "Missouri-synoden og den norske Synode": "Það er eins guðdómlega víst, að sólin í sífellu hreyfir sig á himninum umhverfis jörðina eins og það er víst, að guð hefir skapað heiminn". Þá er þeirri kórvillu haldið fram, að til þess að bænir mannanna fái áheyrn þurfi biðjandinn að taka það nákvæmlega fram hvers hann þarfnist.

Ekki einungis biblían heldur einnig rit kirkjufeðranna ber að skoða sem óskeikult guðsorð. Þeirri staðhæfingu er ennfremur slegið fram, að Luter hafi aldrei skjátlast, í guðfræðilegum efnum, eftir að andinn kom yfir hann árið 1523, enda sé hann engillinn með evangelíum, sem um er spáð í opinberunarbókinni. Því var það öldungis nauðsynlegt að trúa öllu sem Lúter kendi. Til dæmis kendi hann, að páfinn væri sá anti-Kristur, sem biblían ræðir um. Svo var til ætlast, að þessi bæn væri flutt við allar guðsþjónustur: "Lát Satan troðast undir fótum vorum, lát mann syndarinnar og son glötunarinn, páfann í Rómaborg, tortímast af anda þíns munns." (Þýð. Jóns Bjarnasonar í Nauðsynlegri hugvekju).

Það var samt ekki nóg, að menn héldu sér við innblástur biblíunnar og Lúters. Hinir síðari alda guðfræðingar, þessarar sérstöku deildar lúterskunnar, voru í litlu minni metum haldnir og bar einnig að trúa og umfram alt að hlýða þeim. Hinn mikli postuli þeirra hét Walter og kendi undarlega guðfræða samsuðu úr lútersku og kalvinsku. Vitaskuld trúði hann á endurlausnina fyrir krossdauða Krists en lagði í það annarlegan skilning. Hann hélt því fram, að Krists blóð hafi goldið að fullu fyrir alla erfðasynd, hvert sem menn trúðu því eða ekki, þar sem Lúter og Melankton skoða trúna nauðsynja skilyrði til þess, að verða þessarar endurlausnar aðnjótandi. Í kveldmáltíðinni gefst söfnuðunum þessi fyrirgefning hvert sem þeir trúa því eða ekki. Trúin er ekkert skilyrði til sáluhjálpar þótt hún að hinu leytinu gefi mönnum gleði fullvissunnar um eilífa sáluhjálp. Samt trúðu þessir Missouri-synódu guðfræðingar á fordæmingu, djöful og helvíti þeim til handa sem ekki vildu hlýða prestunum og fengust ekki til að meðtaka náðarmeðulin eftir þeirra forskriftum.

Hvert séra Páll hefir bókstaflega samþykt allar þessar kennisetningar verður ekkert fullyrt. Hinn strangi kirkjuagi norsku synódunnar gaf honum, að sjálfsögðu, ekkert svigrúm

til að prédika annað en hennar guðfræði; en norska synódan var eiginlega ekkert nema ein undirdeild í Missouri-synódunni, enda mentaði hún hina norsku presta. Á trúmálafundinum, sem haldin var að Gimli dagana 17. og 18. marz, 1879, gætir þessa íhaldssama trúar viðhorfs mjög í ræðum séra Páls.

Haustið 1876 kom fyrst til orða, að séra Páll vitjaði nýlendunnar og gerðist þar trúboðsprestur án kostnaðar fyrir bygðarbúa, fyrst um sinn. Það drógst samt að hann kæmi, enda þjónandi prestur í norsk-íslenzkum söfnuðum suður í Wisconsin-ríki í Bandaríkjunum.

Þessi dráttur varð til þess, að Ný-Íslendingar taka að hugsa til annars prests. Jafnframt voru sumir tregir til að aðhyllast Pál og norsku synóduna þar sem orð tók að fara af þröngsýni þessa félagsskapar. Fljótsbygðarbúar urðu fyrstir til að halda fund um málið, dagana 17. og 18. apríl 1877. Var málið þá vandlega rætt og komu fram raddir á fundinum, að varhugavert myndi að sinna boði séra Páls þar sem Íslendingar hlytu þá að lenda í félagsskap og undir stjórn erlends kirkjufélags. Mátti þá heyra enduróminn af hinni viturlegu ræðu Einars Þveræings, er þannig var að orði komist, hjá einum fundarmanni. "Við munum lítils megnugir í þvílíkum félagsskap. Fáir, okkar á meðal, kunna að mæla á ensku og enn færri á þýzku eða norsku en við hinsvegar svo fáir og fátækir, að þeir munu öllu ráða en við engu. (Framfari, 30. sept. 1877).

Nefnd var kosin á fundinum til að útvega prest, semja við aðrar bygðir nýlendunnar um kirkjuleg samtök, gangast fyrir kirkjubyggingum og afþakka tilboð séra Páls um að gerast þar trúboðsprestur. Voru nú fundir haldnir víðsvegar um bygðirnar. Kom upp skoðanamunur ei all-lítill. Sumum fanst rasað nokkuð um ráð fram, að hafna boði séra Páls og synódunnar. Svo fór að þetta prestsmál olli klofningi áður en nokkur prestur vitjaði Nýja-Íslands. Tóku nú þeir menn sig til, sem staðið höfðu að fundinum við Fljótið og þeir aðrir er gengið höfðu til liðs með þeim og stofnuðu kirkjufélag er nefndist "Hið lúterska kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi. Eru grundvallarlög félagsins prentuð í 16. tölublaði Framfara, fyrsta árgangi. Í lögum þessa félags kennir allmikils frjálslyndis. Um trúarjátningar var þar farið svofeldum orðum. "Trúarjátningar eru merkir sögulegir vitnisburðir um hversu menn hafa skilið og kent lærdóma heilagrar ritninga." Skyldi félagið vera öðrum kirkjufélögum óháð. Það samanstóð af fimm söfn-

uðum: Bræðrasöfnuði, við Íslendingafljót; Breiðuvíkursöfnuði; Mikleyjarsöfnuði; Bæjarsöfnuði á Gimli og Steinkirkjusöfnuði í Víðinesbygðinni sunnan Gimils.

Eftir beiðni manna heimsótti séra Jón Bjarnason, þá til heimilis í borginni Minneapolis, söfnuðina í júlí mánuði um sumarið. Eftir þá kynningu sendu 130 heimilisfeður honum formlega köllun og kom hann, sem formlega ráðin prestur, til Nýja-Íslands 8. nóv. um haustið (1877), ásamt konu sinni, Láru, dóttur Péturs Guðjónssonar, hins alkunna tónfræðings.

Hér kemur sá maður til sögunnar, sem dýpstu sporin hefir mótað á æfileiðum Íslendinga í Vesturheimi. Það er engan vegin auðvelt að gera sér grein fyrir skapgerð og áhrifamagni þessa manns — samt er maðurinn svo hreinn og beinn, svo heilsteyptur og falslaus, sem framast má verða. Séra Jón var áreiðanlega mjög óvenjuleg persóna. Engin getur áunnið sér slíka aðdáun, annað eins fylgi, sem hann, án þess að hafa djúptæk og varanleg áhrif á aðra, án þess að eignast traust þeirra. Eigi var það fyrir mælsku hans né skörungsskap í stólnum; hann var ekki hrífandi ræðumaður, öðru nær. Samt var einhver aðlaðandi undirtónn í þessum hversdagslegu orðum, sem týndust fram af vörunum, í fremur óhrjálegri framsetningu. Það var sannfæringarkraftur einlægninnar, sem verkaði á mann með vekjandi boðskap. Maður varð þess var, að prédikarinn var að flytja sitt hugðarmál, hjartans mál. Skapgerðin var stórbrotin, fastmótuð og falslaus; lundin rík, svo hann hafði það til, að vera þungorður og stórorður bæði í stólnum, og þó einkum á ritvellinum. Kennir þess glögt í ýmsum fyrirlestrum og blaðagreinum. Hann reiddi pennan í víkingslegum ákafa og orustugleði. Hjó stórt og þungt, svo eldur virtist úr honum sindra. Þessir neistar særðu og brendu, en samt var ekkert eitur í þeim benjum því maðurinn háði hvorki launvíg né leitaði undirbragða. Hann var stundum ósanngjarn, í ákafa sínum, óhlífinn og óvæginn við mótstöðumenn sína. Það lék aldrei á tveimur tungum um afstöðu hans til málanna.

Manneskjan er undarlega samsett vera, og gætir þess einna mest hjá þeim er einna mest í er spunnið. Oft lítur svo út sem séra Jón, hinn óhlífni bardagamaður, hafi hið mesta yndi af því, að höggva stórt og vekja válegar undir; að hann sé harður, sem tinnan, en samt er þelið hlýtt undir harðstaknum. Þetta þel kemur börnunum til að laðast að manninum og gömlu fólki til að leita hans ráða í einveru ellinnar. Það urðu örlög

hans að eiga í æfilöngum deilum við ýmsa. Auðvitað er orsakanna fyrst og fremst að leita í honum sjálfum. Því er ekki að neita, að séra Jón, eins og reyndar flestir mannskapsmenn, var ráðríkur og af því flutu drjúgar deilur, eins og oft vill verða meðal vorra óleiðitömu Íslendinga. Hins gætir þó ennþá meir, að séra Jón er í endalausri trúvörn. Hann hlóð sér vígi til viðnáms fyrir straumum aldarfarsins á uppleysingar og endursköpunar tímamótum, og úr því vígi vildi hann ekki víkja "hvort sem honum ætti að granda eldur eða reykur", eins og hann kemst sjálfur að orði í sjálfsvarnargreininni, "Apologia pro vita Sua". Gat ekki þessi þrotlausa varnarstöð komið frá ósjálfráðri, innri vitund um, að hann hafi, þrátt fyrir alt, haft veikan málstað að verja? Eg hef þráfaldlega rekist á það í ritum hans, og þó einkum í "Nauðsynlegri hugvekju", að séra Jón gerir einkennilegar játningar, eins og ósjálfrátt. Hann kannast við, að biblían geymi ósamrýmanlegar andstæður, hann hefir það til að vara menn við oftrú á Lúter og öðrum foringjum, eða þeim játningum, sem þeir hafa samið; talar enda um samvizkufrelsi. Að hinu leytinu verður honum það stundum á, að oftala sig í trúvarnar ákafanum. Í kirkjuþingserindi, sem hann flutti árið 1891 (eða 2) kemst hann til dæmis þannig að orði: "... Menn mega ekki hugsa sér guð sem einhverja meinleysis veru .... kærleikur guðs á ekkert skylt við það, sem í daglegu tali, er nefnt góðsemi..."

Hversvegna er hann svo harðsnúinn gegn öllum nýjum trúarhreyfingum? Til þess að finna svarið verður maður að athuga afstöðu hans og kringumstæður. Að mentun og innræti er hann fyrst og fremst fornaldar-maður með djúpa lotningu fyrir hetjum fyrri tíða. Í prédikunum sínum vitnar hann nærri því eins oft í hetjur Norðurlanda, Grikkja og Rómverja, sem sögupersónur ritninganna. Hans andlegu sjón er allri beint aftur í tímann. Þar finnur hann verðmæti, sem ekki mega glatast. Í uppleysingu tímanna óttast hann að þeim sé glötun vís. Þessari vörn snýr hann svo til gífurlegrar gagnsóknar á móti stefnum tímanna og finnur þar fátt eða ekkert til lífsbóta. Margt hefði farið á aðra leið ef hann hefði áttað sig á því, að allir tímar geyma sín göfugmenni og menn geta verndað virðingu fyrir því aldna án þess að vantreysta þeim opinberunum, sem nýir tímar og viðhorf veitir. Þá virtist ekki því að heilsa. Hin unga kynslóð var í algerðri uppreisn gegn gömlum siðum og lífsskoðun feðranna. Hún sást lítt

fyrir, í fjörbrotum tímamótanna og fordæmdi flest, sem var fornt.

Í öðru lagi óttaðist séra Jón að Íslendingar væru að glata sjálfum sér og myndu klofna í ótal trúflokka, að hérlendum sið. Þetta myndi spilla allri samvinnu, svo nauðsynleg sem hún þó var þeim í fátækt frumbýlisáranna. Sá ótti var ekki ástæðulaus, eins og síðar kemur í ljós. Hitt er jafn víst, að aðfarir hans urðu engu síður til að sundra en sameina Íslendinga í Vesturheimi. Það sameinaði aðeins þá sem fylgdu honum að málum og hyltu hann sem foringja en fráskildi þá, sem ekki gátu aðlaðast hann í trúarefnum.

Ungur kemur séra Jón til Nýja-Íslandi beint frá þýzknorsku synódunni. Hann hafði fyrst starfað sem aðstoðarprestur hjá Koren presti í Decorah í Iowa-ríki, og verið síðar kennari við Luther College í sama stað. Ekki varð samt af samkomulagi milli hans og synódunnar og gast honum ekki að guðfræði þeirra. Það var því mjög eðlilegt, að hann beitti sér gegn áhrifum synódunnar í Nýja-Íslandi.

Séra Jón beitti sér strax fyrir stofnun barnaskóla að Gimli og gerðist kona hans, frú Lára, kennari skólans. Jón var maður skyldurækinn og taldi hin erfiðu ferðalög um vegleysur síns víðlenda prestakalls lítt eftir sér. Myndi margt gott hafa hlotist af prestþjónustu hans, í nýlendunni, hefðu aðstæður til betra samkomulags verið fyrir hendi. Þess verður að geta, að fólkið hafði þá þegar dregist í flokka þar sem margir voru fullráðnir í því að taka tilboði séra Páls. Mun það fremur hafa ýtt undir þá, í allsleysinu, að með því bjuggu þeir sér engar fjárhagsbyrðar. Þó var séra Jón ekki heimtufrekur um kaup og manna nægjusamastur bæði þá og síðar.

Nú taka Páls menn sig til og senda honum beiðni, að koma og varð hann tafarlaust við þeirri kvöð. Hann kom til nýlendunnar 19. okt. 1877. Voru nú söfnuðir stofnaðir: tveir í Árnesbygð, Hallgríms og Guðbrands söfnuðir og Vídalslínssöfnuður í Víðinesbygðinni. Af þessu má ráða að Árnesbygðarbúar hafi verið hans helztu styrktarmenn auk nokkurra við Fljótið og í Víðinesbygðinni. Liðinu var annars nokkuð jafnskift, að höfðatölu, því 120 heimilisfeður rituðu undir umbeiðnina til séra Páls.

Auðvitað elnaði flokkadrátturinn við komu prestanna. Eins og sakir stóðu hlaut þeim að lenda saman í trúardeilu, enda mennirnir báðir fastmótaðir og fastheldnir. Séra Páll

kemur sem boðberi nýrrar og afturhaldssamrar trúarstefnu, í umboði síns kirkjufélags. Séra Jón er málsvari þess þjóðlega kristindóms, sem þróast hafði í íslenzkri einangrun og kend var við prestaskólan í Reykjavík. Páll mun hafa verið jafn sannfærður um, að lúterska Missouri-synódunnar væri Íslendingum hollur, andlegur heilsugjafi sem Jón var þess fullviss, að hann myndi reynast þeim afvegaleiðandi kreddukenning og draga þá í dilk með sérgæðisfullum "útlendingum" og í þeim félagsskap myndu þeir glata sjálfum sér og sínu sjálfstæði.

Gerðust nú ýmsar greinar með prestunum og mönnum gefst kostur á, að sjá hvernig tveir lúterskir prestar, sem báðir mega teljast "rétttrúaðir" frá hákirkjulegu sjónarmiði, geta samt deilt hverju beri að trúa og hverju að hafna. Báðir trúa á helvíti og eilífa glötun en eru samt ekki samdóma um hverjir fari þangað eða fyrir hvað. Báðir trúa á endurlausn fyrir blóðfórnina á krossinum en kemur samt ekki saman um hverjir fái friðþægingu og fyrir hvað sé goldið. Báðir trúa samkvæmt játningunum en kemur samt ekki saman um hvað margar eigi að hljóta viðurkenningu kirkjunnar. Séra Páll skoðar öll rit Lúters innblásin; Jón viðurkennir Ágsborgarjátninguna ásamt almennu játningunum, sem kendar eru við postulana, Nikeu og Aþanasíus. Báðir eru íhaldssamir en hvorugur frjálslyndur, í þeim skilningi að vilja taka niðurstöður gömlu og nýju guðfræðinnar til hlutlausrar rannsóknar. Það verður eitt af fyrstu verkum séra Jóns, að endurskoða lög síns kirkjufélags og binda það við játningarnar. Í hinum nýju grundvallarlögum, sem hann fær samþykkt á kirkjuþingi Ný-Íslendinga, í marz mánuði árið 1878, kemur þessi grein í stað hinnar upphaflegu, frjálslegu yfirlýsingar: "Játningarnar ber að skoða, eigi aðeins, sem vitnisburð um hvað kirkjan hafi kent á ýmsum tímum, heldur sem hreina og rétta framsetning guðsorðs, sem aldrei breytist." Svo eru þessi játningarrit upptalin: Hin postullega trúarjátning, Nikeu-játningin, Aþanasíusar-játningin, Ágsborgar-játningin (óbreytt) og Lúters minni katekism". Þetta hefði nú átt að vera nokkurnvegin nægileg kjölfesta fyrir hvaða kirkjufélag sem vera skal en samt var séra Páll ekki ánægður með það og deildi bæði á séra Jón og prestaskólamennina heima fyrir vantrú þeirra, af því þeir vildu ekki gefa meiri gaum að Walter og hinum nýútsprungnu guðfræðingum Missouri-synódunnar. Séra Jón, hinsvegar, taldi þeirra guðfræðilega innlegg til villutrúar.

Þetta er í raun og sannleika rökræn afleiðing "rétttrúnaðarins" svo sem sagan sýnir. Það er háttur bókstafstrúarmanna, að leggja vissar greinar til grundvallar fyrir guðfræði sinni, eftir geðþótta sínum og hugarstefnu. Er þar af mörgu og misjöfnu að taka en þeim kemur aldrei saman um þessar undirstöður og lenda því í endalausu þjarki um ritningargreinar og trúarjátningar. Hefir mikið sundurlyndi af því spunnist.

Báðir prestarnir, Páll og Jón, telja sig standa á öruggum bókstafs og játningargrundvelli, þeir þykjast meir að segja standa á íslenzkum, lúterskum trúargrundvelli, en afrækja þó báðir þjóðlega kirkjusiði. Jón afleggur messuskrúða, tón o. s. frv. Páll leitast við að leiða sína fylgjendur inn í hinar þröngu og skuggalegu hugkvíar þýzk-amerísku lúterskunnar.

Þessi prestadeila hafði djúptæk og varanleg áhrif á félagssamlyndi bygðarbúa. Það var deilt um trúmál í Framfara og menn kappræddu um Jónstrú og Pálstrú frá einum enda Nýja-Íslands til annars. Menn, sem höfðu verið góðir grannar og samverkamenn urðu nú andstæðingar og enda óvinir. Trúarhitinn varð því meiri sem þekkingin var minni. Öll samvinna gerðist erfið; andrúmsloftið eitraðist af illhug og flokkadrætti. Öldruð og skynsöm kona, Mrs. Jónas Stefánsson, sagði mér margt um frumbýlisárin í Nýja-Íslandi og þar á meðal um plágurnar þrjár: bóluveikina og flóðið mikla, sem olli skemdum á engjum og högum. "Hin þriðja plágan, presta rifrildið, var þó verst," sagði hún. "Það spilti sálinni og eitraði mannlífið."

Skynsamir menn sáu hvert stefndi og efndu til sáttafundar að Gimli, 17. og 18. marz 1879. Sóttu hann menn úr öllum pörtum bygðarinnar og létu sig hvorki tefja ófærð né annir. Á þessum fundi ræddu prestarnir sín mál í heyranda hljóði. Þar lýsti séra Páll því yfir, að hann ætti ekkert andlegt samfélag með nokkrum íslenzkum kennimanni, hvorki hérlendis né heima á Fróni, að hann hlyti að skoða séra Jón sem vantrúarmann, og gæti því ekki átt með honum bænafundi, né aðrar guðsþjónustugerðir. Hann meir að segja amaðist við því, að eiga sameiginlegan grafreit með flokksmönnum séra Jóns.

Í samanburði við Pál var framkoma Jóns frjálslegri, á fundinum. Hann breiddi jafnvel út faðminn og kvaðst vilja meðtaka alla í kærleiks og náðarfaðm kirkjunnar. Hætt er nú samt við, að þessu hafi fylgt nokkur skilyrði, svo sem eins og þau, að undirskrifa trúarjátningarnar allar fimm, sem hann var nýbúinn að fá söfnuði sína til að samþykkja.

Svo sem við mátti búast varð fundurinn aðeins til þess að rótfesta ágreininginn og fjarlægja fólkið hvert frá öðru. Hvorugur prestanna átti langdvalir í Nýja-Íslandi eftir þetta. Séra Páll gekst fyrir nýlendustofnun í Norður Dakota og hvarf þangað árið 1879, en séra Jón flutti til Íslands ári síðar.

Hér er um virkilegan sorgleik að ræða. Báðir eru prestarnir hæfileikamenn á marga vegu, báðir áhugasamir um velferð Íslendinga í Ameríku, báðir einlægir trúmenn. Samt verður starf þeirra til að sundra og kveikja þann eld, sem af hefir rokið, og enn mun rjúka, svo Íslendingar ganga hálfblindir í gæfuleitinni, á vesturvegum. Aldrei hafa prestar haft betra tækifæri til að láta gott af sér leiða, að sameina sundraða krafta til happasælla framtaka, að stæla vilja þrekaðra og vonsviknra manna með krafti trúarinnar.

Það er ekki svo auðvelt, að draga lífræna mynd af Nýja-Íslandi og íbúum þess, á þessari tíð. Það er svo erfitt, fyrir nútíðarmanninn, að gera sér fulla grein fyrir erfiðleikunum og baslinu. Einangrunin var ægileg; næstu nágrannarnir, hálfviltir Indíánar, á sveimi um óbygðirnar; löng leið til hvítra manna um illfæra vegi. Úr þessari einangrun hugsuðu þeir sér að bæta, að nokkru, með því að stofna söfnuði og fá sér presta. Þessir prestar áttu að vera tengiliður, sem batt þá við umheiminn, mentaðir menn, er gætu verið þeirra málsvarar út á við en foringjar til framfara heima fyrir; eins og beztu sveita prestarnir höfðu svo oft og tíðum verið, á Fróni. Erfitt og ömurlegt var lífið í nýlendunni, þar sem örþreyttir menn óðu forina á troðningunum milli skógarbeltanna, bognir undir byrðum sínum. Upp úr þessum fúafenum reis bitvargurinn í miljóna mergð, ærði fénaðinn og þjáði mennina. Nytin hrapaði úr kúnum um hásumarið, af sauðkindunum voru eyrun étin en blóðrisa arðuruxar tóku af mönnum ráðin og leituðu sér afdreps fyrir þessum nagandi smádjöflum. En bóndinn varð að halda sig að heyskapnum og reita stráin upp úr þessum forardýkjum, í þessu eiturspúandi víti. Menn kyntu bál fyrir kofadyrum, að kveldlagi, og létu reykinn leggja í húsin til að fæla fluguna, skriðu svo inn í brælunа til að fá stundar fró. En heima var lítinn frið að fá, því nú skreið veggjalúsin út úr viðinum og réðist á þá með helvískri atorku. Út á vatnið urðu þeir að draga, á lélegum fleytum, því þaðan var helzt bjargar að vænta. En þrumustormarnir eru ekki lengi á leiðinni og

áður en fiskimaðurinn nær landi er rokið skollið yfir með ógnandi, kröppum öldum. Þá voru hetjudáðir drýgðar, sem engar sögur segja frá né skáldin hafa rómað. Þrek, hugrekki og kænska hrukku stundum skamt til að bjarga veiðimanninum úr voða. Um þetta sama vatn drógu þeir netasleðana í vetrarbyljum og urðu að gæta allrar varúðar, að lenda ekki í íssprungunum, er leyndust undir vetrarmjöllinni. Þessir menn höfðu ráðist í að byggja sér kirkjur og ráða til sín presta til að magna sig andans móði í lífsbaráttunni og innræta æskunni guðstrú og góða siði, því æskan, sem átti að erfa landið, skyldi uppfrædd til manndóms og menningar.

Nú voru þessir prestar horfnir sjónum og auðar og hálfbygðar kirkjur töluðu máli þagnarinnar um hrundar vonir. Ekki ólíklegt, að einhverjir hafi um það hugsað, hvert klerkarnir hafi stýrt nokkru láni inn í nýlenduna. Menn voru jafn andlega snauðir sem áður. Munurinn lá aðallega í því, að nú var minna rætt um framfarir, í bjálkakofunum, en meira um glötun og gæfuleysi.

Svo mikið er víst, að Ný-Íslendingar gerðu sér lítið far um, að fá sér presta eftir að Halldór Briem, eftirmaður séra Jóns, vék þaðan í burt eftir mjög stutta þjónustu. Halldór var gæflyndur maður en atkvæðalítill. Hann hafði, í upphafi, komið til Ameríku til að gerast prestur norsku synódunnar en afturhald þessa kirkjufélags aftraði honum, að gerast þeirra kennimaður.

Það var ekki fyr en árið 1887, að séra Magnús Skaptason, sonur Jóseps Skaptasonar læknis í Klömbrum, kemur til Gimli til að gerast prestur hinna endurreistu safnaða, sem hið nýstofnaða lúterska kirkjufélag Íslendingar hafði endurvakið og innlimað. Séra Magnús var Íslendingur í húð og hár, hrjúfur máske nokkuð hið ytra en hjartað þó "sem gull ef glögt er greint". Hann átti viðkvæmni barnsins en drenglyndi víkingsins, að verja til hins síðasta, hvað helzt, sem samvizkan sagði satt og rétt. Fáum mönnum á trúarfrjálslyndið, meðal Íslendinga í Vesturheimi, meir að þakka. Hann gegndi þeirri hvöð, að leita sannleikans. Hann þráði sannleikann eins þreyttur vegfarandi bergvatnslindina. Hann þoldi illa alt aðhald og prédikaði sig út úr kirkjufélaginu eftir fjögra ára þjónustu.

Það var um vorið 1891 að séra Magnús flutti mjög ákveðna og sköruglega ræðu gegn útskúfunar kenningu kirkjunnar. Hann kvað hana alt í senn: óskynsamlega, ósiðlega, ókristi-

lega og óguðlega. Út af þessu tiltæki, að ráðast þannig opinberlega á eina traustustu máttarsúlu hinnar lútersku kirkju, reis, eins og við mátti búast, mikil alda innan félagsins. Séra Hafsteinn Pétursson, þá þjónandi prestur Kirkjufélagsins í Argyle-bygðinni, var sendur til að koma vitinu fyrir uppreisnar klerkinn en séra Magnús lét sér hvergi segjast. Kom nú ótvíræðilega í ljós, að hann hafði fylgi fjölda manna í Nýja-Íslandi. Samt hraus einstöku mönnum hugur við dirfsku prestsins og stærsti söfnuðurinn, Bræðrasöfnuðurinn, sagði honum upp þjónustu. Úr öðrum söfnuðum gengu nokkrir en svo bættust þá aðrir við, sem hingað til höfðu staðið utan við allan kirkjulegan félagsskap.

Nú vaknaði mikil frjálslyndishreyfing í nýlendunni og voru fundir haldnir. Aðal fundurinn stóð að Gimli, 31. marz, 1891. Voru þar þessir fulltrúar mættir: Magnús Jónsson (frá Fjalli) og St. O. Eiríksson (skáldið) frá Víðinessöfnuði; Guðni Thorsteinsson og Jónas Stefánsson frá Gimli-söfnuði; Ari Egilsson frá Árnes-söfnuði; Jón Hildibrandsson og Sigurbjörn Jónsson frá Breiðuvíkursöfnuði; Andrés Skagfeld frá Fljótshlíðarsöfnuði, Páll Jakobsson og Pétur Bjarnason frá Mikleyarsöfnuði. Hér var sannarlega valinn maður í hverju rúmi. Auk þessara fulltrúa voru þeir einnig mættir á fundinum: Hafsteinn Pétursson, prestur og Gestur Pálsson, skáldið fræga. Var þeim báðum veitt málfrelsi, en ekki voru þeir samherjar á þessu þingi. Fundurinn var eindregið — að séra Hafsteini undanskildum — á bandi séra Magnúsar. Utan um hann var nýtt kirkjufélag stofnað, hann ráðinn sem leiðsögumaður þess og prestur. Jafnframt sögðu söfnuðirnir sig úr Kirkjufélaginu. Þó var hér ekki um gagngerða byltingu að ræða. Samkvæmt fyrstu grundvallarlögum félagsins undirskrifa söfnuðirnir þrenningar lærdóma kirkjunnar og andlegan en ekki bókstaflegan innblástur biblíunnar. Því eina, sem þeir hafna með öllu, er kenningunni um eilífa útskúfun. Nafn félagsins var Hið frjálsa, kristilega, lúterska kirkjufélag Íslendinga í Ameríku. Nafninu var samt breytt árið 1893 og nefndist þaðan í frá Fríkirkjufélag Íslendinga í Ameríku.

Þessi uppreisn Magnúsar hafði víðtæk áhrif. Séra Hafsteinn Pétursson hélt kirkjuþingsfyrirlestur gegn þeim óguðlegheitum, að hafna helvíti og kvölunum, í nafni hinnar ritningarlegu trúar. Séra Jón Bjarnason fordæmir þá villu, í öðrum fyrirlestri, að eigna guði nokkra linkend í dóminum. Er

fróðlegt að lesa prédikanir Kirkjufélags prestanna árin 1891-92. Þetta öldurót náði alla leið til ættlandsins og var rétt að segja búið, að skola séra Matthíasi út úr þjóðkirkjunni af því hann tók svari Magnúsar og gerðist vantrúaður á tilvist þess vítis, sem árar kynda, svo reiði guðs sé fullnægt í eilífðarkvölum syndarans. Heima voru það bændurnir í Eyjafirði, sem björguðu hempunni fyrir sálmaskáldið ódauðlega; meðan stéttarbræður þeirra slógu skjaldborg um Magnús Skaptason vestur á Vínlands sléttum.

Söfnuðirnir í Nýja Íslandi virtust blómgast vel í prestskapartíð séra Magnúsar og voru sunnudagaskólar haldnir í öllum söfnuðunum; alla sunnudaga ársins í Gimli, Fljótshlíðar og Árnessöfnuðum en eitthvað skemur í hinum.

Séra Magnús yfirgefur Nýja-Ísland til að gerast prestur Únitarasafnaðarins í Winnipeg árið 1894. Reit hann þá kærleiksbréf til safnaða sinna er sýnir berlega hvernig samvinnunni var háttað. Þar segir hann, meðal annars: "Mér er sem eg eigi föður eða móður, bróður eða systur í hverju húsi, og hvað samvinnuna snertir, þá er það sannarlega gleðilegt, að líta aftur á það, hvað þér vinir mínir hafið staðið fastir fyrir þótt andróður hafi verið með köflum, hvílíka einurð, hreinskilni og drenglyndi þér hafið sýnt." Þannig kveður þessi brautryðjandi, í andans heimi, samverkamenn sína í Nýja-Íslandi — en sporin hans sjást þar enn — og víðar á framsóknarleiðum landanna í Vesturheimi.

---

Í næsta hefti þessa rits verður, meðal annars, áframhald af kirkjusögu Vestur-Íslendinga og fjallar þá um Menningarfélags hreyfinguna í Norður Dakota og upphaf Únitara kirkjunnar í Winnipeg. Þá verður þar ritgerð um Ásatrú á Íslandi og byggist sú ritgerð að nokkru á umsögnum slíkra fræðimanna sem Sigurðar Nordals, Helga Pjeturss og Einars Ól. Sveinssonar. Það er hugmyndin að skrifa fjórar ritgerðir um trúarbrögð Íslendinga að fornu og nýju og verður þetta fyrsta ritgerðin. Hinar fjalla um kaþólskuna á Íslandi, siðaskiftin, og sú síðasta um upphaf og þroska raunhyggjunnar í íslenzku trúarlífi.

# Dr. Magnús B. Halldórson

28. nóvember 1869 — 6. júlí 1943

★



DR. MAGNÚS B. HALLDÓRSON

Til minningar um, ekki aðeins ágætan vin, góðan og samvizkusaman læknir og sannan Íslending en einnig einlægan trúmann og stuðningsmann og máttarstólpa frjálstrúar hreyfingarinnar eru þessi fáu orð rituð í þetta fyrsta hefti kirkjurits Hins sameinaða kirkjufélags. Áður hefir Dr. Halldórsonar verið minst í Heimskringlu (29. nóv. 1939) þegar honum var haldið 70 ára afmælissamsæti í Winnipeg, og aftur (14. okt. 1942) er honum var haldið kveðjusamsæti í Sambandskirkjunni er hann flutti héðan austur til New York, til dóttur sinnar, Mrs. Kurt Benediktson, þá um haustið, og svo síðast (14. júlí 1943) er andlát hans fréttist og er hann var jarðsunginn frá Sambandskirkjunni í Winnipeg.

Er Dr. Halldórson flutti héðan, var hann búinn að eiga heima í Winnipeg 25 ár samfleytt, en á yngri árum, er hann var að læra til lækninga, bjó hann hér þá einnig um skeið. En hann ólst upp í Norður Dakota og þar starfaði hann sem læknir fyrstu starfsárin. Hér, auk þess að halda uppi læknastarfseminni, vann hann að kirkjumálum umfram öll önnur mál. Mörg ár var hann forseti Sambandssafnaðar, og fyrir fjórum árum var hann gerður að heiðursforseta safnaðarins. Allir safnaðarmenn og vinir safnaðarins minnast hans með þakklæti fyrir starf hans í þágu kirkjunnar og kirkjufélagsins.

Dr. Halldórson var sonur Björns Halldórssonar, Sigurðssonar stúdents frá Bessastaðaskóla, en kona þess Halldórs (eða amma Dr. Halldórsonar) var Hildur Eiríksdóttir, systir Mag-

núsar Eiríkssonar hins alkunna fyrsta íslenzka únítara guðfræðings. Foreldrar Halldórs voru séra Sigurður Árnason á Hálsi í Fnjóskadal og kona hans Björg Halldórsdóttir, Vídalíns, umboðsmanns á Reynistað, Bjarnasonar sýslumanns á Þingeyrum, Halldórssonar. — Kona Bjarna á Þingeyrum, var Hólmfríður, dóttir Páls lögmanns Vídalíns.

Kona Björns Halldórssonar (móðir Magnúsar læknis) var Hólmfríður Einarsdóttir, Stefánssonar prests á Presthólum, en móðir hennar hét Ólöf Jónsdóttir, komin af Einari sterka, sem bjó á Langanesi í Þingeyjarsýslu.

Þó ekki sé lengra haldið en þetta, kastar það ljósi á ýmsa menn í ætt Dr. M. B. Halldórsonar, er honum kippir í kyn til. Hann var mikilmenni eins og sumir þeirra hafa verið. Hann minti ávalt á fornkappa í sjón og ef til vill, orðum stundum. Framganga hans var svo vaskleg og hiklaus. Að hræðast þykir oss líklegt hann hafi ekki kunnað. — Þegar slíku upplagi fylgja miklir hæfileikar eins og hér átti sér stað, verður varla komist hjá andróðri. Og það mun Dr. M. B. Halldórson hafa að nokkru reynt. En þó vitum vér fáa hafa átt ótrauðari og einlægari vini en hann. Í hópi þeirra, er honum kyntust verulega og störfuðu með honum í félagsmálum, var hann ekki aðeins virtur sakir mikilla hæfileika, heldur einnig elskaður fyrir mannkostina, sem hjá honum, sem öllum köppum, koma í ljós. Og hans er einlæglega saknað, af þessum hópi manna, sem kappa, hreinlynds, drenglynds kappa, er ekki kunni að hræðast andviðrin, en sem vinum sínum brást aldrei. Hann var hinn skapheilasti maður, sem unt er að kynnast.

Systkini Dr. M. B. Halldórsonar voru níu, en 7 af þeim komust upp: Margrét, giftist Halldóri búfræðingi Hjálmarssyni frá Brekku; Björg, gift Birni A. Blöndal; Ólöf, gift Gísla Goodman; Guðrún gift Einari Grímssyni Scheving; Halldór, dó fullorðinn; Björn, í San Francisco. Í æsku dóu Þorbjörg og Halldór.

Af þessum systkina hópi er nú aðeins Björn á lífi.

Árið 1900 kvæntist Dr. Halldórson Ólöfu Mörtu, dóttur séra Magnúsar Skaftasonar og frú Valgerðar Sigurgeirsdóttur. Var hún af öllum talin hin ágætasta kona, enda sambúð þeirra mjög til fyrirmyndar. Hún andaðist hér í Winnipeg 17. maí 1937.

Þeim varð þriggja barna auðið. Sonur þeirra, Edward Marion Halldórson, er í sjóliði Bandaríkjanna. Dæturnar eru

tvær: Helen, Mrs. K. Benediktson í New York og Margaretta, Mrs. D. Brazier, Ottawa.

Hann andaðist á heimili dóttur sinnar, Mrs. Benediktson, New York, 6. júlí 1943, eftir undanfarandi veikindi.

Við lát Dr. M. B. Halldórsonar á fjöldi einstaklinga góðs vinar að sakna. Þeim sem hann annaðist, sem læknir, verður hann æ ógleymanlegur. Mannkostir hans komu þar svo ótvírætt í ljós, að hann ávann sér óskifta ást og virðingu. Hann taldi aldrei eftir sporin, þegar svo stóð á og lagði margsinnis, sem aðrir okkar góðu menn og læknar hér, mikið á sig, án þess að vænta nokkurs endurgjalds. Dr. Halldórson var einn þeirra göfugu öðlinga í hópi Vestur-Íslendinga.

Við burtför hans frá Winnipeg, fanst oss verða eitthvað tómlegra hér en áður. Við söknuðum þess, að fá ekki að sjá hann og eiga tal við hann, því hann hafði ávalt ærið að segja mönnum, bæði til fróðleiks og gamans.

Þjóðræknismál Íslendinga, var hann ávalt reiðubúinn að styðja og félagslíf landa yfirleitt, þó mest kvæði að því innan Sambandssafnaðarins í Winnipeg. Hanni unni hinum frjálsu hugsjónum, sem þar var unnið að, að kynna og útbreiða, öllu öðru fremur.

Mannvininn og hæfileikamanninn Dr. M. B. Halldórson, kvöddu samverkamenn hans því, klökkir að vísu í huga, en þakklátir fyrir minninguna um hans nýta starf og miklu mannkosti. **Philip M. Pétursson**



## HERPRESTAR OG SAMANBURÐAR GUÐFRÆÐI

---

Bandarískir herforingjar hafa kvartað yfir því, að sumir herprestarnir séu verri en ekkert af því þeir prédiki ekkert nema sérkreddu síns kirkjufélags, er eðlilega vekur mótspyrnu hjá hermönnum úr öðrum kirkjum. Til að gera við þessu verða prestarnir að ganga á námsskeið í óhlutdrægri samanburðar guðfræði. Þegar þetta kom til orða tóku þeir að leita fyrir sér um þvílíkan skóla og úrskurðuðu að Harvard Divinity School væri bezt til þess fallinn, en hann er, svo sem kunnugt er, undir handleiðslu Unitara. Meiri viðurkenningu á hlutlausri guðfræði og gagnlegri er naumast hægt að fá.

# Páska hugleiðingar



"Við leituðum hans í gröfinni, árangurslaust. Hvar hafið þið lagt hann?" Harmþrungnar konur báru fram sína kveinstafi. Þær höfðu vitjað grafarinnar, árla morguns og ætluðu að sýna minningu meistarans virðingu og ástúð, með því að smyrja líkið, að sið Gyðinga.

Þetta er svo sem ekkert einsdæmi, í kristninni, að Krists vinir láti sig líkamslíf hans mestu varða. Kirkjan hefir löngum einbundið kenningar sínar við efnið fremur en andann; við holdtekju hans og líkams getnað; við blóð hans og krossdauða; við holdlega upprisu hans fremur en andlega. Sjálf endurfæðingin átti að vera í því innifalin, að menn tryðu á þessi líkamlegu fyrirbrigði. Þetta gefur kristindóms boðun kirkjunnar heiðinglega, barnalegan svip og sviftir hann andlegu magni til endursköpunar á innræti mannanna. Það er eiginlega mesta fásinna, að kalla þessa samfléttun úr assýriskum heiðindómi, zóroiskri tvíhyggju, gyðinglegum lagasetningum og grísk-egypskri háspeki — kristindóm. Kirkju guðfræðin leggur aðal áherzluna á hið efnislega, — holdlega. Kristur á andann. Þessa verður að minnast þegar maður athugar hina hörmulegu eftirtekjur trúboðsins í heiminum.

"Og engill lífsins stóð í gröfinni og bar mönnunum þennan boðskap: Hann er upprisinn, eða því leitið þið hins lifandi meðal hinna dauðu?"

Um hina líkamlegu upprisu Krists vitum við raunar lítið. Frásögnum guðspjallanna ber ekki að öllu leyti saman um atburðinn. Hvað lærisveinarnir sáu, í grasgarðinum, í Jerúsalem og út á veginum, verður engum núlifandi manni að fullu ljóst. Fyrir einhverjum miklum og djúptækum áhrifum urðu þeir vafalaust. Innræti þeirra og æði tók gagngerðum breytingum, svo mikið er víst. Þessi áhrif voru nógu sterk til að lækna efagirni Tómasar, breyta hinum hvarflandi Pétri í ósigrandi trúarhetju, og hinum skapbráða, unggæðislega Jóhannesi í dánumann og draumlyndan dulspeking. Jesú, hertogi þeirra, var þeim ekki dáinn. Þeir sáu hann lengst og síðast í sínu eigin hugskoti, í andlegri samvist og ævarandi nálægð. Þeir sáu mynd hans í helgidómi hjartans, í helgidómi minninganna, og

þessi andlega návist olli mestri breytingu í sjálfum uppistöðum þeirra eigin sálarlífs; umskapaði þá í mynd og líkingu þess fræðara, er fær ekki dulist þess sannleikshvöt, sem engin dauði getur afmáð. Hann varð þeirra skólameistari í upprisunni, og hann verður að vera skólameistari mannanna um ókomnar aldir, ef mannslífið á að vara og verndast til framsóknar á þessari jörðu. Kærleikurinn, sem getur beðið fyrir böðlunum, með deyjandi tungu á krossinum, er einasta aflið, sem getur að síðustu sigrað svartadauða sálarinnar — hatrið, fordómana, þröngsýnina, smásálarskapinn í hjörtunum. Það var ekki einungis að þeir tryðu á andlega upprisu meistarans heldur miklu fremur, að þeir reyndu mátt upprisunnar í sjálfum sér. Í fjögra ára skólavist hjá Jesú, hafði andi þeirra frjófgast af anda hans, magnast af hugrekki hans, mótast af þessum einstæða persónuleika, er lifði í fullkomnasta samræmi við sannleikann, kærleikann og lífsins lög. Alt sem er fagurt og satt, göfugt og gott, minti á hann. Til þess að tilreiða þessari minningamynd viðeigandi stað urðu þeir sjálfir að vanda líferni sitt, hreinsa hugskotið, temja lund sína til samræmis við þá undirtóna, sem Krists dýrkunin skapaði í þeirra eigin vitund." Þeirra einlægasta bæn, eins og skáldsins, var: "Vor herra Jesú vak í mér, vaka láttu mig eins í þér." Þetta er höfuðatriði og aðal undirstaða kristninnar í heiminum; því vaki hin andlega mynd þessarar drottinlegu hetju í minnum manna, endurspeglast hún í líferni þeirra og gerðum, hvað sem öllum játningum líður.

Þetta endurskin Krists eðlisins, hjá postulunum, skein eins og andlegur áttaviti gegnum blóðfórnar endemi heiðindómsins, mistur heimspekinnar og sló eldlegum bjarma um hof og hörga þar sem grimmlyndir guðir töldust ráða örlög þjóða og einstaklinga. Þetta ljósflæði sigraði voldugasta hervald veraldarinnar, hið Rómverska ríki.

"Sjá, þeir elska hver annan", hrópaði undrandi lýður, sem kom til þess að sjá drottinsvikara sundurrifna af óargadýrum, í Hringleikhúsinu mikla í Rómaborg. Þeir veittu því athygli hversu hinir styrku studdu þá veiku, hinir hugrökku hughreystu hina skelfdu, hversu einn bar annars böl og gaf honum sína gleði — sína trú. Nú fyrst gátu þeir trúað því, sem þeir höfðu furðulegast heyrt um þetta fólk, að hjá því væri hvorki þræll né höfðingi, snauður eða ríkur, því þeir hefðu sameign og samneyti um öll jarðar gæði. Hinir fyrstu kristnu söfnuðir

stofnuðu og starfræktu hin fyrstu sameigna- og samvinnufélög meðal mannanna, síðan á dögum frummannsins. Þeir voru eina mannfélagið, sem sigrað hefir ofbeldið í krafti kærleikans.

Hversu ólíkt er nú ekki þetta þeirri hálfkristni, sem heimurinn hefir við að búa. Ef einhver tæki nú að hrópa: "Sjá hversu kristnir menn elskast", vissum við óðara að hér væri farið með naprasta háð, enda gæti það ekki annað verið meðan einn vill álíta sig guðsbarn en náungann son glötunarinnar, meðan einn telur sig öðrum meiri af því hann trúir á játningar Péturs fremur en Páls.

Ljós upprisunnar hefir myrkvast við samruna heiðninnar og kristninnar; áhuginn fyrir guðsríki réttlætisins, kærleikans og friðarins, á þessari jörð, dofnað fyrir endalausa tilslökun við mannsins lægri hvatir, við ágirnd, dramb og drotnunargirni; trúin á sigurmátt sannleikans, kærleikans og Krists fjarað út af því Kristsmyndin hefir máðst og afskræmst. Krosshetjan frá Golgata er orðin að auvirðilegu fórnardýri.

Samt hefir Kristsmyndin aldrei með öllu horfið. Hvar sem djarflega er barist fyrir málefnum sannleikans, í fulltrausti um sigur, er andi Krists enn með lífsmarki. Hvar sem kærleikurinn ræður ríkjum í heiminum, á heimilunum hafa mennirnir gengið til liðs við hann. Hvar sem mennirnir starfa að stofnun og ræktun guðsríkis með vaxandi mannlífsbetrun er hann enn að verki.

Þegar Talleyrand kardináli var æðsta ráð Lúðvíks Frakkakonungs, leituðu klerkarnir ráða hans gegn vaxandi vantrú og vanmætti kirkjunnar. "Þið trúið náttúrlega á hinn krossfesta og upprisna Krist," sagði Talleyrand.

"Jú, jú!" Vitaskuld trúðu prestarnir þessu samkvæmt játningunum.

"Þá myndi eg ráðleggja ykkur að krossfesta holdið með Kristi svo þið mættuð með honum eiga andlega upprisu," sagði kardinálinn.

Það er margt sem þyrfti að krossfesta í kirkju nútímans svo hún megi eiga sér andlega upprisu og svo að guði sé ekki "með ofveldi meinað máls í musteri dýrðar sinnar." Kirkjan í núverandi ástandi er dauðadæmd — hún dæmir sig sjálf. Um hitt er eg jafn sannfærður að anda Krists hefir aldrei verið meiri þörf í heiminum.

Ef mönnum finst lítið um fjörspretti í ræðum og ritum klerkanna kemur það til af því að kirkjan hefir ennþá ekki

gengið fram úr gröfinni, sem miðalda guðfræðin gróf henni með fjötrandi kreddum og dauðum bókstaf.

Hún verður að eiga sér upprisu við öll aldahvörf.



# Trúarjátning áttræðs manns

Mér finst eg sjá, mér finst eg skilja
Þá fer eg burt að guðs míns vilja
Fer á burt að heiman, heim.
Laus frá jarðlífs böli og byrði
Brotnar vonir um ei hirði
Því eignast hefi eg andans seim
Frambúðar á fögru landi
Framandi mér finst eg standi
Fyrst í stað með feimnis keim.
Með angurblíðri hugarhrifning
Horfi fram á bjartan dag,
Gegnum hugann liðna lífið
Leiftrar eins og stjörnu slag.
Vandamenn og vinir glaðir
Velkominn mig bjóða þá,
Sendir guði sjálfum frá
Mig að fræða um lífsins gæði
Landinu helga á,
Þá feimnin öll mér hvarflar frá.
Undra margt þar er að læra,
En alt ber manni í nyt sér færa
Og sálina á því sífelt næra,
Sem er lögmál guðs, sem gaf.
Alt, sem lærðum í jarðheimi
Í sér skáldskap trúi og geymi
Ýmsra sagna diktað draf.
Ei þeim verður greiðfær ganga
Er gömlum vilja í kreddum hanga
Og endurlausn sér ætla að fanga,
Eins og fyrrum kent oss var;
Því það er ei lögmál guðs sem gaf;
Heldur aðeins hugarsmíði
Hjá sjálfselskufullum lýði,
Er bindur alt við bókar staf.

**Vegfarandi**

# Að Breiðabliki



Mikið er ritað á íslenzku og margt með ágætum því aldrei hafa frónskir pennar leikið í höndum fleiri snillinga. Í þessu riti verður reynt að minnast á íslenzkar bækur eftir föngum en rúmið leyfir ekki langar umræður að þessu sinni.

Höfuðrit ársins er auðvitað "Íslenzk menning" eftir dr. Sigurð Nordal. Þar er hula aldanna strokin af illa máðum söguspjöldum svo manni græðist glöggskygni á aldarháttum og menning manna, sem við höfum að vísu lesið um, en oftast með litlum skilningi. Mig langar til að geta um þessa stórmerkilegu bók síðar, en um hana verður ekki af viti skrifað nema í langri ritgerð. Auðvitað má hæla henni með fáeinum hástigs orðum en þar er upp á svo mörgu brotið, að athugull lesari stingur fótum við og tekur að kryfja rökleiðslu ritarans með mestri gaumgæfni, fallast á þær eða gerir sínar athugasemdir. Sigurður ryður sér tíðum einstigu í háfjöllum. Þessvegna er hann altaf vekjandi og hressandi. Hann neyðir mann til að hugsa og er þessvegna bezti prédikari Íslands sem stendur.

Þetta kemur einna bezt í ljós í annari bók eftir doktorinn. Bók þessi heitir "Áfangar" og eru viðvarps erindi Sigurðar, sem hann flutti íslenzkri alþýðu fyrir skemstu. Þau fjalla um huglæg efni og þó einkum trúmál. Samtíðin hefir verið talin vantrúaröld af ýmsum en hún er það einungis frá kirkjulegu sjónarmiði. Hún er það frá kirkjunnar sjónarmiði af því nú leita menn ekki til hennar um úrlausnir á andans gátum. Um trúmál hefir hinsvegar aldrei verið meira ritað og standa öndvegishöldar vísindanna, heimspekinnar og rökhyggjunnar þar flestir í flokki meðal margra þjóða.

Öll þessi starfsemi stendur utan við kirkjuna — að mestu, og er stundum unnin í óþökk hennar, að mig grunar.

Dr. Sigurður telur sig ekki fara með véfréttir, né búa yfir sérstökum opinberunum, heldur ræðir málið frá rökrænum og almennum sjónarmiðum. Hann kannast hreinskilnislega við, að full sönnunargögn séu ekki fyrir hendi, aðeins hugboð og bendingar en eftir leiðbeiningum þessara bendinga kveðst hann hafa eignast trú á ódauðleika sálarinnar og guðlega

heimsstjórn. Prófessorinn stígur í stólinn, ekki svo mjög til að boða trú, heldur til að vekja hugsun manna á eðli lífs og dauða. Eins lengi og kirkjan heldur sig við sígildar opinberanir, þegnar af sérstökum innblásnum meðalgöngurum, sem taldir eru að hafa staðið í sérstöku véfrétta sambandi við alvizkuna, á sérstökum kraftaverka og opinberunar öldum; verður henni gjarnt að líta með vanþóknun á þvílíkt trúargrufl. Enda hefir víst engin fagnaðarskjálfti farið um kirkjuna við trúboð Nordals. Í sumum kirkjudeildum, að minsta kosti, er sönn og lifandi trú metin hverjum uppreisnar anda hættulegri. Meðan sjálfsagt þykir að trúa því að guð hafi opinberað gæsku sína og vizku sérstaklega með því að láta sólina standa kyrra yfir Gideons hæðum meðan Gyðingar myrtu Amóríta er eigi við betra að búast. Heilbrigð skynsemi afneitar þvílíku guðlasti. Fyrst og fremst af því að þekking vor vottar gegn heimskunni. Að stöðva sólargangin hefði áreiðanlega verið hættulegt fyrir fleiri en Amóríta. En þó er þetta ekki aðal atriðið; virðing vor fyrir sjálfum góðdóminum heimtar, að við hreinsum guðsvitund vora af því ámæli, að hann hafi framið kraftaverk til að styðja að manndrápum og landráni. Engin maður með heilbrigðri skynsemi trúir þessu framar. Samt stendur nú þetta í biblíunni og öll ritningin er innblásin og áreiðanleg, segja þeir. Hinn bitri sannleiki er að menn eru orðnir svo áhugalausir um trúmál, innan kirkjunnar, að þeir gera enga tilraun til að greina milli þess sanna og ósanna, þess góða og illa í sjálfum undirstöðum sinna eigin trúarbragða. Þeir ganga bara fram hjá þessu eins og það sé þar ekki að finna. Samt kemur þetta kirkjunni að litlu haldi því þeir fáu, sem ennþá kunna að trúa á bókstafs innblástur una heldur ekki við þessa þögn prestanna og ganga svo inn í Hvítasunnusöfnuði eða kaþólskuna.

Sigurður, eins og allir sannir trúmenn, gerir sér fulla grein fyrir þessu . Hann segir: "Kirkjan á Íslandi getur haldið þúsund ára afmæli sitt árið 2000 með því að standa hér um bil í sömu sporum og hún var eftir ræðu Þorgeirs Ljósvetningagoða, nema hvað áhuginn er miklu minni, því árið 1000 var þó deilt um hana. Neisti heilags anda er að kafna í ösku útbrunninna kenninga og siða, sem engin kennimaður hefir manndóm til að moka í burtu. . . . Þess er ekki að vænta, að almenningur kunni betur að greina milli hismis og kjarna."

Þetta er harður dómur og ef til vill helzt til orðfrekur —

það vil eg að minsta kosti vona. Alt um það ættu kirkjunnar menn að athuga hann sér til gagns og sóma.

Kirkjan hefir löngum talið sig verndara hinna fornu, andlegu verðmæta og vitaskuld á hún að vera það. Hún telur, hinsvegar, að sér takist það einna bezt með kyrstöðu. Þetta er dauðlegur misskilningur. Með því tekst henni aðeins að gera sig að fráfælandi nátt-trölli við lífsins leiðir, í hinni hraðstígu heimsrás nútímans. Lífið er hreyfing, breyting, framrás og frelsi, kyrstaðan er dauði. Engin Íslendingur ber betra skyn á, né dýpri virðingu fyrir fornum dygðum, en dr. Sigurður, en hann veit og skilur, að því aðeins fá þær notið lífs og virðingar, að þær gangi til samstarfs við lífsstefnur tímanna til að bera ávexti í gróðrarreitum þeirrar framtíðar, sem vaknandi mannkyn sér í dramatískri draumahylling og ætlar sér að nema með óstöðvandi æfintýraþrá æskunnar.

★ ★ ★

**Indriði miðill**

Út er komin bók um þennan fræga miðil, og hefir Brynjólfur söngfræðingur Þorláksson lagt til efnið en Þorbergur Þórðarson fært frásagnirnar í stílinn, en Þorbergur er, ekki einungis, stílisti með afbrigðum, skarpgáfaður hugsuður og rökslyngur jafnaðarmaður, heldur einnig mikill trúmaður. Ekki svo að skilja samt, að Þorbergur slöngvi að okkur órökfestum staðhæfingum í krafti trúar sinnar í þessari bók. Því fer fjarri. Höf. gætir allrar vísindalegrar nákvæmni í efnismeðferð og efnisvali. Þótt frásögn Brynjólfs sé lögð þarna til grundvallar er sú frásögn staðfest með fundarbókum og vottorðum, svo sem framast verður ákosið.

Það er skemst frá að segja, að bókin skýrir frá hinum furðulegustu undrum svo limir hverfa af lifandi mönnum og heimtast þó aftur, menn verða burt numdir en koma þó fram á öðrum stöðum, hlutir svífa í lausu lofti og hverfa, enda í gegnum læstar hurðir og heila veggi.

Vitaskuld vekja slíkar furður fjarska margar spurningar. Er þetta ekki alt saman ýkjur eða lýgi? Þess verður þá að geta, að frásagnirnar eru studdar með vottorðum slíkra manna sem Einars H. Kvaran, Haraldar Níelssonar, Indriða Einarsson, Björns Jónssonar ritstjóra, Björns Kristjánssonar bankastjóra, o. s. frv. Hefir maður siðferðislegan rétt til að kalla þessa menn og ótal fleiri lygara? Jú, en gátu þeir ekki verið

blektir sem börn og gintir sem þursar? Við könnumst auðvitað allir við miðil svikin. En hér til kemur einkum tvent, Indriði var alls ekki æfður atvinnumiðill heldur sveitapiltur vestan af Skarðsströnd og í öðru lagi var alt hans æði rannsakað af jafn glöggum og gætnum mönnum, sem Einari Kvaran og Guðmundi Hannessyni. Guðmundur, að minsta kosti, er einhver vísindalegasti Íslendingurinn, sem eg hef kynst og alls ekki trúaður á anda né önnur yfirnáttúrlegheit. Hann ritaði um þessi fyrirbrigði greinar, sem hann nefndi "Í Svartaskóla", og birtust í Norðurlandinu veturinn 1910 og 1911. Hafði hann áður fengið leyfi til að rannsaka salarkynni sálarrannsóknarfélagsins og gera allar þær ráðstafanir, sem hann taldi óyggjandi til að fyrirbyggja pretti. Samt yfirgekk alt, er hann sá og heyrði skilning hans, þótt hann að hinu leytinu feldi engan dóm um uppruna þeirra.

Annars vildi eg ráðleggja þeim, sem hafa hug á slíkum fróðleik, að fá sér bókina. Hún er lang vísindalegasta andarannsóknar bókin, sem eg hef hingað til séð. Svo má annað af henni læra, þessar iðkanir geta verið stórhættulegar í höndum aðgæzlusnauðra angurgapa. Það sýnir draugasagan um Jón úr Vestmannaeyjum.

★ ★ ★

**Í Verum**

Andans akurlendi Íslendinga hefir jafnan frjófgast af tveimur megin straumum. Annar féll úr fjöllum yfir láglendið og á eg þar við, að hann sé runnin frá tungurótum hinna skólalærðu, en hinn kemur frá uppsprettulindum dalanna, fjarðanna og kotanna, þ. e. a. s. frá alþýðunni, sem átti mentun sína að sækja til lífsreynslunnar og græddist ritlist og frásagnagáfa af lestri þjóðlegra bókmenta. Einn örfar annan í andlegri samkepni. Sonar sonurinn vill verða afanum jafn snjall í skáldskapnum og bóndanum vestan við ána þykir það skolli hart ef hann getur ekki kveðið jafn snjalla hringhendu og karlinn hinumegin.

Andans jarðvegur Íslands er svo gróðurríkur, að engin má vita að hverju barninu gagn kunni að verða. Höfðingjar riðu í glæstum flokkum um hinn hestasæla Skagafjörð og framhjá Bólu til prófasts veizlunnar að Miklabæ. Bólu-bóndinn sá til þeirrar ferðar og kvað úr sér kotungshrollinn með þrumandi ádeilum. Nöfn höfðingjanna hafa gleymst en Hjálmars ekki.

Stúdentar ríða til Reykjavíkur, höfðingjasynir úr Skaga-

firði og hinn latneski skólasöngur þeirra bergmálar frá Mælifellshnúk og Glóðafeykir. Smaladrengurinn, sem heima verður að sitja fyrir fátæktar sakir, grúfir sig niður í sinugráa jörðina og grætur örlög sín. Þessi drengur er Stefán Guðmundsson Stefánssonar (Stepan G.). Hver veit, eða kærir sig um að vita, nöfn þessara sveina, en Klettafjallaskáldinu getum vér ekki gleymt meðan íslenzk tunga hljómar í heiminum.

Nú fer þeim efalaust að fækka þessum alls ólærðu höfundum, á skólavísu. Theodór Friðriksson verður máske einn af síðustu og því ekki óviðeigandi að spyrja, hvar lærðist þessum mönnum ritlistin? Voru það ekki bókmentirnar að fornu og nýju, og þó einkum hinar alþýðlegustu bókmentir Íslendinga, sem varð þeim fyrirmynd og andleg uppspretta.

Þetta er stórfróðleg bók og prýðilega skrifuð. Höfundinum hefir lærst hin lipra, slétta, óþvingaða frásagnarlist. Þetta er mikið afrek fyrir mann, sem alla æfi hefir orðið að flækjast milli verstöðva, sér og sínum til framdráttar. Hann stundaði hákarlaveiðar í æsku, dorgaði þorsk fyrir Flatey og Fjörðum, Siglufirði og Sauðarkróki, Skagaströnd og Húsavík, Bolungarvík og Vestmannaeyjum, Njarðvíkum og Garði. Þess á milli var hann í kaupavinnu til sveita; gekk að sláturstörfum á gorvöllum; stóð í fiskiaðgerð, í slorkösum; fékst við uppskipun, gerðist háseti á hrossatökuskipum og sigldi til útlanda; varð námumaður við kolagröft á Tjörnnesi. Ómegðin var þung, híbýlin lélegustu kofarnir í kaupstað og sveitum, sambúðin erfið með Sigurlaugu, sem var ýmsum kostum búin en ofraun myndi það reynast hverju meðalmenni að lynda við skörunginn. Eg þekti Theodór vel og minnist hans oft, hvernig hann gat brosað við veröldinni gegnum alt baslið. Þetta glaðlyndi var honum meðfæddur ættararfur en hann ávaxtaði þennan arf með ástundun, án þess hefði honum aldrei tekist að verða velmetinn rithöfundur.

Þetta er líka stórfróðleg bók um atvinnulíf og menningarbrag þjóðarinnar um og eftir aldamótin síðustu. Þótt "Virkir dagar" og "Eldeyjar Hjalti" séu merkar bækur, verð eg að taka þessa bók framyfir allar íslenzkar bækur sömu tegundar og veldur þar mestu, að lífsreynslu ótrúlega æfintýralegrar æfileiðar er þarna lýst af sjálfum vegfarandanum, sem er greindur og góður maður, í orðsins fylsta skilningi.

**Hjólið snýst og mennirnir með**

Eg er rétt búinn að lesa einkennilega bók og lærdómsríka á sína vísu. Þetta er um hjólreiðarferð séra Knúts Arngrímssonar, um endilangt Þýzkaland. Knútur hafði verið kennimaður á Húsavík "af misskildum kristilegheitum", eins og hann sjálfur kemst að orði. Svo gerist hann ákafur boðberi þjóðjafnaðarstefnunnar þýzku og gengur á skóla hjá Hitler. Það væri synd að segja að sú skólavist hafi ekki borið árangur. Gegnum sæluríki nazistanna hjólar hann drukkinn af dásemdum lífsins í þriðja ríkinu. Alt er söngur, gestrisni og umfram alt góðsemi í orði og æði sunnan frá Ammergan Ölpum norður til Hamborgar við Norðursjóinn. Þar eru, skemst frá að segja, fullar kornhlöður á hverjum búgarði og syngjandi búkarlar í öllum sveitum.

Þetta er nú dálítið annað Þýzkaland en við heyrum umrætt, svona yfirleitt. Já, en blessaður vertu, Knútur hefir verið þarna, og ætti eg kanske að fara að kalla manninn lygara, svona alveg upp úr þurru. Ónei, vertu nú hægur, mér þykir það ljótt orðbragð, að kalla menn lygara, þjófa, fanta og fúlmenni eða jafnvel bara heimskingja, að ástæðulausu. Eg neita því svo sem ekki að Þjóðverjar geti verið glaðlyndir, jafnvel undir Hitlers stjórn, og eg veit þeir eru söngelskir. Eg sem hef unnið fyrir og með þýzkum bændum, veit að þeir eru líka manna iðjusamastir og miklir búhöldar. Mér dettur ekki í hug að hugsa mér alt Þýzkaland emjandi, blóðspýtandi víti, né þjóðina kaghýdda, þrælbeygða, lafhrædda, bíðandi í dauðans angist, eftir böðlinum, sem heggur bajerskan bændalýð og svalar grimd sinni í þúsunda morðum heima fyrir. Eg trúi því blátt áfram ekki að þvílík stjórn geti þrifist í nokkru landi. Já, en sögnum ber ekki saman — og eru þá hinir allir að ljúga?

Ekki þarf það nú heldur að vera. Báðir sjá það eitt, sem þeir ætla sér að sjá, trúa því einu sem þeir vilja trúa; báðir bera í litinn og ýkja, sjálfrátt eða ósjálfrátt. Báðum ferst það fremur klaufalega af því sjálfsblekkingin blindar þá.

Beinar upplýsingar er helzt ekki að finna hjá Knúti í þessari bók, þarna birtist alt í dramatískum yfirdráttum — en viti menn, óbeinlínis getur maður þó lært mikið með aðgæzlu.

Bændurnir í Bajern slá akra sína með grindaljáum, aka á uxum og lifa í svo óþrifalegum þorpum að hjólreiðararnir, Knútur og kona hans, éta dögurð sinn á víðavangi svo daunninn eyðileggi ekki alla matarlyst. Þó segir hann að bajerskir

bændur séu betur af en aðrir bændur yfirleitt í Þýzkalandi. Þetta er með öðrum orðum afar frumstætt fólk, sem unir við miðaldarlegar akuryrkju venjur. En það verður eitthvað rómantískt við uxana og orfin hjá Knúti, af því þetta eru uxar og orf í þriðja ríkinu.

Öðru máli er að gegna þegar hann skreppur yfir frönsku landamærin og heimsækir Strassburg. Þar sér hann aðeins skækjur, útlifaða auðnuleysingja og djöfulóða menn sem steyta hnefan móti Hitler í síbölvandi æðisórum. Í þessum sódómiska syndavaðli svamla Marxistarnir, þessir höfuð féndur mannkynsins og æra og hræra í þjóðinni, gera hana ennþá vitlausari og siðspiltari en áður og mátti þó illa vont versna, svo mjög sem lýðræðis fávizkan hefði þó heimskað það.

Alt í einu er séra Knútur búinn að gleyma öllum þessum góðu siðum, sem hinn mannbetrandi skóli nazistanna og umgengnin við þetta siðprúða og syngjandi fólk, í hinu endurfædda Þýzkalandi, hafði innrætt honum. Með fádæma fúkyrðum ræðst hann á allan heiminn, allar stéttir, alla flokka utan endimarka hins eina alsælurríkis. Heiftin nær sínu hámarki auðvitað gegn kommúnistunum á Rússlandi. Þeir kváðu leika sér að því, "að hengja menn upp á krók og skjóta þá síðan til bana. Marxistar skera eyrun af líkum andstæðinga sinna. Marxisminn hefir gert menn að óargadýrum." Þeir hafa slátrað um 20 miljónum í sínu eigin landi. Undarlegir eru þessir Rússar; þeim fjölgar því óðar, því meira sem af þeim er drepið, en þeir sem lifa, berjast eins og berserkir svo stjórnin megi halda völdum til að drepa fólk eftir stríðið.

Alt ruglast í heila Knúts. Ekki vill hann álíta hina flokkana hótið betri. Auðmennirnir meir að segja komu kommúnistum af stað til að styðja að sínum yfirráðum. Verkmennirnir eru gintir eins og þursar til að ganga í verkamannafélögin til ábata fyrir auðránsmennina. Ekki er hann Jónas skárri. Hann hlynnir að kaupfélögunum í samráði við auðvaldið íslenzka og bolsabroddana til að kúa og rýja bændurna. Maður fer nú svona að leggja kollhúfur yfir lestrinum. Nú rennur það upp fyrir manni að ýmsa drætti vanti nú eiginlega í þessa draumsýnis mynd af þriðja ríkinu. Á henni eru engir blóðblettir. Hvað um herhöfðingja von Schleicher og konu hans? Voru þau ekki myrt án dóms og laga að ráði Hitlers? Hvernig var það með Ernst Roehm og þá félagana 10?

Mér hefir skilist að það hafi orðið skjótt um þá við heimsókn Hitlers og ekkert verið haft fyrir því að draga þá fyrir

dómstólana. Já, það er víst áreiðanlegt, að Hitler lét drepa þá og sá um aftökurnar, því hann hélt ræðu um atburðinn og sagðist hafa verið bæði dómari og böðull við framkvæmdirnar. Ekkert orð er þarna um séra Martin Niemoeller og aðra presta, sem sitja í fangelsi. Jú, Knútur segir að það fari vel um alla fanga á Þýzkalandi, svo við þurfum víst ekki að bera neinar áhyggjur þeirra vegna. Ekki getur hann þess samt, að hann hafi litið inn í þessi fangelsi. Hann getur ekkert um bókabrennur og viðvíkjandi Gyðinga ofsóknum er helzt að skilja að þeir njóti þar sérstakrar verndar, sem þeir fari á mis við í öðrum löndum.

Hvernig hefir þessi fitonsandi farið í einn fróman prest utan af Íslandi? Hann hefir gengið í skóla hjá Nazistunum, það er skýringin. Hérna gerist eftirtektarvert fyrirbrigði. Hér er um fulltíða mann að ræða, vel mentaðan og víst eðlisgreindan, af rithættinum að dæma. Hann gengur inn í deigluna hjá Nazistunum, og er þar uppsoðinn, uppsteyptur og tinnuhertur þangað til hann er orðin að eldspúandi orðabelg, sem boðar mannheimi evangelíum þjóðjöfnunarstefnunnar í krafti kærleikans til Hitlers en hatursins til allra annara.

Ef eins árs skólavist getur svona umskapað einn norðlenzkan Íslending, hvers má þá vænta þar sem hverju barni er kent að syngja?

"Nun steht um dich, mein Fuhrer, fest dein Volk,
Und wenn du sprichest, in Gute wie im Grimme,
so bist du seine gottewolte Stimme
Gestalt und Wille ward in dir das Volk,
du sein Gesetz. In deinen grossen Planen
vollendet sich der reinste Traum der Ahnen.
Die Enkel werden noch in tausend Jahren
auf deinin Strassen, deinen Stromen fahren."

Lauslega þýtt:

Þitt fólk slær skjaldborg um þig foringi minn,
og þegar þú mælir í gremju eða góðu
þá ertu þess guðinnblásna rödd,
lög og vilji fólksins býr í þér,
þú ert þess staðgangari. Í þínum miklu áformum
rætist hinn göfugasti draumur áanna.
og eftir þínum brautum og með þínum straumi
ganga einstaklingarnir í þúsund ár.

**Nauðsynleg hugvekja**

Ísland, við fögnum þínum frelsis degi, við fögnum honum hér vestur á Vínlands sléttum með einlægri hugarhrifning. Við fögnum þeim dýra drottinsdegi þegar ættþjóðin stígur fram úr áþján aldanna og gengur til sætis í ráðsal heimsþjóða, sem frjáls og fullvalda fulltrúi vorrar öldnu og ungu menningar.

Eftir alda stríð erum við nú loksins komin upp á hæsta sjónarhólinn og lítum þaðan yfir farnar leiðir og fram á við til hærri miða.

Við sjáum gullöldina í glæstri hugarhylling, þegar ráðspakir höfðingjar réðu sáttum með viti og stillingu, á alþingi. Sú mynd er fögur og töfrandi, en á hana falla þó furðu margir blettir og afskræma hana og óhreinka. Ráðsnild og gætni göfugustu manna koma stundum að litlu liði fyrir ofstopa og ásælni annara. Ef sagan á að verða okkur til lærdóms í menningu megum við hvorugu gleyma.

Sturlungaöldin, þessi einkennilega bölmóðs og bókmentaöld, stígur fram á sjónarsviðið og vekur bæði viðbjóð og aðdáun. Okkur bíður við vígaferlunum, frændmorðunum, eiðrofunum, brennunum og í stuttu máli allri þessari geigvænlegu aldarfars spillingu. En aðdáun okkar er þó engu síður mikil og einlæg yfir bókmenta afrekunum, sem enn í dag gera íslenzka þjóð alheimsfræga. Meðan þjóðin steig þennan trylta dauðadans drógu íslenzkir pennar þau orð á leturspjöldin sem leiftra óslökkvanlega gegnum myrkur aldanna og skapa íslenzkum bókmentum virðingarsæti í mentasafni mannkynsins. Hvílík framtíð hefði beðið slíkrar þjóðar hefði henni aðeins tekist að menta sjálfa sig, að hemja metnað sinn til helilavænlegrar samvinnu, og þjálfa skaplyndi sitt til meiri hófstillingar.

Sá sannleikur er bitur en engu að síður lærdómsríkur, að ofstopi og óbilgirni Íslendinga fargaði þeim frelsi, lífi og láni. Spegilmyndir andans eru bókmentirnar. Þegar frelsið glatast tekur andans gróður að fölna hjá okkur. Í stað þeirrar djarfmannlegu kurteisi, sem gjarnan einkennir framsögn hinna beztu Íslendinga á blómaskeiði sögunnar, kemur hin smjaðrandi, uppgerðar, hirðlífs hæverska hjá "höfðingjunum" en meðal alþýðunnar brýst gremjan ekki ósjaldan út, í ruddalegu danahatri og konunga níði.

Við látum hugan hvarfla frá þessum hrygðarmyndum til að skoða eldingarroða upprennandi framsóknar á Íslands tindum, þegar við kennum lífhræringar nýrra hugsjóna hjá þjóð-

inni. Við sjáum spámenn þessara tímamóta í persónu slíkra manna sem Baldvins Einarssonar, séra Tómásar Sæmundssonar, Jónasar Hallgrímssonar, Bjarna Thorarensens og ótal fleiri. Alt sem er göfugast, vitrast og bezt sameinast þó einkum í Jóni Sigurðssyni. Í honum á þjóðin sína eilífu fyrirmynd, þann ódauðlega leiðtoga, er varðar þeim vegin til gæfugöngu, bresti þjóðina ekki vit og vilja til að fylgja leiðsögn hans og ábendingum.

Nú verður okkur gjarnt að gá til veðurs og ráða rúnir verðandans til spásagna um framtíðina.

Margt hefir ættlandinu til gæfu gengið í seinni tíð.

Flestar þjóðir hafa endurheimt frelsi sitt eftir mannfrekar styrjaldir, sem steyptu þeim í stórskuldir og efnahags volæði. Íslandi þurfti ekki að fórna blóði sinna beztu sona í frelsisbaráttunni og landið hefir fyrir atvik tímanna losnað úr aðkreppandi skuldafjötrum, með álitlega inneign í útlöndum. Þótt Ísland skorti margt er það samt auðugt af mörgum verðmætum. Rétt eftir aldamótin síðustu taldi eg 175 skip í einni íslenzkri höfn — Siglufirði — og voru flest þeirra útlend. Hversvegna sendu stórþjóðirnar skip til veiðifanga upp til Íslands? Af því þar er afla von. Hvað myndu þær vilja gefa, í reiðu silfri, fyrir frónsku fiskimiðin, hverju myndu þeir vilja offra til að draga íslenzka þorskinn, íslenzku ísuna og íslenzku síldina nær sínum heimahögum? Hingað til hefir hafið verið rányrkt, jafnvel ennþá meira en landið. Í framtíðinni ætti sú villmenska að hverfa og friðunarsvæði að afmarkast svo nytja fiskarnir geti þar átt sér fósturland, eftir leiðbeiningum vísindanna. Hafrannsóknir og fiskifræði ættu Íslendingar að kappkosta og ná þar vísindalegu hámarki í nálægri framtíð. Þetta ætti að vera Íslendingum metnaðarmál og hugsjóna takmark.

Í íslenzkum fallvötnum býr feikna afl og hefir fróðum mönnum talist svo til, að Ísland eigi þar eins mikla orku og Bretland, Þýzkaland, Frakkland, Ítalía, Belgía og Holland til samans. Hvað myndi hver af þessum þjóðum kosta til að flytja einn eða tvo af íslenzku stórfossunum heim til sín ef þess væri nokkur kostur. Ísland hefir nú þegar gert góða byrjun til notkunar þessarar náttúruorku. Takmarkið ætti að vera hitun og lýsing hvers einasta heimilis með raforku. Ekkert barn ætti að alast á orkuvana, illa lýstum og ylsnauðum heimilum, meðan orkan fer til ónýtis. Sé eigi um annað að gera verður

að flytja bygðirnar saman og annesja og afdala búskapurinn að hverfa úr sögunni.

Hvað myndi hin auðugu Bandaríki borga fyrir íslenzku hverina? Nú fyrst er Íslendingum að lærast að notfæra sér þá svo nokkru nemi. Sú notkun fer áreiðanlega vaxandi og mun skemst þess að bíða, að margskonar ávextir verði ræktaðir með notkun þeirra og rafljósa, er geta komið í stað sólarljóssins um hina dimmu, frónsku vetrardaga. Veit engin hvaða ræktunarskilyrði munu þá skapast við hin yztu höf.

Feikna auður geymist einnig í íslenzkri mýramold. Þar hefir náttúran öldum saman safnað leyfum jurta og dýra og lagt frjóefnin í sparisjóð. Þann sparisjóð má nota með vaxandi kunnáttu og vaxandi framtaki öldnum og óbornum til auðs og blessunar.

Ræktun landsins er hið sjálfsagðasta takmark hinna frjálsu Íslendinga í nútíð og framtíð. Það er blátt áfram óhugsandi að þá skorti viljan til þess. Þá þarf heldur ekki að skorta þekkinguna á þessari vísindaöld. Með heilbrigðu samstarfi, örvuðu af vakandi hugsjónum er jafnvel enn síður ástæða til þess að efast um giftusamlegan árangur.

Þótt ræktun landsins sé nauðsynleg er ræktun lýðsins þó ennþá nauðsynlegri.

Ísland er fáment land og má ekki við því að hæfileikar og manndáð eins einasta þegns glatist fyrir ilt og vangefið uppeldi. Þótt það sé fáment, afskekt og, að ýmsu leyti, harðbýlt land, getur það engu að síður orðið hið mesta hamingjuland ef þjóðin veit sitt hlutverk og framtakið kafnar ekki í fávizkulegri valdastreitu, sundrandi flokksergi og mannspillandi stéttaskifting. Engin megnar að auka hróður og gæfu landsins nema Íslendingar og engin getur eyðilagt þeim framtíðina nema þeir sjálfir.

Ísland getur aðeins að einu leyti orðið stórveldi og jafn frægt í framtíð sem í fortíð. Það getur orðið stórveldi í andans heimi og verður það þegar hvert einasta barn sannmentast í landinu. Þá getur smáþjóð sýnt alheimi hvernig vitur og samstarfandi smáþjóð fær áorkað, við að fegra og græða ættland sitt. Nema því aðeins að þjóðin noti frelsið til þvílíkra afreka, er til einkis barist.

Hún verður að læra af öðrum hvaða aðferðir séu heppilegastar til framfara með fordómslausri raunhyggni. Mest verður

hún samt að læra af sjálfri sér, af sinni eigin sögu með öllum hennar óhöppum og glæsigengi.

Kirkjan, skólarnir, búnaðarfélögin, samvinnufélögin, verkamannafélögin, ungmennfélögin og kvenfélögin verða að hefja fána hugsjónanna í hreinni ættjarðarást yfir hverju heimili í bygðum og bæjum landsins. Takmarkið verður að vera eitt og hið sama: sómi landsins og andlegur og líkamlegur þroski þjóðarinnar. Þótt okkur kunni að bera eitthvað á milli um leiðirnar, að þessu takmarki, ætti okkur ekki að vera ofvaxið að ræða um þær leiðir í sáttfúsri einlægni en rífast ekki um þær sem óþroskaðir villimenn. Við getum verið kröfuharðir í allri sanngirni til annara einungis með því að hver einstaklingur sé kröfuharðastur við sjálfan sig, og þær stofnanir sem hann þjónar.

Smáþjóð að höfðatölu verðum við að vísu enn um langan aldur, en við þurfum ekki, megum ekki, vera kotungsþjóð með smásálarlegum hugsunarhætti. Við verðum að hugsa djarft og hugsa stórt til framtíðarinnar. Sú þjóð ætti heldur ekki að vera í manna hraki, sem á einni öld framleiðir skáldin: Jónas, Bjarna, Matthías, Einar og Stephan G. Listamennina: Einar, Ásgrím og Kjarval. Þjóðskörungana: Jón Sigurðsson, Benidikt, Hafstein og Skúla. Framtíðin á að sýna "gróandi þjóðlíf með þverrandi tár." Það verður þegar bóndinn gengur einhuga að því að bæta og prýða búland sitt. Hver unglingur lætur sig dreyma um hversu hann getur lagt sitt fram til að fegra og rækta sína sveit. Að vaxa eða deyja eru hin órjúfandi lífsins lög og íslenzka þjóðin verður að vaxa í starfinu, vaxa fyrir mátt hugsjónanna sem skólarnir, kirkjan, bókmentir, listir og félagssamtökin innræta henni. Þá roðar fagur frelsisdagur á fjöllum og fjörðum vors feðrafróns og nágranna naggið eyðist eins og þokan fyrir upprennandi árdags sól.



Séra Gunnar Benidiktsson telur friðþægingarkenningu kirkjunanr einhverja hina siðlausustu kenningu, sem boðuð hefir verið mannkyninu, af því hún tekur hina siðferðislegu ábyrgð af manninum sjálfum. . . Hún byggist á því að mennirnir komist svo langt í glæpum sínum, að þeir hlífist ekki einu sinni við, að myrða sjálfan guð.

# Brautin

## DEILD KVENNASAMBANDSINS

---

## Inngangsorð



Það liggja brautir hjarta frá til hjarta
um heim og geim.
Þær brautir góðs, hin göfga, hreina bjarta,
til guðs í þeim.—Kr. St.

Þegar stjórnarnefnd Hins sameinaða kirkjufélags afréð það, að hefjast handa og gefa út kirkjurit, ákvað nefndin einnig, að ætla málefnum Kvennasambandsins nokkurn hluta af ritinu, þar sem konunum væri heimilt að ræða sín sérmál, til styrktar félagsstarfinu í heild sinni.

Sambands kvenfélögin eru dreifð út um hinar ýmsu bygðir Íslendinga og fjarlægðirnar svo miklar að þau frétta lítið hvert frá öðru, að undanteknum stuttum skýrslum, sem lesnar eru á ársþingum Sambandsins.

Með þessu riti er konum nú gefið tækifæri á því, að skrifa um áhugamál sín og send fréttabréf, er segi frá starfi hinna ýmsu kvenfélaga innan Sambandsins. Mun það litlum vafa bundið að ritið getur hjálpað til að auka samúð og samvinnu, og orðið þannig tengitaug milli frjálstrúar kvenna. Frá fyrstu landnámstíð hafa konur tekið öflugan þátt í félagsmálum Vestur-Íslendinga. Stórhuga og starfsglaðar landnámskonur, stofnuðu fyrsta íslenzka kvenfélagið hér vestra fyrir rúmum 60 árum, til styrktar menningarmálum og mannúðarstarfsemi meðal landa hér. Eftir því, sem kvenfélögunum fjölgaði og óx fiskur um hrygg, varð starf þeirra margþættara og umfangsmeira og mörgu drengskaparmáli hafa þau rétt hjálparhönd, frá fyrstu tíð. Hefir það tíðum komið í ljós, að enn þá kunna konur ráð til stórra hluta.

Íslenzku kirkjunum hafa kvenfélögin jafnan verið styrkar stoðir og löngum borið fyrir brjósti, ekki einungis trúmálin, heldur líka hið íslenzka andlega ríki, er félagssamtökin, ekki

sízt innan kirknanna, voru Íslendingum hér um langt skeið. Kirkjurnar voru á margan hátt útverðir þjóðarbrotsins íslenzka hér vestra og innan þeirra voru íslenzkar bókmentir og tunga hafðar í hávegum og þar stóðu prestarnir fremstir í flokki. Munu þau áhrif hafa styrkt Íslendinga í trúnni á sitt eigið manngildi og aukið þeim heilbrigðan þjóðernismetnað, sem átti sinn þátt í því, að þeir hafa aldrei verið andlegir ölmusumenn hér í þjóðfélaginu, heldur jafnan lagt fram góðann skerf á sviðum andlegra mála, innan þjóðlífsins í Vesturheimi.

Enda þótt Íslendingar séu orðnir heimamenn hér í landi fyrir löngu síðan og félagslegt viðhorf þeirra, þar af leiðandi, nokkuð annað heldur en það var á fyrri árum hér, þá er megin þorri þeirra svo trúr þjóðerni sínu, tungu og bókmentum, að þeir una illa þeirri tilhugsun, að þeirra íslenzka andlega ríki hér vestra líði undir lok og gleymist með öllu. Menn mundu líka sakna vina úr stað, ef íslenzkum kirkjum og samkomuhúsum væri jafnað við jörð, íslenzk blöð, bækur og tímarit hættu að koma út og íslenzk tunga heyrðist hvergi töluð. En svo getur þó farið, ef nógu margir verða til að hylla þá skoðun, að viðhald íslenzkunnar hér vestra velti á litlu — eða engu.

Og ekki þurfa Íslendingar hér að óttast það, að stjórnarvöld eða mentamálaráð þessa lands amist við því, að þjóðin kunni fleiri en eitt tungumál. Mætti benda á, því til sönnunar, að í skólum landsins eru kend 5 tungumál, auk enskunnar, og nú nýlega hefir komist til tals, að fleiri tungumál ættu að vera kend við háskólana. Nú er tungumálakunnátta talið eitt nauðsynjamálið til eflingar samvinnu og samúðar milli fjarlægra landa og þjóða.

Og Íslendingar standa vel að vígi á þeim vettvangi. Hér í enskumælandi heiminum vestan hafs, hafa ýmsir hinir lærðustu og göfugustu menn, hvað eftir annað, látið í ljósi í ræðum og riti aðdáun sína á tungu og fornbókmentum Íslendinga. Sumir þeirra hafa numið íslenzku, aðrir notast við þýðingar, en allir hafa þeir kunnað sína eigin tungu og þar af leiðandi vitað að rætur hennar standa djúpt í fornnorrænu máli. Ummæli slíkra manna eru íhugunarverð, því hvorki hafa þeir verið innblásnir af íslenzku þjóðardrambi né heimskulegri sjálfhælni, heldur tala þeir af mikilli þekkingu á klassiskum fornbókmentum Suður- og Austurlanda og telja hiklaust fornrit Íslendinga vera einn eldstólpann, sem rís úr rökkurhafi aldanna. Og þó er Íslendingum sjálfum allra manna bezt kunn-

ugt um, að þessi fornu guðspjöll þjóðarinnar eru sígild og síung, meitluð af mannviti, málsnild og meistara stíl. Enda hafa þau verið lífverðir tungunnar og Mímisbrunnur menningarhugsjóna þjóðarinnar.

Með það í huga, að íslenzkan sé ekki ennþá orðin "gamaldags og árum urin" í hugum og hjörtum Vestur-Íslendinga, senda útgefendurnir Brautina út í lífið og ljósið. Þetta litla rit hefur göngu sína núna með vordögunum. Vonandi er að því verði þannig tekið, að það krókni ekki úti í vorkuldum afskiftaleysis og fásinnu.

Það var drengilegt af útgefendunum, að bjóða málefnum Kvennasambandsins rúm í ritinu, án þess að fara fram á, að Sambandið tæki nokkurn þátt í útgáfukostnaði á þessu ári. Það ætti því að verða Sambandskonum metnaðarmál, að styrkja ritið með því að kaupa það og greiða fyrir útbreiðslu þess, og hjálpa þannig þessum vordraum frjálstrúar félagsmála til að rætast.

Stefnu ritsins (kvennadeildarinnar) þarf ekki að útskýra. Félagsmál Kvennasambandsins verða aðal umræðuefnið. — Áhugamálin eru mörg, og aldrei hefir verið meiri þörf á því en nú, að konur, jafnt sem karlar, haldi vakandi vörð um andlegu velferðarmálin. Okkar fagra jörð er nú drúpandi dynheimur styrjalda, en þrátt fyrir þann hörmulega hergný, horfa þær þjóðir hátt, sem nú berjast af öllu megni til verndar þeirri siðmenning og þróun, sem mannkynið hefir keypt, dýru verði, um ótaldar aldaraðir. Þótt margt þrengi nú að, eygja menn framtíðarlöndin — fegurri og betri veröld. En til þess að mannkynið geti eignast nýjan himin og nýja jörð, verður vit og raunsæ mannúð að stjórna hugsunum og gjörðum mannanna.

Dýrmætasti fjársjóður framtíðarinnar er upprennandi kynslóðin, hún verður að vera vernduð, af fremsta megni, frá andlegum og líkamlegum óheilindum. Í öllu því mikla raski, sem orðið hefir á högum manna og háttum hið ytra og innra í mannlífinu, hefir sorfið að æskunni engu síður en eldra fólkinu. Ímyndunarafl barna er mikið og tilfinningalíf þeirra er næmt og ört, svo að þegar of mjög þjappar að og heimilin eru þeim eigi nægilegt öryggi, lenda börn og unglingar oft út í ýmislegt, sem miður skyldi.

Eins og nú standa sakir er brýn nauðsyn á samvinnu milli kirkjunnar og heimilisins, til verndar æskunni. Í blöðum og tímaritum, sem fjalla um uppeldismál og hin ýmsu vandkvæði

í sambandi við þau, nú á tímum, kemur það víða í ljós, að kirkjurnar liggja eigi á liði sínu.

Undir handleiðslu þeirra eru nú víða æfðir ungmenna og barna söng- og hljóðfæraflokkar, sýndir smáleikir, hæfilegir fyrir unglinga, og ýmislegar íþróttir og líkamsæfingar kendar. Einnig er veitt tilsögn í listrænni handavinnu og hannyrðum. Alt svona starf, í frítímum barna og unglinga, er leiðbeinandi og þó um leið skemtun og ómetanleg hjálp, ekki sízt þeim, sem lítils eiga úrkosta í heimahúsum.

Ritgerðir um uppeldis- og velferðarmál æskunnar væru þessu riti kærkomnar í framtíðinni. Einnig væri það ánægjulegt, ef ritið gæti orðið dálítið fjölbreytilegt að efninu til og flutt stutt kvæði, smásögur og æfisögur merkra kvenna, bæði íslenzkra og annara þjóða. Úr heimi kvenna ætti ritið að birta stuttar fréttagreinar og geta um eitthvað af þeim konum, sem eru að beita huga og höndum til umbóta á svo mörgum sviðum mannlífsins. Alt slíkt eru ljósgeislar, sem falla á brautina, sem mannkynið ferðast eftir á sinni löngu göngu í áttina til fegurra og fullkomnara mannlífs.

**Guðrún H. Finnsdóttir**



# Jól í Sviss





Frú Gerður Steinþórsson

Arosa er lítið fjallaþorp í Sviss. Það stendur í dalverpi umkringt háum fjöllum, og er eitt af hinum mörgu svissnesku paradísum íþróttanna. Í Arosa er töluð þýzka, en þó virtust Svisslendingarnir þar einnig jafn vígir á frönsku og ítölsku. Þeir þurfa heldur ekki annað en flytja sig í aðra hluta landsins til þess að fá æfingu í þeim málum.

Á veturna búa aðeins þeir Svisslendingar í Arosa sem vinna að hótelsrekstri eða starfa að einhverju leyti á vegum ferðafólks, sem streymir þangað til að iðka vetraríþróttir. Á sumrin eru hótelin þar lokuð en þá flytur fólk í bjálkakofana (chalet) sem standa auðir á veturna. Þeir eru á víð og dreif upp um fjallshlíðarnar.

Það var að byrja að skyggja kvöldið sem eg kom til Arosa

rétt fyrir jólin 1937. Amerísk vinstúlka mín mætti mér á járnbrautarstöðinni. Hún beið þar í miklum loðfeldi og við hlið hennar var sleði með tveim hestum fyrir. Við vorum báðar jafn hrifnar af fegurð og æfintýraljóma þessa litla friðsæla fjallaþorps. Þar var enginn bíll en fjöldamargir hestar og sleðar. Fjöllin voru fannhvít og há, og í ljósaskiftunum glóðu tindar Alpafjallanna sem gull. Hótelin upp í fjöllunum voru upplýst og á bugðóttum götunum upp til þeirra sáum við hestana með sleða á hraðri ferð. Þeir höfðu allir bjöllur um hálsinn sem gullu þýðlega við hverja hreyfingu. Loftið var svalt og hressandi. Við settumst í sleðann umvafnar loðfeldum og hestarnir þeystu af stað með okkur upp fjallshlíðina. Hótelið var stórt og gott og þaðan var ljómandi útsýni yfir bygðina. Hátt upp í hlíðunum voru hótelin, og bjálkakofarnir nokkru neðar og litu út eins og dökkar örður í snjónum.

Niðri á jafnsléttunni lá þorpið. Þar voru búðirnar og lítil tréhús sem leigð voru ferðafólki. Allir ferðamenn sem sáust á gangi í þorpinu voru í skíðafötum, því það var snjóþungt í Arosa og kalt nema rétt meðan sólin var hæst á lofti.

Í Arosa voru fjölda margir íþróttakennarar sem kendu fólki svo að segja á aldrinum frá vöggu til grafar að ganga á skíðum og stökkva á skíðum. Aðrir leiðbeindu í skautaíþróttinni. Í fjallshlíðinni á móti hótelinu sem við bjuggum í var stökkbrautin, þar sem skíðakapparnir keptu. Það var í senn bæði hrífandi og ægilegt að sjá þá stökkva á skíðum, því summum fataðist listin á miðri leið og þeir veltust niður brekkuna. En hinir sigursælu svifu gegnum loftið, hreyfðu aðeins armana og lækkuðu hægt og hægt og rendu sér að lokum á fljúgandi ferð niður í dalbotn þar sem áhorfendur létu óspart í ljós hrifningu sína. Okkur var sagt að í febrúar mánuði færu sumir skíðamennirnir í langar göngur á sundfötunum einum og þegar þeir kæmu aftur eftir 2—3 daga væru þeir á litinn eins og bronzmyndir.

Á aðfangadagskvöld var mikið um dýrðir á hótelinu. Allir gestirnir fóru í samkvæmisföt og matsalurinn var fallega skreyttur. Allir fengu sömu jólagjöfina, skíðamann úr tré. En það vantaði jólahrifninguna. Þarna sást ekkert lítið barn sem horfði hugfangið á jólatréð. Þetta var aðeins virðuleg kvöldmáltíð í glæsilegum huldufólkskastala, sem lýsti í náttmyrkrinu hátt upp í Alpafjöllum.

**Gerður Jónasd. Steinþórsson**

# MERKAR FÉLAGSKONUR





**Frú Hólmfríður Pétursson** **Frú Sigríður Árnason**

Voru kjörnar lífstíðar heiðursforsetar Kvennasambandsins á ársþingum þess 1940 og 1943.





**Frú Jóhanna Guðrún Skaptason** **Frú Guðrún Borgfjörð**

Voru kjörnar heiðursfélagar Kvennasambandsins á ársþingi þess 1942.

# Ferðaminningar

**Erindi flutt á Kvennaþingi að Wynyard, Sask., 1940**
**af Marju Björnson**

★



FRÚ MARJA BJÖRNSON

Í þessu stutta erindi um ferð mína til Boston og New York, geri eg ekki ráð fyrir að geta minst á nema örfá atriði, sem helzt vöktu athygli mína.

Ferðahugurinn er að vísu vongóður, en þó um leið ekki alveg kvíðalaus, því þegar á alt er litið, er bílferð til Boston löng leið, þar sem farið er í gegnum 11 ríki, en vegirnir syðra eru þó betri en brautirnar hér í okkar unga fylki — Manitoba.

Mér hafði verið boðið suður til að sitja þing General Alliance, sem haldið er í maí ár hvert. Okkur hjónunum kom saman um að gera þetta að skemtiferð fyrir alla fjölskylduna; var ferðin hafin 10. maí. Í bílnum vorum við hjónin og börn okkar, Sveinbjörn og Marion. Veðrið var ágætt um morguninn, en þegar suður til Norður Dakota kom, lentum við í talsverðu sandroki. Fyrsti viðkomustaður var í Grand Forks hjá Dr. og Mrs. Richard Beck, sem tóku okkur tveim höndum með þeirri álúð, sem þeim er báðum svo eiginleg. Dr. Beck sýndi okkur háskólann, og varð okkur einna starsýnast á eina nýja byggingu, sem talin er ein hin vandaðasta opinber bygging í öllu ríkinu. Var hann óþreytandi að útskýra alt, sem fyrir augun bar. Sáum við eftir að þurfa að fara svo fljótt yfir, en nú var dagur að kvöldi kominn, og löng leið framundan. Kvöddum við því okkar ágæta velgerðafólk og héldum af stað áleiðis austur til Minnesota, sem okkur verður lengi minnisstætt, sem einn fegursti blettur þessa mikla meginlands. Um nónbil næsta dag komum við til

Minneapolis í fögur sumarveðri og var öll jörð þar orðin græn og gróin og töfralandið meðfram Mississippi-ánni eins og ný veröld á að líta, fyrir fólkið úr norðrinu, þar sem lítill gróður sást daginn áður. Nú höfðum við farið um 500 mílur suður, á einum sólarhring og gátum því séð hinn mikla mismun á vorgróðrinum, sem átti sér stað heima og hér. Bræðraborgirnar við Missisippi hafa um 800,000 íbúa og þær ná yfir æði stórt land meðfram fljótinu, en innan þeirra eru mörg smávötn og listigarðar, sem prýða borgirnar að miklum mun. Einn af þessum görðum tilheyrir báðum borgunum og hefir hann verið sérstaklega tileinkaður hermönnum þeim er féllu í fyrra veraldarstríðinu. Braut liggur í gegn um þenna garð miðjan, og meðfram henni allri hafa verið gróðursettar þrjár raðir af trjám og hjá hverju tré er skjöldur með nafni hermanns áletrað. Allir þeir, sem héðan höfðu farið og fallið í stríðinu eiga nöfn sín þarna, á þessum fagra stað, sem með tíð og tíma á eftir að verða einhver fegursti blettur innan ríkisins.

Á meðan staðið var við í Minneapolis hafði eg tækifæri til að vera viðstödd á kirkjuþingi Vesturríkjanna, sem stóð yfir um þessar mundir og fór fram í Unity kirkjunni í St. Paul. Er kirkja þessi orðin gömul en þó einhver sú fallegasta í þeirri borg. Var þarna fjöldi fulltrúa saman kominn frá Vesturlandinu og mætti eg þar mörgum mikilsmetnum konum frá ýmsum stöðum. Líklega af því eg var útlendingur þá var mér boðið að tala til kvennaþingsins og flutti eg auðvitað kveðju frá okkar kvenfélögum og heillaóskir til þeirra í öllu þeirra starfi.

Þó að þriggja daga dvöl á þessu þingi tæki mest af tímanum frá mér, þá höfðum við marga ánægjustund með vinum okkar þar, Mr. og Mrs. Tryggvi Athelstan og Mr. og Mrs. Wm. Eiríksson, sem mest höfðu fyrir okkur, og vildu alt fyrir okkur gera, og mig bresta orð til að lýsa hversu mikla alúð þau lögðu við það að skemta okkur. Fyrir þeirra góðu aðstoð sáum við marga fegurstu staðina og einnig hlustuðum við á mjög myndarlegan kvennakór, í einni stærstu sönghöllinni, sem var okkur óblandin ánægja. Alt þetta og svo margt, sem ekki verður talið hér, gerði okkur veruna þarna svo minnisstæða að seint mun fyrnast í þakklátri endurminning.

Í Minneapolis slóst séra Guðm. Árnason í förina, og var þá næsti áfangastaður Chicago. Útsýn frá veginum suður með Mississippi er afar fögur hvert sem augað lítur; viðivaxnar hæðir að vestan en austan árinnar víðáttumikil flatneskja, sem

öll er ræktuð sáðlönd með hreina smáskóga hér og þar. Það er Wisconsin þar sem Íslendingar dvöldu á fyrstu árum sínum hér í landi. Í kring um Madison er einkum afar fallegt land og reisuleg bændabýli en þar eru hæðir og dalir, sem setur meiri svip á landið. Madison-borgin hefir um 60,000 íbúa. Hún stendur á milli tveggja vatna, sem bera fallegu nöfnin Mendota og Monona, og fellur á, sem Yahara nefnist, úr öðru þessu vatni í hitt. Allfrægur háskóli er þar, sem kallast háskólinn við Mendota-vatnið, og margt fleira er þar auðvitað sögufrægt, því þetta er fornfrægt mentasetur.

Frá Madison er um 3 klst. bílferð til Wilmette, Ill., sem er partur af Chicago og eru þar aðallega íveruhús þeirra, sem velja sér róleg heimili, utan við skarkala borgarinnar. Vorum við þar í góðum fagnaði hjá Dr. og Mrs. Árni Helgason, sem ofan á alt annað sýndu okkur þá velvild að bjóða okkur heim er við yrðum þar aftur á heimleið að austan.

Dr. Helgason stjórnar stóru verkstæði í Chicago, sem nefnist Chicago Transformer Company. Er hann einn þeirra, sem fluttist efnalaus til þessa lands og hefir unnið sig áfram gegn um háskólanám og náð verðskuldaðri tiltrú og metorðum af eigin ramleik. Þrátt fyrir allan tíma og fyrirhöfn, sem hann hefir orðið að leggja í að menta sjálfan sig og starfrækja sína verksmiðju hefir hann farið sex sinnum til Íslands á þessum 26 árum sem hann hefir dvalið vestra. Hefir hann í fórum sínum frá þeim ferðum eina afar merkilega hreyfimynd, sem hann tók á þeim ferðum sínum. Minnist eg þess með þakklæti að hann ferðaðist um íslenzku bygðirnar í Manitoba árið 1939 og sýndi þessar myndir til arðs fyrir Sumarheimilið á Hnausum endurgjaldslaust, og hafa fáir gert því málefni betri greiða. Síðan hefir hann bætt miklu við myndirnar. Má þar sjá ýmsa menn, sem eru alkunnir á meðal okkar í dag.

Við lögðum af stað frá Chicago 17. maí. Liggur leiðin fyrst gegn um Indiana og þá inn í Ohio. Þar er borgin Toledo við Erie-vatnið, með 300,000 íbúa. Er þaðan haldið meðfram vatninu mest af leiðinni til Cleveland. Fórum við þetta sama kvöld í gegn um þá borg og varð mest starsýnt á ljósin, og af því borgin stendur við vatnið þá verður ljósadýrðin tvöföld af endurspeglun í kyrru vatninu. Cleveland hefir nærri miljón íbúa og er talsvert fræg borg í sögu Bandaríkjanna.

Næsti viðkomustaður er Buffalo og þá Niagara Falls, sem við komum til næsta dag, og stóðum við þar æðilengi við til að

taka myndir og sjá okkur um á þessum fræga stað, sem alt ferðafólk þarf að sjá.

Á þessari leið fórum við yfir norðvesturhornið á Pennsylvania, sem nær að þessu vatni með Erie-borg í því ríki fast við vatnið. Hún hefir 120,000 íbúa, og er sjálfsagt á framfaraskeiði. Er þá farið inn í New York-ríkið gegn um Buffalo og þaðan til fossanna. Buffalo stendur við austurendann á Erievatninu; er hún gömul og fræg framleiðsluborg og óhrein á að líta, þar sem vegurinn liggur í gegn. Er þar friðarbrúin fræga milli Canada og Bandaríkjanna og Fort Erie, Ontario, hinumegin. Brú þessi var vígð árið 1927 af Játvarði Bretakonungi VIII, sem þá var Prince af Wales, ásamt mörgu stórmenni þar frá Canada, Bandaríkjunum og Bretlandi. Var sú hátíð haldin í minningu um 100 ára góða sambúð milli landanna. Brúin kostaði $5,000,000 og var opnuð 1. júní 1927. Hún er ein míla á lengd og 100 feta há yfir Niagara-ánni og hefir fjórar brautir samhliða svo þar þurfa engir að rekast á.

Við Niagara var kalsaveður og var því viðdvölin þar styttri en við ætluðum. Þaðan liggur leiðin til Rochester, N. Y., sem liggur sunnan við Ontario-vatnið og svo yfir braut 20 til Albany, N. Y. Stönsuðum við á þeirri leið yfir nótt í djúpum og frjóvgum dal, sem kallast Cherry Valley, og þá næsta dag fórum við gegn um Albany og inn í Massachusettsríkið. Til Boston komum við þ. 20. maí og furðanlega hress eftir svona langa ferð.

Eg hefi hvergi séð lýsingu á Boston á íslenzku máli. En hún er miljónaborg og frægt mentasetur aftur í aldir. Má minna á það að á síðari hluta 19. aldar voru þar menn eins og Emerson, Hawthorne, Holmes, Longfellow, Lowell, Whittier, Thoreau o. fl., og kannast margir Íslendingar við nöfn þeirra, og margt af ritum þeirra; um hina mörgu og frægu sögustaði þar, mætti margt segja, ef rúm leyfði. Hafa margir þeirra haldist óbreyttir frá fyrstu tíð, og eru gæzlumenn þeirra ávalt reiðubúnir að leiðbeina gestum og útskýra fyrir þeim helztu atriðin í sambandi við þá. Það er auðfundið á öllu að fólkinu hefir verið kent að virða söguna, og láta sér ant um að varðveita alt það, sem bregur ljósi yfir frægðarorð borgarinnar frá fyrstu tíð hennar. Sagan liggur á bak við alla nútíðar menningu eins og hornsteinn musteris, sem staðið hefir hverskonar árásir í gegn um aldirnar.

Það er eins og maður sé á ferðalagi langt aftur í tímann

þegar maður fer í gegn um hin stóru lista- og minjasöfn. Einnig eru úti, meðfram götum borgarinnar og í listigörðum hennar, fjöldi af myndastyttum frægustu manna sögunnar, með áletruðum afreksverkum þeirra. Nöfn eins og "Faneuil Hall" eða Bunker Hill Monument", og ótal fleiri, verða öllum kunn er ferðast um þessar slóðir. Þá er gamla norðurkirkjan (The Old North Church) ekki síður sögufræg. Er hún elzta kirkja í Boston og meira en 200 ára gömul. Í turn hennar hengdi Paul Revere luktir, sem gáfu íbúum borgarinnar merkið um árás brezka hersins nóttina 18. apríl 1775, og er sá atburður frægur í sögunni. En Paul Revere er sjálf söguhetjan, sem öll þjóðin dáir fyrir dæmafátt hugrekki og snarræði, þegar hann reið frá einum bæ til annars og vakti íbúana til þess að gera þeim öllum aðvart um innrás brezka hersins, sem átti að koma öllum á óvart. Um þetta atriði orti Longfellow eitt af sínum góðu kvæðum.

Meðal annars sem mér gafst kostur á að skoða var "Mapparius", eða landabréf í Christian Science byggingunni. Þar sjást öll lönd og höf jarðarinnar í litum, innan í glerkúlu í bronze umgerð, yfir höfði manns alt í réttum hlutföllum og í eðlilegri afstöðu en á venjulegum landabréfum. Hefði eg helzt kosið að læra mína landafræði þarna ef þessi hefði verið nokkur kostur. Annað var það, sem kallað er "Blaschka Glass Models of Plants", eða glerplöntur. Er þetta svo merkilegt safn að því hefir verið gefið sérstakt nafn meðal Harvard-safnanna og kallast það "Ware Collection", eða Ware-safnið, og heitir eftir þeim, sem keypti það og gaf það háskólanum. Þetta safn er alt búið til úr gleri, og er með eðlilegum litum blómanna. Eru þar blóm, jurtir og skordýr, sýnd á mismunandi lífsstigum. Safnið hefir um eitt þúsund mismunandi tegundir af þessu tagi. Alt var það búið til af tveim mönnum, Leopold Blaschka og syni hans Rudolph og alt verkið gert með höndunum og hefir það óefað orðið þeim margra ára lífsstarf. Ekkert annað safn af þessu tagi er til annarsstaðar í heiminum. En það hefir orðið að afar miklum notum við kenslu í dýra- og jurtafræði við Harvard, og heimsóknir þangað eru afar tíðar. Tölur sýna að yfir eitt ár, heimsóttu þetta safn yfir tvö hundruð þúsund manns.

Þessi ferð mín til Boston var eins og fyr getur, gerð í því augnamiði að sitja ársþing General Alliance, og var því ekki tími til þess að skoða sig um að nokkru verulegu ráði. Eg sat

á öllum þeirra fundum, sem fulltrúi héðan að norðan, og tók þátt í öllu, sem fram fór á þinginu. Í stuttu máli er auðvitað ekki hægt að gera grein fyrir gerðum þingsins, en það, sem einna mest áherzla var lögð á, var að hjálpa börnum þeim sem verið var að senda vestur yfir hafið frá Evrópu, og hafði nokkru fé verið safnað saman í því augnamiði. Einnig hafði félagið sent menn til Evrópu til þess að líta inn í hvað hægt væri að gera í því að hjálpa þeim bágstöddu. Var nú þörfin heima fyrir, sem á sér þó ávalt stað, orðin lítilvæg í samanburði við hina miklu hjálparþörf er stríðið hafði orsakað. Fann eg að hér voru allir einhuga og ekkert var skorið við neglur sér í fjárveitingum í þessu sambandi.

Að vissu leyti var þetta þing ekki mikið frábrugðið því, sem við þekkjum hér. En eðlilega var þarna góðu liði á að skipa til ræðuhalda og skemtana, þar sem voru mættar konur víðsvegar að úr landinu. Minnist eg með þakklæti hversu mikilli alúð eg mætti meðal þessa góða fólks. Var mér þrívegis gefið tækifæri til þess að kynna sjálfa mig og segja þeim frá okkar félagssamtökum hér í landi, og var mér auðvitað mikil ánægja í því að geta sagt þeim frá því hversu vel okkar félagssystur hafa unnið saman að ýmsum velferðarmálum í liðinni tíð, og hversu miklar vonir þær gerðu sér um framtíðarstarfið.

Á meðan við dvöldum í Boston vorum við svo lánsöm að hitta þar Björgu Pétursson, sem fyrir nokkrum árum var umsjónarkona sunnudagaskóla Samb.-kirkjufélagsins. Áttum við þar næturgistingu í prýðilegu heimili hennar í Brookline, og nutum svo leiðsagnar hennar við að skoða nokkuð af hinum merkilegu listasöfnum borgarinnar. Varð alt þetta okkur til ósegjanlegrar ánægju og ekki sízt það að hún fór með okkur í heimsókn til Íslendinga, sem við höfðum ekki áður mætt, en sem okkur langaði til að hitta í þessari ferð. Voru það próf. Karl Bjarnason og frú hans. Er hann kennari í tungumálum við Harvard og góður Íslendingur, en frúna kannast margir við, sem lesið hafa sögur eða ljóð Arnrúnar frá Felli. Áttum við góða ánægjustund á heimili þeirra hjóna í Hingham, sem stendur fast við sjóinn í mjög fögru umhverfi og rólegu. En húsið sjálft stendur á sævarbergsstalli og minnir á vísuna "við hafið eg sat." Og hér er hrein íslenzka töluð innan veggja og íslenzk umtalsefni rædd á meðan stundin entist. Verður því

þessi stutta dvöl á heimili þessara góðu hjóna ávalt geymd í þakklátri endurminning um samfundina.

Dvöl mín á þinginu og hinar vinsamlegu móttökur þar verða ávalt meðal minna ljúfustu endurminninga.

Um þessar mundir stóð yfir hin mikla heimssýning í New York og tókum við auðvitað tækifærið til þess að koma þar við í bakaleiðinni. Og á meðan við dvöldum þar höfðum við tækifæri á að skoða sýningarstaðinn víðsvegar. Þegar í íslenzka salinn kom hittum við þar marga Íslendinga og þar á meðal Vilhjálm Thor og frú Thor, sem síðar buðu okkur heim og tóku okkur í eigin bíl í gegn um borgina okkur til mikillar ánægju.

Íslenzka sýningin var afar ríkmannleg og vel úr garði gerð með myndastyttu Leifs Eiríkssonar fyrir framstafni og aðra af Thorfinni karlsefni við bakdyr. Þessi Leifsstytta var tillag frá Íslendingum í Vesturheimi til sýningarinnar og hafði hún verið steypt eftir styttu þeirri sem Bandaríkin gáfu Íslandi 1930. Thorfinns styttan hafði verið flutt frá Íslandi til þess að prýða staðinn á sýningunni og var hún eftir Einar Jónsson, líking af mynd sem hann hafði gert fyrir Philadelphia-borg fyrir nokkrum árum síðan.

Inni í íslenzku sýningarhöllinni var afar mikið af myndum af íslenzkum vinnubrögðum, einnig söguleg skilríki frá liðnum öldum. Var sjáanlegur myndarbragur á allri sýningunni og Íslandi til mikils sóma. Á þetta eflaust eftir að auka stórum verzlunarsambönd milli Íslands og Bandaríkjanna i framtíðinni og er það vel farið ekki sízt á þessum byltingatímum, sem nú eru í veröldinni.

Hinar hallirnar voru hver annari fallegri, einkum átti Frakkland þar afar smekklega sýningu, sem auðvitað er ekki tími til að lýsa hér, en áherzlan var öll á sögu landsins aftur í gráa fornöld og inn í vísindi nútímans og vélamenningu, eins og reyndar allar hinar, en smekklegar fyrir komið. Þar voru á neðsta gólfi ferða og flutningstæki frá ýmsum tímum, nýtízku skrautbúðir, bóka- og vísindasöfn og þar á meðal fimm aldir í listaverkum til samanburðar hvor við aðra, nýtízku húsmunir af ýmsu tagi o. fl. Þá var afar stór samkomusalur á öðru gólfi og á þriðja og efsta gólfi var veitingasalur með mikilli aðsókn fólksins.

Þó skrítið sé, þá gat nú ekki alt þetta mikla skraut og viðbúnaður dregið úr heimþránni að miklum mun og var því fegins hugar snúið vestur og kvatt í skyndi fólkið, sem við vorum

sérstaklega þakklát fyrir að hitta og njóta gestrisni og leiðbeininga frá. En aðalræðismaður Íslands, Vilhjálmur Þór og frú Þór, skildu ekki við okkur fyr en við vorum komin vel á veg út úr borginni. Er það gamall íslenzkur höfðingja siður. að fylgja gestum sínum úr garði. Á bak við þann góða sið liggur eitthvað alíslenzkt og þjóðinni meðfætt frá ómuna tíð. Þegar maður hittir íslenzkt fólk á ókunnum stöðvum, þá finst manni umhverfið breytast og klæðast í nýjan og fegurri búning. Þegar íslenzk tunga hljómar í eyrum, hverfur skarkali stórborganna úr vitundinni og manni finst að nú sé maður kominn heim. Þegar íslenzk alúð og höfðingslund mæta manni, einkum á ókunnum stöðvum, finnur maður ósjálfrátt að maður er ekki lengur fátækur og framandi; því þar í liggur auðlegð íslenzku þjóðarinnar, sem mælir á fegursta máli veraldarinnar.

Á vesturleið er ekkert verulegt í frásögur færandi. Leiðin liggur yfir New Jersey og inn í Pennsylvania. Gistum við þar ókunnugt fólk, en þó kunnugt, því við áttum heimboð og gistingu í tveim stöðum í því ríki, hjá fólki, sem við höfðum aldrei séð. En þannig stóð á að Sveinn þekti þar tvo menn, sem hann hafði teflt bréfskák við á undanförnum árum, og fengum við ágætar viðtökur, og gistum sína nóttina hjá hvorum þeirra. Nærri því á leiðarenda í Pennsylvania fórum við í gegn um Meadville, þar sem séra Guðmundur Árnason stundaði guðfræðisnám sitt. Nam hann þar staðar um stund, á þessum æskustöðvum námsáranna, en mun ekki hafa fundið það sem hann leitaði að, þótt hann léti lítið á því bera, því skólinn var fyrir löngu fluttur þaðan til Chicago, og byggingum hans breytt í verksmiðjuhús. Þannig er sorgarsaga hverfulleikans á öllum tímum.

Í Chicago áttum við hinum ágætustu viðtökum að fagna hjá Dr. og Mrs. Árni Helgason og dvöldum þar í tvo daga og nutum þar greiðasemi og gestrisni í ríkum mæli. Gafst okkur því tækifæri til að sjá ýmsa merkilega staði í stórborginni, sem var í sínum fegursta búningi á sólríkum sumardegi. Var okkar leiðsögumaður óþreytandi að útsýra alt sem bezt fyrir okkur, eins og tímatöf og fyrirhöfn væri orð sem engan rétt ætti á sér lengur. Hið sama má segja um viðtökur þær, sem við áttum að fagna hjá áður áminstum vinum okkar í Minneapolis, og að enduðum degi og leiðarlokum var það samúð þessara vina og annara, á ferðalaginu, sem á sér dýpstar rætur í minningunni:

því útrétt vinarhönd í gleði og mótlæti er það bezta, sem manni getur hlotnast á öllu ferðalagi lífdaganna. Á sama hátt minnist eg í huganum margra annara, sem eigi hafa verið nefndir í þessu erindi. Einkum er eg þó þakklát þeim, sem leiddi okkur alla þessa löngu leið svo að ekkert óhapp vildi til og að við erum nú aftur komin heil á húfi heim í átthagana.

---

## Halldóra Bjarnadóttir



Á síðast liðnu hausti, 14. okt. átti Halldóra Bjarnadóttir ritstjóri tímaritsins "Hlín" sjötugsafmæli. Konur heima á Íslandi héldu þessari merku konu veglegt samsæti á Akureyri. — Blöðin heima fluttu greinar um hana og þökkuðu hennar mikla starf, heilbrigðu áhrif og brennandi áhuga fyrir iðju og iðnaðarmálum þjóðarinnar.

Halldóra Bjarnadóttir var skólakennari á sínum yngri árum. En efri árunum hefir hún varið til þess að kenna allri þjóðinni að "holt er heima hvað", og ber hún óvenju gott skyn á það, að innlendur iðnaður og listræn handavinna, eru ein af menningarmálum þjóðarinnar. Vill Halldóra sameina heimilisiðnað fortíðarinnar og tækni nútímans í iðnaðarframleiðslu íslenzkra kvenna.

Marga góða "hugvekju" hefir hún ritað í "Hlín" til hjálpar og leiðbeiningar íslenzkum húsmæðrum. Hagsýni hennar og heilbrigt vit, hafa komið auga á marga hluti, sem eru til þæginda, þrifnaðar og vinnusparnaðar í heimilishaldi, en jafnframt ber hún æfinlega fyrir brjósti, að strjál bygð og fámenni verða að sníða sér stakk eftir vexti.

Íslenzkum konum vestan hafs hefði verið það ánægja, að geta tekið þátt í afmælisfagnaðinum með því, að senda Halldóru Bjarnadóttur kveðju sína. Þótt nokkuð sé nú langt um liðið, færir þetta rit henni hugheilar kveðjur og árnaðaróskir frá Kvennasambandinu, ásamt þökkum fyrir komuna vestur og velvildarhug hennar til Íslendinga vestan hafs. **G. H. F.**

# Ungmenna námsskeið að Hnausum í Breiðuvík



Á vesturströnd Winnipegvatns hafa Íslendingar stigið mörg djúp spor, frá fyrstu landnámstíð. Í Breiðuvíkinni, sem er kringum 8 mílna löng strandlengja, var árið 1887 stofnað fyrsta lestrarfélag bygðarinnar, "Norðurljósið". Það lestrarfélag stóð með miklum blóma um fjölda mörg ár, því bygðarbúar voru bókhneigðir mjög.

Sunnar með vatninu, er Árnes, þar sem hinn nafnfrægi landi vor, Vilhjálmur Stefánsson, var fæddur. Nokkru fyrir sunnan Árnes er Gimli. Þar steig fyrsti hópur íslenzkra land-



SUMARHEIMILIÐ Á HNAUSUM

nema á land í Nýja-Íslandi árið 1875. Til minningar um þann atburð, reisti Þjóðræknisfélag Vestur-Íslendinga landnemunum minnisvarða á Gimli fyrir nokkrum árum. Lengra inn í landinu, vestur af Hnausum, er Geysir-bygðin. Þar voru endur fyrir löngu sýndir fleiri sjónleikir á íslenzku en í nokkurri annari bygð, innan Nýja-Íslands.

Norðan við Geysir-bygðina er svo Fljóts-bygðin og þorpið Riverton. Þar var stofnað og gefið út, fyrsta íslenzka vikublaðið vestan hafs, "Framfari" og þar fæddust þeir og ólust upp Gunsteinn Eyjólfsson og Guttormur J. Guttormsson. Til norðausturs frá Riverton, langt út í Winnipeg-vatni rís hátt hin fagra Mikley, og var hún bygð eingöngu af Íslendingum. Þar var um langt skeið ágætasta söngfólk Nýja-Íslands.

Í Breiðuvíkinni, sunnan við Iðavöll, stendur Sumarheimili

íslenzkra barna í fögru skógarrjóðri. Á sléttum og breiðum söndum framundan, brotna öldur hins mikla Winnipeg-vatns, og færa mönnum svala á heitum sumardögum.

Í síðastliðin tvö ár hefir stjórnarnefnd Sameinaða kirkjufélagsins, gengist fyrir því, að hafa ungmenna námsskeið þarna á Sumarheimilinu, nokkru áður en konurnar opna það til sumarvistar fyrir börnin.

Þeir sem veittu þessu námsskeiði forstöðu, voru fyrra sumarið, séra Guðmundur Árnason, séra Eyjólfur Melan og séra Philip Pétursson, og einnig tveir prestar frá A. U. A. Þeir séra Edward Redmond og séra G. Richard Coch. Þær prestkonurnar frú Sigríður Árnason og frá Ólafía Melan, ásamt kaupmanns hjónunum Sveini og Kristínu Thorvaldson frá Riverton og læknishjónunum Sveini og Marju Björnsson frá Árborg, tóku á móti öllum gestunum með risnu og höfðu alla forstöðu í sambandi við gestakomuna. Ánægjan yfir þessu fyrsta ungmenna námsskeiði, var svo almenn að ákveðið var að halda því áfram framvegis.

Í sumar sem leið var annað námsskeið haldið, á sama stað, og fór það prýðilega fram, þrátt fyrir ýmsa erfiðleika. Nú fundu menn að það var skarð fyrir skildi, þar sem séra Guðmundur Árnason var látinn. Fjarverandi voru læknishjónin frá Árborg, því frú Björnsson lá veik á sjúkrahúsi í Winnipeg, og auk þeirra voru líka Melans hjónin og Thorvaldson hjónin ekki heima um það leyti, sem námsskeiðið stóð yfir. Þær frú Sigríður Árnason, ekkja séra G. Á., og frú séra Halldórs Johnsonar, tóku þá að sér það mikla verk að taka á móti gestunum og veita öllu forstöðu, og fórst þeim það prýðilega.

Kennarar og fyrirlesarar voru í þetta sinni, þeir séra Philip Pétursson og séra Halldór Johnson, og að sunnan komu þeir séra Stephen H. Fritchman og séra G. R. Coch. Álitlegur hópur ungmenna var þarna saman kominn, til að taka þátt í náminu. Auk þeirra var þar nokkur hópur af fullorðnu fólki. Forstöðunefndin hafði boðið Kvennasambandinu að senda nokkrar konur til að kynnast starfinu og hlýða á fyrirlestra. Þáðu það boð sex konur, sem báru námsskeiðinu mjög gott orð, þegar þær komu til baka, og voru hinar ánægðustu yfir verunni þar, með ungmennunum.

Verkum skiftu prestarnir með sér þannig, að séra S. H. Fritchman og séra Philip Pétursson fluttu skemtileg og fræðandi erindi, og útskýrðu margt viðvíkjandi sunnudagaskóla

kenslu, og ýmislegri starfsemi kirkjunnar. Séra G. R. Coch og séra Halldór Johnson fluttu ræður um mál ungmennafélagsskaparins, ágætar og uppörfandi.

Til skemtana og líkamsæfinga, voru meðal annars knattleikir, sund, dans, söngur og hljóðfærasláttur. Ekki má gleyma að geta þess, að ungmennin gáfu út blað, sem mörg af þeim skrifuðu í, og var það bæði fræðandi og skemtilegt. Á kveldin gekk allur hópurinn ofan í fjöruna og raðaði sér í kringum eld, sem þar var kyntur, var þá spjallað saman, sungið, eða hlustað á fræðandi erindi.

Sunnudaginn sem hér var dvalið, messaði séra Philip Pétursson. Seinna í vikunni flutti séra Halldór Johnson fyrirlestur um brautryðjendur frjálstrúar starfseminnar meðal Íslendinga í Vesturheimi. Prestarnir að sunnan tóku þátt í umræðunum.

Séra Stephen H. Fritchman er höfðinglegur í sjón, og hefir á sér mentamannsbrag. Hann er mjög þægilegur í viðmóti, fræðandi og skemtilegur í viðtali. Hann hefir á hendi ritstjórn aðal kirkjublaðs Únitara í Bandaríkjunum, "The Christian Register". Séra G. Richard Coch er glæsimenni, glaður í viðmóti, lýsir öll framkoma hans mikilli lífsgleði. Gekk hann að leikjum með unga fólkinu, milli þess sem hann ræddi við það um alvarlega málefni. Mun honum láta hvorttveggja jafn vel, því á undanfarandi árum hefir hann verið formaður ungmennafélaganna innan Únitara kirknanna í Bandaríkjunum.

Einn dag kvaðst séra Coch hafa spurt ungmennin meðal annars, hvað þau mettu mest? ("What they valued most?)'. Áttu þau að svara spurningunni skriflega næsta dag. Svarið var það sama hjá flest öllum. Það sem við metum mest í lífinu, eru foreldrar okkar! Kvaðst séra Coch vera búin að leggja þessa spurningu fyrir marga hópa ungmenna innan félagsskaparins og aldrei fyr fengið svona einróma svar. Fanst honum mikið til um þetta, og kvað það benda til þess, að heimilislíf og uppeldi ungmenna þessara stæði á heilbrigðum grundvelli.

Að loknu námsskeiði héldu allir heim til sín. Vafalaust verður margt viturlegt og leiðbeinandi orð, er þarna var sagt, minnisstætt, og ánægjulegar stundir þeim er þarna dvöldu ógleymanlegar. Vonandi er að þessum ungmenna námsskeiðum verði haldið áfram í framtíðinni; því nú ríður ungmennum þessa lands, á viturlegri og góðmannlegri handleiðslu.

**Sigurrós Vídal, Reg. N.**

# Góðir Gestir



Á undanförnum árum hafa Sambandssöfnuðirnir og kvenfélögin notið heimsókna frá aðalstöðvum kirkjunnar í Boston, og hafa þessar heimsóknir átt þátt í að efla samvinnu í starfsemi þeirri, sem kirkjan og kvenfélögin hafa með höndum. Má einkum nefna forseta Unitara kirkjunnar í Bandaríkjunum, Dr. Eliot, sem ferðaðist um meðal íslenzku safnaðanna fyrir fimm árum síðan, og hreif alla, sem kyntust honum með ræðum sínum og ljúfmannlegri framkomu, á líkan hátt og biskup Íslands gerði á ferðalagi sínu hingað í vetur. Fyrir fjórum árum síðan heimsótti forseti General Alliance, Mrs. Russell P. Wise, okkur hér og sömuleiðis hefir vara-forseti félagsins, Mrs. Huston, komið hingað tvisvar sinnum.

Í sumar leið var ein slík heimsókn gerð til okkar af konu, sem hefir um langt skeið gegnt ábyrgðarstöðum í stjórnarnefnd General Alliance í Boston. Kona þessi heitir frú W. W. Churchill. Erindi hennar var auðvitað að kynnast konum þeim, sem tilheyra G. A., og tala við þær um áhugamál félagsins.

Frú Churchill kom til Winnipeg 20. okt. í haust, og var henni auðvitað fagnað af fulltrúum frá öllum okkar kvenfélögum, sem gátu komið því við að senda einhvern. Fór eg þaðan með henni samdægurs til Wynyard í heimsókn til kvenfélagsins þar. Flutti hún þar ágætt erindi og var dvölin þar mjög ánægjuleg, eins og eg átti von á að myndi verða. Í Winnipeg flutti hún erindi í kirkju Sambandssafnaðar og voru þar mættir fulltrúar víðsvegar frá. Var fólkið þar mjög samhuga í því að sýna þessum virðulega gesti íslenzka gestrisni með samsæti og keyrslutúrum til merkustu staða borgarinnar. Einnig lét enskumælandi kvenfélagið sér mjög ant um að sýna henni velvild og alúð á meðan hún dvaldi þar, og yngra kvenfélagið sömuleiðis.

Frú Churchill hefir í mörg ár verið í ýmsum embættum Unitara kirkjunnar. Hún var í 10 ár umsjónarkona General Alliance og þá formaður ýmsra nefnda innan félagsins. Árið 1934 var hún kosin í stjórnarnefnd American Unitarian Association og nú er hún féhirðir fyrir General Alliance, en það félag telur nú um 21,000 meðlimi víðsvegar í Vesturheimi. Er

það að sjálfsögðu ærið starf fyrir konu, sem hefir heimilis að gæta eins og hún hefir. En þeir, sem hana þekkja, vita að starfið er henni alls ekki ofvaxið.

Hafði hún frá ýmsu að segja viðvíkjandi starfsemi þeirra austur frá, einkum í sambandi við stríðið. Mintist hún í því sambandi á hressingarstöðvar fyrir hermennina, sem félagið hefir stofnað til og heldur við á stríðssvæðinu. Nefnast þessar stöðvar "Hibbert Houses" og er aðalstöðin í Cairo.

En á bak við alt þetta starf liggur hinn trúarlegi skilningur á köllun einstaklingsins: að græða mein mannanna og vera samtaka í því nauðsynjaverki, að skapa nýja veröld þar sem hvorki fjarlægðir, né glötuð tækifæri til bræðralags mannanna, geta lengur staðið í vegi fyrir framkvæmdum í því, sem þeim er og hefir ávalt verið hjartfólgnast; að nota hvert tækifæri til að auðga þekking og skilning á lífinu sjálfu. Hreyfingin á að vera frjáls eins og sólargeislinn, sem fer óhindraður yfir öll landamæri og er velkominn gestur hvar sem hann fer og hvergi er fagnað meir en frá sjúkrabeði hinna snauðu og hjálparvana. Þannig verður fagnaðaboðskapur bræðralags hugsjónarinnar að lifandi kristindómi í framtíðarstarfi frjálsrar kirkju.

M. B.

# Frétta sambönd

Með þessari fyrirsögn, verða framvegis birt bréf og smágreinar, er segja frá starfi Sambandskvenfélaganna. Því miður, eru hér ekki bréf frá þeim öllum, sem hefði þó verið æskilegt en úr því bætist síðar.

**Frá Kvenfélagi Sambandssafnaðar í Árborg**

Ofangreint félag var stofnað 12. júní 1926 og gerðist það meðlimur í Samb. um leið og það var myndað. Í fyrstu nefnd félagsins voru Mrs. H. von Renesse, forseti; Mrs. G. Einarsson, skrifari; Mrs. P. K. Bjarnason, féhirðir. Félagið byrjaði með 14 meðlimum og hefir sú tala haldist að mestu síðan. Starfsemi félagsins hefir verið talsvert fjölþætt, þar á meðal hefir það séð um jólasamkomur fyrir börn sunnudagaskóla útiskemtanir, samkomur af ýmsu tagi til arðs fyrir söfnuðinn og önnur fyrirtæki. Þá hafa konur félagsins heimsótt önnur kvenfélög og flutt erindi. Allar inntektir félagsins hafa gengið til ýmsra stofnana, safnaðarins, Sumarheimilisins, rauða krossins, sjúkra

og fátækra, ennfremur á síðasta ári í hjálparsjóð Rússa, Hibbert heimili, "Clinics", böggla til hermanna og útvarp.

Fundir eru haldnir einu sinni í mánuði.

Núverandi stjórnarnefnd: Mrs. H. von Renesse, forseti; Mrs. J. Nordal, vara-forseti; Mrs. S. O. Oddleifson, skrifari og féhirðir. Líknarstarfsemi, Mrs. S. E. Björnson.

## Frá Kvenfélaginu Aldan í Árnesi

Kvenfélagið "Aldan" vinnur aðallega að safnaðarmálum. En auk þess hefir það haft með höndum ýmiskonar líknarstarfsemi síðan stríðið byrjaði. Til dæmis voru jólbögglar sendir frá kvenfélaginu til bygðar drengja í Evrópu. Sömuleiðis vinna meðlimir þess fyrir "Rauða Krossinn" í félagi með öðrum konum bygðarinnar.

Sunnudaginn 12. sept. síðastliðinn komu kvenfélög Árborg, Riverton og Gimli saman í kirkju Árnes Sambandssafnaðar og var hafður mjög skemtilegur fundur. Sálmar voru sungnir, og skemtileg og fróðleg erindi flutt af Mrs. S. E. Björnson, Árborg, og Mrs. N. Stevens, Gimli. Dr. S. E. Björnson las grein, sem hann hafði þýtt úr blaðinu "Christian Register". Eru þessir sameiginlegu fundir öllum konunum til mikillar ánægju.

Í stjórnarnefnd kvenfélagsins eru: Mrs. Th. Peterson, forseti; Mrs. G. Johnson, vara-forseti; Mrs. J. Olafson, skrifari; Mrs. F. Helgason, féhirðir.

## Frá Sambandskvenfélaginu á Gimli

Á þessu yfirstandandi ári hefir kvenfélagið reynt að hlynna að félagsmálum okkar svipuð og á undanförnum árum. Við höfum lagt af mörkum nokkurt fé til safnaðarins og einnig til Sumarheimilis barna að Hnausum. Einnig höfum við styrkt eftir mætti Rauða Kross fél. og lagt til í Hjálparsjóð Kínverja. Líka höfum við tekið þátt í því að senda böggla til hermannanna, sem dvelja nú á vígstöðvum utanlands, fjarri frændum, vinum og heimahögum. Þá hjálpuðum við og til við hina árlegu kaffisölu, til arðs fyrir sjúkrahúsið hér í bænum. Sjúka og fátæka höfum við reynt að gleðja eftir föngum.

Helztu peningainntektir félagsins á þessu ári hafa fengist með því, að selja veitingar við ýmisleg tækifæri og svo frá dönsum, sem haldnir hafa verið hér í vetur.

Okkur til skemtunar höfum við einstöku sinnum spilafundi og bjóðum þá kunningjunum. Einu sinni á ári er haldinn skemtifundur í Árnesi og koma þar saman konur frá öllum Sambandskvenfél. í Nýja Íslandi. Höfum við æfinlega reynt að sækja þann sameiginlega fund, sem ætíð hefir verið okkur til ánægju og uppörfunar í félagsmálum og samverustundirnar skilið eftir ljúfar minningar í hugum okkar.

Mrs. S. E. Björnson frá Árborg heimsótti okkur á þessu ári og flutti skemtilegt og fræðandi erindi á fundi. Var koma hennar okkur til gleði og þökkum við henni komuna og líka hennar sívakandi áhuga fyrir félagsmálum okkar.

Í stjórnarnefnd kvenfél. eru þetta ár: Forseti, Miss Kristín Benson; skrifari, Miss Margrét Johnson; féhirðir, Mrs. Ingibjörg Sveinsson; yfirumsjónarkona, Mrs. Ólína Benson.

## Frá kvenfélaginu Eining á Lundar

Kvenfélagið Eining var stofnað 10. okt. 1929. Stofnfundurinn var haldinn á heimili Mrs. B. Björnsson í Laufási. Þrjár prestskonur komu til að vera viðstaddar stofnun félagsins og voru það þær Mrs. Rögnvaldur Pétursson, Mrs. Ragnar Kvaran og Mrs. Guðm. Árnason. Þrátt fyrir rigninga og kalsaveður, komu konur víðsvegar úr sveitinni til þess að ganga í félagið, sem byrjaði með 12 meðlimum. Áhugi þeirra allra var mikill fyrir frjálslyndum félagsmálum. Eftir því, sem fleiri konur bættust svo í hópinn varð það léttara að sýna þann áhuga með framkvæmdum.

Á yfirstandandi ári eru þessar konur í stjórnarnefnd félagsins: Mrs. B. Björnsson í Laufási, forseti; Mrs. Ingibjörg Sigurðsson, varaforseti; Mrs. Helga Jóhannsson, skrifari; Mrs. Steinunn Kristjánsson, vara-skrifari og Mrs. Ásta Sigurðsson, féhirðir. Að undanteknu einu ári, hefir Mrs. B. Björnsson verið forseti félagsins, frá því það var stofnað. Fundir hafa verið haldnir reglulega einu sinni í mánuði, fyrst lengi vel í heimahúsum félagskvenna, en nú á síðari árum í samkomusal Sambandskirkjunnar á Lundar. Um tíma voru flutt skemtandi og fræðandi erindi á fundum, en svo var hætt við það, vegna þess að fundirnir urðu of langdregnir, því ýmsar konur komu langt að og urðu að fara eins fljótt og fundarstörfum var lokið.

Eining hefir starfað með sama hætti og altítt er í kvenfél. þessa lands. Spilafundi hefir fél. haft einu sinni í mánuði að undanteknum júlí og ágúst. Ágóðanum hefir verið skift til helminga milli Sambandssafnaðarins og kvenfélagsins og hefir félagið reynt að hlynna að safnaðarstarfinu eftir mætti. Eldsábyrgð kirkjunnar tók það að sér að borga árlega og einnig helming af láni því, er fengið var til að byggja kjallara undir kirkjuna. Einnig hefir félagið látið prýða kirkjuna og gera samkomusalinn vistlegri.

Eining hefir látið sér ant um að hjálpa veikum og fátækum, hvaða kirkjudeild sem þeir annars hafa tilheyrt. Nú á stríðsárunum hefir félagið unnið mikið í þarfir Rauða Krossins og lagt mikið af mörkum til hjálpar flóttabörnum og öðru slíku líknarstarfi. Sumarheimili barna á Hnausum hefir það einnig hlynt að.

Skömmu fyrir jól á hverjum vetri, hefir Eining unnið að því, ásamt öðrum félögum í sveitinni að halda samkomu til styrktar þeim og jólaglaðnings, sem örðugast eiga innan bygðarinnar. Og æfinlega hefir félagið lagt fram eitthvað af peningum til styrktar framfara fyrirtækjum sveitarinnar.

Til arðs fyrir félagið hefir það haft spilafundi, tombólur og dansa, og einu sinni voguðu konurnar sér að sýna skopleik. Voru leikendurnir kvenfélagskonur. Leikstjórnina hafði Aldís Magnússon með höndum. Hún var ein af okkar allra fjölhæfustu konum og var lát hennar félaginu óbætanlegur missir.

Þá hefir Eining haft árlegar útsölur á haustin og selt þar allskonar hannyrðir og heimatilbúinn mat. Nú er alt þetta lítt mögulegt, vegna skömtunar á ýmsum vörum og skorti á öðrum.

Á hverju hausti síðan 1931, hefir Eining haft heimboð fyrir alla

þá bygðarbúa, sem eru 60 ára og eldri, eins og í heiðurs og þakklætis skyni fyrir frumherja starf þeirra. Skemtiskráin hefir ávalt verið alíslenzk og hefir verið leitast við að fá góða ræðumenn lengra að á hverju ári, fyrir utan bygðarbúa, sem jafnan hafa líka skemt vel á ýmislegan hátt. Þessir hafa skemt á Haustmótum okkar með ræðum og erindum: Guðrún H. Finnsdóttir, Soffonías Thorkelsson, Bergþór E. Johnson, Stefán Scheving, Guðm. Jónsson frá Húsey, Þorvaldur Pétursson, Dr. og Mrs. S. E. Björnsson, Salóme Halldórsson, Emma von Rennesse, séra Halldór Johnson, Thomas Benjamínsson, Jónas K. Jónasson, séra Guðm. Árnason, Vigfús J. Guttormsson, Jón Halldórsson, Ágúst Magnússon, Skúli Sigfússon, Jón Kristjánsson, Ólafur Hallsson, Gísli Ólafsson, Björn Arnfinnsson og fleiri úr nágrenninu. Aðallega þökkum við tveim mönnum það, hversu skemtileg þessi Haustmót hafa verið, þeim séra Guðm. Árnasyni og Vigfúsi J. Guttormssyni. Séra Guðmundur stjórnaði Haustmótinu æfinlega fyrir okkur með fjöri og fyndni í orðum, sem hreif alla með sér í hátíðaskap. Vigfús J. Guttormsson hefir á hverju hausti gengist fyrir því að æfa myndarlegan söngflokk og smalað í hann öllum beztu söngkröftum úr Lundarbæ og nágrenninu og hefir gamla fólkinu þótt það unun að hlýða á íslenzku söngvana svo vel sungna.

Að lokinni skemtiskránni hafa svo verið framreiddar íslenzkar veitingar í samkomusalnum og hafa konurnar reynt eftir megni, að láta íslenzkan anda ríkja í fullum mæli þennan dag. Aldrei hefir verið til þess ætlast að menn borguðu fyrir inngang á þessi Haustboð, en fjöldi af vinum félagsins, sem sótt hafa boðið, hafa gefið peninga, svo Eining myndaði sérstakan sjóð með þeim gjöfum, til glaðningar sjúkum og fátækum. Nú síðustu árin hefir nokkru úr þeim sjóði verið varið til jólaglaðninga fyrir hermenn úr bygðinni, sem dvelja utan Canada.

Nokkrum sinnum hafa konur frá öðrum Sambandskvenfél. heimsótt okkar kvenfél. og hefir það ætíð verið til fróðleiks og skemtunar. Meðal þeirra sem komið hafa eru: Mrs. S. E. Björnsson, Mrs. E. J. Melan, Mrs. A. E. Kristjánsson, Mrs. Renesse, Mrs. Jakob Kristjánsson, Mrs. Andrea Johnson og fleiri.

Þegar Halldóra Bjarnadóttir heimsótti Vestur-Íslendinga, tók Eining í samvinnu við kvenfélögin Björk og Frækorn á móti henni hér í bygðinni og höfðu félögin öll umsjón með sýningu hennar og skemtisamkomu, sem haldin var að kvöldinu hér á Lundar.

Fjölda af samsætum, silfur- og gullbrúðkaupum hefir félagið ýmist staðið fyrir eða tekið þátt í með vinum sínum. Þegar kirkjuþing Sambandsins hafa verið haldin á Lundar hefir Eining haft umsjón með öllum veitingum fyrir þingfulltrúa og gesti.

Þrjár af þeim konum, sem stofnuðu fél. eru nú dánar, þær Guðný Guðmundsson dáin 1931, Aldís Magnússon dáin 1938 og Mekkin Guðmundsson, dáin 1942. Allar voru þær framúrskarandi áhugamiklar og dugandi starfskonur, bæði í safnaðar og kvenfélagsmálum. Mekkin Guðmundsson hafði tilheyrt Únitara söfnuðinum frá því að hann var stofnaður hér í bygðinni, hafði hún jafnan brennandi áhuga fyrir frjálslyndu trúarstefnunni og studdi það málefni af alhuga eins

lengi og heilsa og kraftar leyfðu. Eftir að heilsan bilaði, þá fylgdist hugurinn altaf með því, sem var að gerast. Hún var kjörin heiðursfélagi kvenfélagsins Eining árið 1935.

Hversu vel starfið hefir gengið á liðnum árum, þökkum við félagskonur að miklu leyti þeim prestshjónunum okkar séra Guðmundi Árnasyni og frú Sigríði. Fráfall okkar ágæta leiðtoga séra Guðm. Árnasonar og þar af leiðandi burtför frú Sigríðar héðan úr bygðinni var okkur öllum þungur harmur og eftirsjá. Enda er nú daufara yfir félagslífi okkar. Í samfleytt 10 ár starfaði frú Sigríður Árnason með áhuga og óbilandi dugnaði að safnaðar og kvenfélagmálum. Samvinnuþýða hennar og hjálpsemi verður okkur ógleymanleg. Við fundum til þess á síðasta Haustmótinu okkar að nú var séra Guðmundur ekki þar til að kasta björtum blæ yfir samkomuna og það sama má segja um öll okkar félagsmál, sem hann var jafnan reiðubúinn að rétta hjálparhönd. Og ekki var það einungis okkar félagsskapur, sem hann reyndist hjálpsamur og ráðhollur, heldur öllum þeim, er til hans leituðu og æfinlega án þess að fara í nokkurt manngreinar álit. Hann tók mikinn þátt í öllum framfaramálum bygðarinnar og er hans því saknað af öllum bygðarbúum. En Sambandskirkjufélagsskapurinn hefir þó mist mest, því frjálstrúarmálin voru hans brennandi áhugamál til hinstu stundar. Eftir að hafa orðið fyrir svo víðsýnum og góðum andlegum áhrifum, í þá beztu og réttustu átt, eftir okkra skilningi, viljum við af alhuga halda áfram þeirri stefnu, því "þótt bili hendur, er bættur galli, ef merkið stendur, þótt maðurinn falli."

Björg Björnsson (forseti), Rannveig Guðmundsson

**Kvenfélagið Framför í Piney**

Starf kvenfélagsins á þessu ári, hefir verið svipað og á liðnum árum. Við höfum hlúð að félagsmálum okkar eftir beztu getu, en heldur hefir okkur nú verið óhægra um vikin, því í haust, sem leið, töpuðum við úr félaginu nokkrum ágætum starfskonum, sem ásamt fjölskyldum sínum fluttu burt úr bygðinni. Ein félagskona, Mrs. Una Magnússon, andaðist, en þær fimm, sem fluttu burtu voru þessar: Mrs. S. S. Anderson, Mrs. Guðrún Williams, Mrs. Guðrún Kristjánsson, Mrs. E. E. Einarsson og Miss Helen Einarson. Kveðjusamsæti voru þessum vinum okkar og félagsfólki haldin, tókum við þátt í þeim og afhentum þá meðlimum okkar smáar gjafir að skilnaði.

Það sem kvenfélagið hefir þá helzt haft fyrir stafni er þetta: Hin árlega svuntusala og sala á heimatilbúnum mat. Veitingasala við myndsýningu. Hinni árlegu tombólu safnaðarins, tókum við þátt í að vinna að og söfnuðinum afhentum við peningagjöf.

Líka sendum við Sumarheimili barna á Hnausum dálitla peningagjöf og stoppteppi, sem kvenfélagskonurnar bjuggu til.

Spilafundi höfðum við, til arðs fyrir félagið og seint í haust seldum við happadrætti á alifugla og var ágóðanum varið fyrir jólatréssamkomu, sem haldin var fyrir skólabörn.

Eins og öll önnur félög gera nú, að sjálfsögðu, höfum við unnið að líknarstarfi í sambandi við stríðsþarfir. Rauða Kross félaginu, send-

um við peningagjöf og kvenfélagskonurnar saumuðu föt og gáfu þau til hjálpar flóttafólki. Hermönnum sendum við böggla og einnig dálitla peningaupphæð til Jóns Sigurðssonar félagsins. Þetta ár hafa engar konur frá öðrum kvenfélögum heimsótt okkur, en fólk á nokkuð erfitt með að ferðast undir núverandi kringumstæðum.

Fundi okkar höfum við í heimahúsum einu sinni á mánuði að undanteknum júlí og ágúst, því um þann tíma ársins, eru sveitakonur önnum kafnar við búskapinn.

Þessar konur voru kosnar í kvenfélagsnefndina: Forseti, Mrs. B. E. Björnsson; vara-forseti, Mrs. S. M. Lawson; skrifari og féhirðir, Mrs. K. Norman.

**Frá Sambandskvenfélaginu í Riverton**

Kvenfélagið í Riverton var stofnað 14. marz 1925. Stofnendur voru þessar konur: Mrs. G. M. K. Björnsson, Mrs. I. Sveinsson, Mrs. F. Sigurðsson, Mrs. H. Árnason, Mrs. Björn Hjörleifsson, Mrs. Sveinn Thorvaldson, Mrs. Jón Sigvaldason, Miss S. Ólafsson, Miss Sigr. Einarsson, Miss H. Halldórsson, Miss Ruby Thorvaldson, Mrs. Guðrún Björnsson. Í stjórnarnefndina voru þessar konur kosnar: Forseti, Mrs. G. M. K. Björnsson; skrifari, Mrs. I. Sveinsson; féhirðir, Mrs. F. Sigurðsson.

Þegar Sambandskvenfélagið í Riverton var stofnað, var tilgangur þess aðallega sá, að styrkja frjálslyndan söfnuð í bygðinni, og einnig að veita fátækum og líðandi eins mikla hjálp og auðið væri. Þetta markmið hefir verið aðal tilgangur félagsins þau ár, sem það hefir starfað, og er það enn. Auk þessara megin atriða hefir kvenfélagið haft með höndum mörg önnur málefni, sem hafa orðið á leið þess er árin liðu. Hvert ár hefir það lagt fram eftir megni fé til styrktar söfnuðinum og sunnudagaskóla hans, til Sumarheimilisins, Sambandskirkjunnar og til Sambands íslenzkra frjálstrúar kvenfélaga í Vesturheimi, og þegar með þurfti, styrkt unglinga til að sækja Ungmennafélags mótið, sem hin síðustu tvö ár hefir verið haldið að Hnausum í húsi Sumarheimilisins þar.

Kvenfélagið hefir eftir megni gefið fé til Rauða Krossins og einnig lagt fram síðasta ár til Hibbert Houses, sem eru stofnanir er Unitara kvenfélögin í Bandaríkjunum hafa stofnað til hjálpar hermönnum.

Síðast liðið ár hafði kvenfélagið skemtisamkomu, í félagi við konur úr Curling klúbbnum í Riverton, til ágóða fyrir styrktarsjóð til Rússa. Einnig söfnuðu þær 130 flíkum, er fólk í Riverton gaf í þessum tilgangi og var féð og fötin sent til Rússlands.

Í vetur hafa kvenfélagskonurnar sent til hermanna úr bygðinni, gjafir (boxes) og einnig bók þá, sem Unitara félagið í Boston gaf út til andlegrar leiðbeiningar hermönnum. Er sú bók send til allra hermanna, sem tilheyra Unitara kirkjunni.

Hin síðustu tvö árin hefir kvenfélagið lagt fé í sjóð, sem á að verja til að kaupa klukku í Sambandskirkjuna í Riverton, sem enn sem komið er hefir enga kirkjuklukku. Er búist við, að sjóður þessi verði bráðlega svo stór, að þessi von megi rætast.

Af því að félagskonur eru eigi fleiri en þær eru, virðast allar

þessar tilraunir þeirra þeim að mörgu leyti ofvaxnar. En máltækið segir að góður vilji megni alt. Konurnar hafa starfað öll þessi ár í náinni sameiningu að áhugamálum sínum og orðið því margt ágengt, auk þess hafa fyrirtæki þeirra tekist vel fyrir þá sök að almenningur í Riverton, hefir ætíð verið og er ennþá, mjög fljótur til að hlaupa undir bagga með hverjum þeim sem leitast við að hjálpa góðum málefnum, einkum ef einhver er hjálparþurfi eða á bágt. Fólk hér hefir að því, er eg veit bezt aldrei látið sértrú né sérskoðanir hamla drengskap sínum í þessum efnum á neinn hátt. En öll fjármál kvenfélaganna eru reist á velvilja og hjálpfýsi almennings og þessa hefir Sambandskvenfélagið í Riverton notið.

Eins og öllum þeim, sem að slíkum félagsskap starfa, er kunnugt um, þá kostar þetta einstaklingana mikla vinnu og fórnfýsi, en á því eru samt tvær hliðar. Auk vinnunnar reyna félagskonur að gera félagið skemtilegt og uppbyggjandi eftir því, sem föng eru á. Í þeim tilgangi hefir kvenfélagið gengið í "The Book of the Month Club", til að geta fengið góðar og fræðandi bækur til lestrar fyrir sig og vini sína. Auk þess hafa þær við og við skemtifundi og leitast þannig við að láta eigi félagsskapinn vera eintómt strit heldur líka til hressingar og gleði í félagslífinu.

Í stjórnarnefnd kvenfélagsins eru þessar konur: Forseti, Mrs. S. Thorvaldson; skrifari, Mrs. E. J. Melan; féhirðir, Mrs. G. Eyjólfson.

Olafía J. Melan,
skrifari Sambandskvenfél. í Riverton

## Frá kvenfélagi Sambandskirkjunnar í Winnipeg

Kvenfélag Sambandssafnaðar var stofnað 1. feb. 1904, undir nafninu "Kvenfélag Unitara". Þegar farið er yfir sögu þess, er erfitt að velja til frásagna í svona stuttu máli. Grundvallar lögin ákveða, að tilgangur þess sé að efla góðan félagsskap meðal íslenzkra kvenna í Winnipeg og styrkja mál hins unitariska félagsskapar á allan þann hátt er félagskonur fái viðkomið. Þessu hefir verið dyggilega fylgt. Hver einasta félagskona mun finna sig ríkari fyrir þær stundir, sem hún hefir átt í þessum félagsskap. Áður og um það bil sem kvenmenn fengu jafnrétti voru kvenfrelsismál tíðrædd á fundum.

Á stofnfundi félagsins er strax ákveðið að efna til samkomu og vanda til hennar eftir megni. Á næsta fundi er ákveðið að skifta ágóðanum til helminga til að festa kaup í lóð á horninu á Sargent og Sherbrook St., þar sem Unitara kirkjan var síðar bygð, og fyrir orgel í kirkjuna. Síðar borgaði fél. fyrir raflýsingu í kirkjunni. Hópurinn var lítill fyrst — aðeins 20 konur — en stórhuga voru þær. Auk álitlegra peninga upphæða, er söfnuðinum voru gefnar árlega, gáfu þær á næstu 17 árum söfnuðinum pípuorgel og tvö píano. Þegar Sambandssöfnuðurinn myndaðist var nafni félagsins breytt í "Kvenfélag Sambandssafnaðar". Bættust þá margar konur við úr "Kvenfélagi Tjaldbúðar safnaðar". Einnig bættust félaginu þá verkefni. Þegar kirkjan á Banning St. var bygð, gerðist saman sagan. Kvenfélagið borgaði allan kostnað við eldhúsið og eldhúsmuni og borð-

búnað, sálmabækur, gólfdúka, kertastjaka og fl. til að prýða kirkjuna og kerti hefir félagið lagt söfnuðinum til síðan. Um lengri tíma hefir það verið föst regla, að erindi séu flutt á fundum félagsins um ýms efni og sérstaklega tímabær mál, þessi erindi hafa verið bæði fróðleg og skemtileg. Tveimur samkomum hefir félagið veitt forstöðu á hverju ári. Sumarmála og þakklætishátíðar samkomum. Eru þær æfinlega alíslenzkar og vel vandað til þeirra og því mesta uppáhald eldra fólksins. Á kreppuárunum var inngangur ekki seldur, aðeins samskot tekin, eða engrar borgunar beðist. Auðvitað hefir félagið haldið aðrar arðberandi samkomur á ári hverju: spilafundi, matarsölur — þá mest alíslenzkan mat — kaffisölur, hannyrðasölur og fl. Fjölda af samsætum hefir félagið staðið fyrir og konurnar þá gefið allan veizlukost. Ætíð hefir félagið verið fljótt til að hjálpa öðrum félögum sem hafa barist fyrir góðum málefnum. Til dæmis má nefna félag, sem heitir "The Good Neigbours Club". Félag sem veitir hæli öldruðum eða fötluðum mönnum sem enga eiga að. Hefir það lestrarstofu, vinnuherbergi, borðsal og alskonar skemtanir fyrir þessa menn. Meðlimir kvenfélagsins hafa um margra ára skeið, ásamt öðrum kvenfélögum, hjálpað The Good Neighbours Club við fjársöfnun til starfrækslu, og oftast tekist að safna meiru fé en nokkuð annað félag.

Síðan stríðið skall á hefir félagið unnið fjarska mikið fyrir Rauða Krossinn, nefndir þær sem standa fyrir líknarstarfsemi í Noregi, Rússlandi og mörg slík fyrirtæki. Einnig sendir félagið böggla tvisvar á ári til hermanna, sem farnir eru frá Canada, og eru meðlimir safnaðarins eða félaga sem starfa í sambandi við hann. Einnig hefir það haft sérstaka nefnd til að heimsækja, gleðja og hugga félagsfólk og vini í veikindum og dauðstilfellum. Hjálparnefnd safnaðarins er einnig að mestu kvenfélagskonur. Kvenfélagið hefir gefið söfnuðinum álitlegar peningaupphæðir á hverju ári. Síðustu 20 árin hefir það gefið $13,140.00 fyrir utan peningagjafir til Hjálparnefndar, sem eitt ár kom upp á $400.00.

Fundargerðir og önnur skjöl Kvenfélags Sambandssafnaðar í Winnipeg sýna ljóst að hér hafa konur verið að verki, sem hafa óbifanlega sannfæringu og trygð við þau málefni, sem þær hafa verið og eru að vinna fyrir.

Þessar konur voru kosnar í kvenfélagsnenfdina: Forseti, Mrs. Jón Ásgeirsson; vara-forseti, Mrs. P. S. Pálsson; skrifari, Mrs. J. F. Kristjánsson; vara-skrifari, Mrs. B. J. Hallsson; Féhirðir, Mrs. B. E. Johnson; Fjármálaritari, Mrs. S. B. Stefánsson; vara-fjármálaritari, Miss Margrét Pétursson.

Steina Kristjánsson, ritari

## Evening Alliance, Winnipeg

Þetta félag ungra kvenna var stofnað 7. jan. 1943 af nokkrum ungum konum sem voru staddar í kvöldboði hjá Mrs. P. S. Pálsson, 796 Banning St., Winnipeg. Fleiri konur hafa síðan gengið í félagið og telur það nú 24 meðlimi.

Fundir eru haldnir tvisvar á mánuði, árið um kring, í heimahúsum félagskvenna. Að loknum venjulegum fundarstörfum er eitthvert

tímabært málefni tekið til umræðu. Félagið hefir samband við "Citizens Forum" og einnig hafa sumar konur félagsins tekið þátt í Ungmennanámsskeiðunum svo umtalsefni eru nægileg.

Á árinu, sem er að líða hafa konurnar lagt sérstaka stund á að kynna sér "Post War Planning". Um framtíðaráætlanir að loknu stríðinu, hefir verið rætt mikið í útvarpinu. Á hverjum fundi hafa verið kosnar tvær konur til að gefa greinilegt yfirlit yfir útvarpsræðurnar. Á næsta fundi eru svo þessi yfirlit af ræðunum lesin og á eftir fara fram almennar umræður.

Annað, sem félagið hefir starfað að, er stofnun smábarnaskóla (kindergarten), í sambandi við sunnudagaskóla kirkjunnar. Smáborð og bekki ásamt öðrum nauðsynlegum kensluáhöldum lagði félagið til. Þessu til styrktar var höfð spilasamkoma síðastliðið haust. Í skólann eru nú innrituð 12 lítil börn og teljum við víst, að óðum bætist fleiri í hópinn.

Á komandi hausti hefir verið ákveðið að efna til útsölu og er hún í undirbúningi. Félagið er svo ungt að starf þess er aðeins í byrjun. Yfir fundum þess hvílir jafnan gleðiblær og hafa ungu konurnar ánægju af að mætast og ræðast við um málefni sín.

Þessar konur voru kjörnar í stjórnarnefndina: Heiðursforseti, Mrs. P. S. Pálsson; forseti, Mrs. Ó. Pétursson; vara-forseti, Mrs. S. Bellingham; féhirðir, Mrs. W. F. Davidson; skrifari, Mrs. K. Mackenzie.

### Kvenfélagið Framsókn, Wynyard, Sask.

Frá okkar félagsskap er ekki mikið að segja í fréttum undir núverandi kringumstæðum. Við reynum að gera okkar bezta á þessum erfiðu tímum, erum nú, sem stendur 25 starfandi í félaginu. Fjórtán konur hafa flutt burtu síðustu árin og sex hafa dáið og eru nöfn þeirra þessi: Mrs. Árni Sigurðsson, Mrs. H. S. Axdal, Mrs. Ella Scyrup, Mrs. Sigurjón Eyriksson, Mrs. Svanborg Jónasson, Mrs. Steingrímur Thorsteinsson. Allar þessar konur tóku mikinn þátt í félagsmálum okkar og minnumst við þeirra með þakklæti og virðingu í huga. Einnig þökkum við þeim, sem burt hafa flutt fyrir samvinnuna og sjáum sjö augunum eftir þeim út í fjarlægðirnar.

Síðast liðið ár höfum við gefið til hjálpar Rauða Kross félaginu, Rússneska hjálparsjóðsins, einnig í sjóð til aðhlynningar hermönnum og til sjúkrahúss bæjarins. Þá styrktum við og C. K. klúbbinn, sem er líknarfélag hér og Sumarheimili íslenzkra barna á Hnausum. Svo höfum við vitaskuld unnið til styrktar söfnuðinum, sem félagið tilheyrir. Á hverju hausti höfum við útsölu, en blómasölu á vorin í maí mán. Á fundum okkar seljum við happadrætti fyrir 10 cent á ýmsa hluti, sem konurnar gefa á víxl. Þetta dregur sig saman í þó nokkra upphæð á árinu. Í júlí mánuði höfum við haft skemtifundi og býður félagið þá öllum vinum sínum og velunnurum að taka þátt í þeim fagnaði.

Síðast liðin okt. heimsóttu okkur þær Mrs. Churchill frá Boston, Mass., og Mrs. S. E. Björnsson frá Árborg, Man. Þær skemtu okkur með ræðum. Á eftir ræðunum settust konurnar að kaffidrykkju og skemtu sér við ánægjulegt samtal og vorum við allar glaðar yfir komu þessara góðu gesta. Jóna Axdal

# Clara Barton

**Erindi flutt fyrir kvenfélag Sambandssafnaðar í Winnipeg**

★

Eg hef verið beðin um að tala að einhverju leyti um vorið hér í kvöld. Núna sem stendur kveður náttúran sjálf sinn háa hreimfagra söng um vorgróðurinn. Jörðin breiðir fagnandi faðminn á móti löngum dögum, ljósi og lífi. Hvert blað og hvert straá, sem maður athugar, er í rauninni fullkomnasta lofgerðin um vorið.

Einn fegursti vorgróður jarðarinnar er fólk, sem lifir og starfar þannig, að það fegrar mannlífið og bætir kjör annara manna.

Oft og tíðum hafa slíkir mannvinir átt við samskonar örðugleika að etja og annar vorgróður jarðarinnar. Vorhret setja kyrking í gróðurinn og frostnætur eyðileggja viðkvæmar plöntur. Kuldi manna, öfund, tortryggni og áhugaleysi hafa um langar aldir kæft og fryst í hel framkvæmdaþrótt margra þeirra, sem barist hafa fyrir framförum og þroska mannfélagsheildarinnar. En upp úr þeim hópi karla og kvenna gnæfa þó hetjurnar, sem hafa borið blysin. Hugsjónir þeirra, vit og vinnuþol hafa skotið svo djúpum rótum, að þeim gróðri hafa frostnæturnar í mannheimum ekki getað grandað. Kærleikshugur þeirra og umbótaþrá hefir skynjað, að "lífið er stutt en listin er löng", listin sú, að hafa hugprýði til að lifa sjálfum sér og öðrum til heilla.

Við horfum núna fram á sumarið með kvíðandi augum, því við vitum að þrátt fyrir vorgróðurinn og sólskinsdýrðina, verður stríðið enn ægilegra. Um víða veröld verður mönnum þörf á mikilli hjúkrun, miskunsemi, og mannkærleika. Við verðum að anda djúpt og draga að okkur ilm vorsins, trúna á sjálft lífið, svo hugir okkar haldist hlýir og heilbrigðir.

Núna, þessa dagana er yfirstandandi almenn fjársöfnun í þarfir Rauða Kross félagsins. Allir þekkja nú og viðurkenna þá líknarstarfsemi, er það félag hefir með höndum. Um víða veröld starfar það að því, að bjarga mönnum undan brandi dauðans, draga úr kvölum sjúkra og rétta blíða og bætandi hönd hinum sjúku, hreldu og hrjáðu.

Nýlega hef eg lesið sögu þeirrar konu, sem var frumkvöð-

ull að stofnun Rauða Kross félagsins í Bandaríkjunum. Hún var ein af þessum göfugu hetjum, sem átti þann lífskraft í sál sinni, að sorg og fátækt hennar sjálfrar, þroskuðu hug hennar og milduðu hjarta hennar til skilnings og samúðar á kjörum þeirra, sem bjuggu við þröngann kost, bæði andlega og líkamlega.

Áróður, andúð og öfund hvöttu hana til að starfa meira í mannúðaráttina, hvöttu hana til að gerast umbótakona í mannfélaginu. Vorhugur hennar var ósigrandi.

Clara Barton var ein í þeim glæsilega hópi amerískra kvenna, er á öldinni sem leið, hófu baráttu og kröfðust meiri mannréttinda og meiri siðmenningar innan þjóðlífsins. Þessar konur hreinsuðu víða til, þær sópuðu niður aldagömlum myglu-vefum úr mannfélagshöllinni, opnuðu gluggana og hleyptu inn hreinna lofti og ljósi á líkan hátt og Lona Hessel gerir í einum leik Ibsens.

Clara Barton var fædd á jóladaginn 1821 í Oxford, Mass. Starf sitt hóf hún í Bordentown, New Jersey, um miðja síðustu öld. Hún var skólakennari og kendi fyrst í fæðingarbæ sínum Oxford, en um þrítugt flutti hún til Bordentown og þar mætti margt augum hennar, sem vakti hana til umhugsunar á mismunandi kjörum æskulýðsins þar í bænum. Eitt af því, sem olli henni óyndis, var að sjá hópa af óhreinum, tötralegum og ósiðuðum börnum flækjast á götum bæjarins frá morgni til kvölds, með ólátum og strákapörum sér til dægrastyttingar. Eitt sinn er hún var á gangi úti, mætti hún óálitlegum drengjahóp og tók þá tali, spurði þá hversvegna þeir væru ekki á skóla eins og börn á þeirra aldri ættu að vera. Þeir svöruðu að foreldrar sínir gætu ekki borgað skólagjöld til skólanna, sem efnaða fólkið kostaði börn sín á. Kom það upp úr kafinu að allir barnaskólarnir í bænum voru einkaskólar með háu skólagjaldi. Þá og þegar ákvað Clara Barton með sjálfri sér að gangast fyrir því, að alþýðuskóli með fríum aðgangi fyrir fátæk börn yrði stofnaður. Hún kom sér á framfæri við skólaráðið og bar þetta mál upp og bauð sig fram, sem kennara við hinn fyrirhugaða skóla götulýðsins. Skólaráðið aftók með öllu að vinna að því, að stofna frískóla.

Clara Barton sagði þá upp kennarastöðu sinni, við einn einkaskólann og byrjaði í allri alvöru að vinna að stofnun frískólans. Maðurinn sem hjálpaði henni mest og bezt til að hrinda þessari skólastofnun í framkvæmd var unnusti

hennar, T. Maxwell, ágætur maður. Þau fengu lánaðan, leigulaust, gamlan húshjall, sem enginn bjó í lengur. Þau máluðu húsið og ræstu og skrifborð og bekkir voru smíðuð úr óhefluðum við. Öll kensluáhöld voru fátækleg og aðsóknin lítil í fyrstu.

Á fyrsta árinu varð skólinn meira en fullskipaður og stofnun hans afar vinsæl meðal almennings. Fólk var farið að benda á þetta starf Clöru Barton, sem fyrirmynd, er vert væri að breyta eftir. En mönnum þeim, er skipuðu skólaráðið í Bordentown, sýndist annað. Heimtuðu þeir nú að stjórn skólans yrði í þeirra höndum, en Clara Barton neitaði algerlega að lúta skólaráðinu.

Á þessum árum var gullnema straumurinn til Californíu eina mestur. Tom Maxwell langaði að reyna hamingju sína þar, vildi hann að þau giftu sig og færu bæði, en Clöru fanst hún ekki geta yfirgefið skólann, fyr en þessi deilumál voru útkljáð, svo Tom fór einn.

Eftir því sem skóli hennar óx og dafnaði, varð skólaráðið henni þyngra í skauti. Einkis var svifist til að rýra gildi skólans, en það, sem hreif þó mest, var það, að skólaráðið kom því inn hjá almenningi, að það væri bænum vanvirða að kona væri formaður og stjórnandi skólans. Alþýðan trúði þessu og fólkið, sem átti börnin, er Clara Barton smalaði af götunum til að kenna og siða, snerist nú á móti henni í skólamálinu. Henni var boðið að halda áfram, sem undirkennari en það afþakkaði hún með öllu og hætti að kenna. Henni kom til hugar að fara vestur til Californíu og giftast Tom, en hann hafði enn ekkert gull fundið, svo hún var hrædd um, að hann ætti ekki hægt með að taka á móti sér í svipinn. Bordentown var orðinn henni of þröngur og þar vildi hún ekki vera lengur.

Í Washington var gamall vinur hennar þingmaður í efri málstofunni. Hann hafði bent henni á, að hún gæti ef til vill fengið atvinnu við einhverja deildina í stjórnarskrifstofunum.

Til Washington fór hún svo og beið þar vikum saman, þar til hún fékk vinnu í einkaleyfis skrifstofudeild stjórnarinnar með $1400 dala árslaunum. Sama daginn sem hún fékk atvinnuna, kom bréf frá unnusta hennar, hann hafði fundið gull, nú gátu þau gift sig og hann ætlaði að koma og sækja hana.

Og nú gekk alt að óskum fyrir Clöru Barton. Hún hafði ekki unnið lengi í skrifstofunni þegar hún var skipuð formaður

einkaleyfis deildarinnar. Hún taldi sig nú hafa unnið sigur yfir almennings álitinu í Bordentown, því stjórnarstaða í Washington var ólíku virðulegri, heldur en skólakennarastaðan, sem henni var talin ofvaxin. Nú var hún viljug að gifta sig, hún hafði unnið þann sigur, að komast áfram af sjálfsdáðum. Henni hafði verið óljúft að flýja inn í hjónabandið.

En þegar hamingjan virtist standa föstum fótum, fékk hún fregnina um lát unnusta síns. Hann hafði veikst skyndilega, um það bil að hann var að leggja af stað til að sækja hana. Síðar fékk hún svo $10,000 dali í gulli, sem hann hafði beðið um, að henni yrði sent, skömmu áður en hann dó.

Eftir lát Toms, fanst henni sem æfisól sín mundi vera gengin til viðar, nú hafði hún góða stöðu og gullið, sem hann sendi henni. En til hvers var það alt nú, úr því hann var dáinn? Vafalaust hefir hún ásakað sig þunglega fyrir að fara ekki með honum til Californíu og spurningarnar hafa elt hana, hvað gat hún gert til að bæta fyrir það, að láta skólaþrasið verða þyngra á metunum en hann. Svarið við öllum þeim spurningum fékk hún fyrirvaralaust, eins og oft vill verða.

Þrælastríðið var byrjað og Clara Barton var orðin liðlega fertug kona. Dag einn, er hún stóð í döprum hugleiðingum við gluggann sinn, kom hún auga á hermanna fylkingu, sem hafði numið staðar á götunni framan við húsið, er hún bjó í.

Alt í einu heyrir hún sagt: "Þetta er Miss Barton." Hún leit niður á götuna og mætti þar brosandi andlitum hermannanna. Bordentown götudrengirnir höfðu ekki gleymt henni, né því, að hún hafði verndað þá frá því að lenda á glapstigu. Nú urðu þeir sálu hennar verndarenglar á einkennilegan hátt.

Um leið og þeir kölluðu til hennar og heilsuðu henni, þekti hún þá, þótt þeir væru nú orðnir stærri og klæddir hermanna búningum. Það var gott að sjá þá aftur og hún veifaði til þeirra og brosti með tárin í augunum. Hún flýtti sér út og fann þarna stórann hóp manna frá Oxford og Bordentown. Þeir voru klæðlitlir, hungraðir og illa til reika. Hermálaráðið hafði ekki átt von á þessari herdeild til Washington, svo þessa menn skorti húsnæði, mat, föt og alla aðhlynning, því hvergi var auð smuga lengur til að hýsa hermennina, sem drifu að, ýmist særðir og göngumóðir frá vígvöllunum, eða herdeildir, sem voru á leið til vígstöðva.

Þegar Clara Barton heyrði um ástæður þessara þreyttu og særðu manna, vissi hún alt í einu hvað hún ætlaði sér að gera

í framtíðinni. Henni fanst, sem Tom stæði aftur við hliðina á sér, ungur og sterkur og hvetti sig til að hjálpa þessum drengjum, eins og þau höfðu gert áður, þegar þau voru að koma skólanum á fót. Nú vissi hún til hvers hún ætlaði að nota gullið frá honum.

Það er haft fyrir satt, að þetta atvik hafi í rauninni orðið til þess, að Clara Barton byrjaði sína stórkostlegu líknarstarfsemi, sem svo síðar varð til þess, að Rauða Kross félagið var stofnað í Bandaríkjunum.

Eftir að hún hafði talað þarna við skóladrengina sína, fór hún nú heldur en ekki á stúfana og lét ekki gras gróa undir fótum sér. Hún safnaði á stuttum tíma ýmsum nauðsynjum handa hermönnunum og færði þeim mat, handklæði, sápu, rúmföt, sáraumbúðir og fleira, þar sem þeir ýmist sátu eða lágu, í fordyrum eða á göngum þinghússins, því þar var eini gistingastaðurinn, sem hægt var að útvega þeim í bráðina. Á meðan þeir voru að borða las hún þeim fréttir úr vikublöðum, sem hún keypti úr heimhögunum, því í langa tíð höfðu þeir ekkert frétt heiman að.

Hún skrifaði nú helztu blöðunum í Oxford og Bordentown, útskýrði ástand hermannanna og peningaskort ríkisfjárhirzlunnar. Bað hún um að send yrðu föt, rúmföt, matur, sáraumbúðir og blöð til drengjanna. Þessum bréfum hennar var svarað með svo miklum og stórkostlegum sendingum, að Clara varð í vandræðum með geymslurúm. Hún tilkynti þá hermálaráðinu að allur þessi varningur lægi fyrir skemdum ef ekki fengist geymslustaður. Henni var leyft að láta flytja þetta til þinghússins til útbýtingar þaðan.

Þrælastríðið herti nú óðum að, fylkingar fóru með hornablæstri, bumbuslætti og veifandi fánum, en frá vígstöðvunum koma aftur þögulir, særðir og af sér gengnir menn.

Öll sjúkrahús voru full, skyndiskála og tjöld, sem slegið var upp handa særðum og sjúkum hermönnum, skorti flest það, sem læknar og hjúkrunarkonur þörfnuðust. Hróp um hjálp var sent út um landið hvað ofan í annað.

Clara Barton var nú byrjuð á líknarstarfi sínu í allri alvöru. Hún ferðaðist austur um Nýja Englands ríkin og útskýrði ástandið. Hún sá fljótt að skipulögð vinna var nauðsynleg og líknarfélög voru mynduð. Þegar hún kom til baka úr þessu ferðalagi, fór hún aftur að vinna að því, sem hún hafði verið í undirbúningi með og það var, að koma í fram-

kvæmd skyndihjúkrunarstöðvum á vígvöllunum, í stað þess að flytja hættulega særða menn og hálfdauða til sjúkrastöðva lengra frá. Að taka sér slíkt fyrir hendur, var ekki auðvelt verk, því fyrst í stað vildu yfirvöldin engin slík afskifti. En Clara Barton átti marga vini, sem greiddu götu hennar í þessum málum. Frá hermönnum fékk hún upplýsingar um ýmislegt, er að var, og málsmetandi menn í Washington treystu henni. Það er sagt að Lincoln hafi verið vel kunnugt um starf hennar og að áhrif hans, hafi átt sinn þátt í því, að hún fékk leyfi til að hafa frjálsar hendur á ýmsum þeim sviðum, sem konum voru á þeim dögum bönnuð.

Eftir að Clara Barton hafði fengið allar þær upplýsingar, sem henni var hægt að ná í frá öðrum, fékk hún leyfi til að mega ferðast til eins vígvallarins og flytja þangað sjúkranauðsynjar að orustunni lokinni. Hún sá menn liggja særða í hrönnum, sem þörfnuðust skyndi aðhjúkrunar. Hún gekk um valinn, eina konan þar og fylgdarmaður með henni, sem sagði: "Mig grunar að yður fýsi ekki í annað svona ferðalag Madam." Hún svaraði "Yður grunar rangt, hér eftir ætla eg ekki einungis að vera viðstödd að bardaganum loknum, heldur ætla eg að vera komin áður en hann byrjar."

Þessi ferð hennar sannfærði hana um, að mörgum mannslífum mátti bjarga ef hjálpin var við hendina. Hún fékk því leyfi yfirhershöfðingja Ruckers 17. sept., 1862, til að setja upp hjálparstöðvar við vígvelli, eins víða og unt væri, áður en bardagar byrjuðu, til þessara stöðva var svo flutt það bráðnauðsynlegasta eins og t. d. rúmföt, lausir beddar og börur, meðul, sáraumbúðir, matur og drykkir til hressingar særðum. Alt þetta starf var nú undir stjórn Clöru Barton og hafði hún verið svo fljót í förum, að hermennirnir sögðu að hún væri fljótari fallbyssuskotunum. Í sambandi við þetta líknarstarf óx henni ekkert í augum. Hún gekk um valinn og leitaði þeirra, sem voru lifandi og fylgdist hún oft með mönnum þeim, er báru særða úr valnum og lagði til hjálparhönd. Hún ferðaðist með lestum, sem var hrein og bein lífshætta að fara með og hún keyrði í skröltandi bjálkavögnum, sem þrályndir múlasnar gengu nauðugir fyrir. Aldrei hafði henni brugðið, þegar ökumennirnir fóru að ausa yfir múlasnana sínum margsamantvinnaða blótsyrðaforða.

Hún ferðaðist með riddaraliði og sat rólega æðisgengna og eflda stríðshesta. Því var viðbrugðið, þegar hún reið frá Fred-

ericksburg yfir Rappahannock í fylgd með riddaraliði, undir kúlnahríð og logandi eldflóði byssukjaftanna. Á þeirri ferð voru fötin hennar tætt í sundur, en hana sakaði ekki. Öðru sinni var hún stödd á vígvelli og var að gefa deyjandi hermanni vatn að drekka, kúlu var skotið í gegnum ermina á kjólnum hennar, en hún fékst ekkert um það.

Eftir bardagann við Wilderness, blöskraði henni svo kringumstæðurnar, að hún fór til Washington og kom því til leiðar, að hallir og heimili ríka fólksins í Fredericksburg væru gerð að sjúkraheimilum. Í þeirri sömu ferð heimtaði hún einnig, að stjórnarrannsókn væri hafin í sambandi við framtaksleysi og trassaskap þeirra manna, sem fóru með stjórnarvöldin í Fredericksburg.

Var það gert, og má af því dæma hversu mikils orð hennar voru virt.

Clara Barton hafði verið ákaflega gætin með að breyta aldrei í bága við herreglur eða viðtekna hætti og siði hermanna. Engum virðist kunnugt um, hvaðan henni kom sú þekking, en sumir hyggja að faðir hennar, sem var gamall hermaður, mikilsmetinn, hafi kent henni allar þær reglur þegar í æsku. Var þessi þekking henni mikil hjálp í starfi hennar og umgengni við allar stéttir hermanna. Læknum og hjúkrunarkonum var ekki um hana fyrst í stað, álitu að hún ætlaði sér að vaða yfir þeirra landamæri, en þar fór á sömu leið, henni var kunnugt um merkjalínuna og ávann hún sér tiltrú þeirra og traust.

Í byrjun stríðsins hafði hún boðið sig fram fyrir hjúkrunarkonu, en var álitin of fíngerð kona til að þola þá vinnu. Inngöngu skilyrði fyrir hjúkrunarkonur í stríðsþarfir, voru þá dálítið ólík því, sem nú tíðkast. Þær urðu að vera sterklegar konur, ólaglegar og yfir þrítugt, búnar svörtum skósíðum kjólum, krínólínur máttu þær ekki nota eða nokkurt skraut, slaufur eða blúndur, er þá prýddi kvenbúninga. En eitthvað mun þó hafa verið brugðið út af þeim reglum síðar, því þegar neyðarkall um hjálp kom til allra fullvaxinna kvenna í Baltimore 1863, var ekkert talað um búninga eða útlit.

Þegar stríðinu lauk í apríl-mánuði 1865, var Clara Barton orðin þjóðfræg kona í Bandaríkjunum, elskuð og virt. Ef hermannahópar sáu hana hyltu þeir hana, sem drotningu. Eftir stríðið hélt hún áfram sama starfinu, því alt var í rústum innan þjóðlífsins, og mikil þurfti með af líknarstarfsemi.

Lincoln forseti hafði bent á hana og eftirmaður hans,

Johnson forseti, útnefnt hana, til að semja fyrir stjórnina sögu þeirra manna er höfðu horfið, (týnst) í stríðinu. heimkominna fanga og allra þeirra þúsunda er fallið höfðu óþektir á vígvöllunum. Stjórnin fékk Clöru Barton í hendur allar skrár og skilríki, sem gátu orðið henni til hjálpar í þessu feikna mikla og vandasama verki. Í sambandi við þetta starf heimsótti hún illræmdar fangabúðir, ferðaðist víða og stofnaði bréfasambönd við fjölda frænda og vina þeirra manna, er hún var að leita upplýsinga um.

Skipulagðri líknarstarfsemi hélt hún áfram, því hvar, sem flóð, skógareldar, stórbrunar, hvirfilbyljir eða einhver stórslys komu fyrir, var hjálp hennar við hendina. Hún sá aldrei í kostnað, og var ör á fé til hjálpar öðrum, en lifði sjálf mjög sparsamlega.

Nokkrum árum eftir stríðið fór hún til Evrópu og ætlaði að hvíla sig í hreinu fjallalofti uppi í Sviss. En hvíldin varð ekki löng. Frægðarorð hennar hafði flogið á undan henni og í Geneva kom til hennar sendinefnd frá Rauða Kross félaginu, sem var stofnað þar 1864 og nú var að vinna að alþjóða sambandi. Var hún beðin um að umgangast það að Bandaríkin gengju í þetta samband. Tók hún því máli með gleði og lofaði fylgi sínu.

En margt skeði í millitíðinni. Henni dvaldist í Evrópu því stríðið milli Prússa og Frakka braust út og vann hún þá eins og hetja að líknarstörfum með vinum sínum frá Sviss, til hjálpar og hjúkrunar þýzkum hermönnum.

Síðar fór hún til Frakklands í samskonar erindum, dvaldi hún um tíma í París og hjálpaði mikið þar. Hún hafði horft á Strassbourg falla í rústir og þangað fór hún aftur og stofnaði þar líknarfélag með peningahjálp frá Ameríku og hertogafrú Louise frá Baden. Þetta líknarfélag vann á víðari sviðum heldur en Rauða Kross félagið gerði á þeim tímum. Clara Barton trúði ekki á það að frelsun manna frá allsleysinu fengist með gustukagjöfum, heldur benti hún mönnum á að vinnufæru fólki yrði að útvega atvinnu. Byrjaði hún sjálf að vinna að þeim málum. Þegar hún sá svo þann árangur af starfi sínu, að fólkið var byrjað að hjálpa sér sjálft, lét hún í haf, heimleiðis til Ameríku.

Í Evrópu var Clara Barton sæmd krossum, orðum og heiðursmerkjum af keisurum, konungum og öðru stórmenni. Aldrei

bar hún neitt af því dóti, nema eina litla nælu, merki Rauða Krossins.

Samband Rauða Kross félagsins við Bandaríkin var nú orðið henni hjartans mál. Hún hafði unnið með félaginu í Evrópu og þekti nú starf þess út í yztu æsar. Formaður Rauða Kross félagsins, dr. Appia, hafði beðið hana um að reyna að koma því í framkvæmd, að Bandaríkin gengju í Rauða Kross sambandið. Fékk hann henni í hendur umsóknarskjöl, sem hann bað hana um, að koma á framfæri við þingið í Washington.

Eftir að hún kom heim reyndi Clara Barton að fá þessu máli framvísað á þinginu. Þingmennirnir, sem hún átti tal við, lofuðu öllu fögru, en forðuðust allar framkvæmdir. Voru þeir mjög efins í þessu máli og voru hræddir um að þetta gæti að einhverju leyti brotið í bága við Monroe-samninginn.

Að lokum tók Clara Barton það ráð, að fá að tala við James Garfield forseta. Hún útskýrði greinilega fyrir honum starf Rauða Kross félagsins og fyrirkomulag þess í Evrópu og víðar. Forsetinn hlustaði hrifinn á þessa merkiskonu og lofaði hann henni fylgi sínu og skjótum framkvæmdum í málinu. Garfield stóð við þau loforð því 17. maí 1881 var það samþykt, með öllum greiddum atkvæðum í þinginu, að Bandaríkin gengju í Rauða Kross sambandið. Í júní mánuði 1881 var svo Ameríska Rauða Kross félagið stofnað, undir stjórn og handleiðslu Clöru Barton og var hún kjörin forseti félagsins. Það embætti skipaði hún þar til hún var yfir áttrætt. Síðustu ár æfinnar starfaði hún, eftir megni, að þessu áhugamáli sínu þar til hún andaðist í hárri elli, níræð að aldri.

Clara Barton hafði verið tæplega meðal kona á hæð, grannvaxin og fíngerð. Prúð og hæversk í framkomu. Hún var vel ættuð og víðmentuð kona, gáfuð og vitur í umgengi og gædd miklum stjórnar hæfileikum. Hún var ákveðin og föst í lund og er sagt að hana hafi aldrei brostið kjark, né skort viljaþrek. Hún mátti ekkert aumt sjá, svo að hún ekki reyndi að bæta úr því.

Við að athuga æfistarf og lífsreglur, þessarar mikilhæfu konu, flögra um hugann þessar hendingar eftir Stephan G.:

"Hvar sem mest var þörf á þér,
þar var bezt að vera."

**Guðrún H. Finnsdóttir**

# Ársþing Kvennasambandsins



Sautjánda ársþing Kvennasambandsins, var haldið á Gimli 26. og 27. júní 1943. Þingið var vel sótt og mörg mál afgreidd. Önnur voru lögð í hendur milliþinganefnda, til undirbúnings og afhendingar á næsta þingi, nú á þessu sumri.

Frú Ólafía Melan, ritari stjórnarnefndar Kvennasambandsins, birti ítarlegan þinggerning í "Heimskringlu", síðast liðið sumar. Er því ónauðsynlegt að endurprenta hann hér, enda ekkert rúm í ritinu fyrir svo langt mál.

Skemtisamkomu Kvennasambandsins, er haldin var í Parish Hall á Gimli á laugardagskvöldið 26. júní, gat frú Melan einnig mjög greinilega um. Söngfólkið og aðrir, er þar skemtu með pianospili, upplestri og leiklist var kallað fram með hrifningu og áköfu lófataki. Frú Anna Jónasson, kona Kristjáns læknis Jónassonar, frá Reykjvík, var ræðukona kvöldsins. Flutti hún mjög áheyrilega, skemtilegt erindi um Reykjavík nútímans. Hafði fólk verulega gaman af, að heyra hana segja frá vexti, framförum og staðháttum, höfuðstaðar Íslands.

Síðara þingdaginn fóru fram kosningar, voru tvær konur kjörnar heiðursfélagar: Frú Anna Gíslason, ekkja Eiríks Gíslasonar frá Egilsstöðum á Völlum á Fljótsdalshéraði. Voru þau hjón ein af frumherjunum, sem stofnuðu Unitara söfnuðinn í Winnipeg, fyrir meira en hálfri öld síðan. Frú Ingibjörg Johnson frá Oak Point, ein af Markland landnemunum. Báðar þessar konur eru háaldraðar og hafa lengi stutt trúlega frjálstrúarstefnuna.

Frú Sigríður Árnason, ekkja Séra Guðmundar Árnasonar, var kjörin annar lífstíðar heiðursforseti Kvennasambandsins.

Stjórnarnefnd Kvennasambandsins skipa þessar konur: Forseti, Mrs. S. E. Björnson; vara-forseti, Mrs. Gísli Jónsson; skrifari, Mrs. S. Oddleifsson; bréfritari, Miss Kristín Benson; féhirðir, Mrs. P. S. Pálsson; fjármálaritari, Mrs. H. Renesse. Meðráðendur: Mrs. E. J. Melan, Miss Margrét Pétursson, Miss Sigurrós Vídal. Formenn milliþinganefnda: Mrs. E. J. Melan, Miss Hlaðgerður Kristjánsson, Miss S. Vídal, Mrs. S. E. Björnson, Mrs. G. Árnason. Yfirskoðunarkonur, Mrs. B. Stefánsson, Mrs. B. E. Johnson. Í Sumarheimilisnefndina voru þessar konur kjörnar: Mrs. S. E. Björnson, Mrs. P. S. Pálsson, Miss S. Vídal, Mrs. H. Renesse, Mrs. S. Thorvaldson, Mrs. B. Hallsson.

**G. H. F.**